# FRÁ AUSTRI TIL VESTURS

Framhald
af landnámssögu
Nýja-Íslands



Eftir

**THORLEIF JACKSSON**

THE COLUMBIA PRESS LIMITED, PRINTERS
Winnipeg, Man, 1921

INNIHALD:

| | Bls |
|---|---|
| Formáli | 5 |
| Bréf og kaflar úr bréfum, rituð af Íslendingum í Vesturheimi, 1872—1877. — "Norðanfari" | 7 |
| Skapti Arason | 69 |
| Magnús Stephansson | 81 |
| Jón Jónsson á Mæri | 86 |
| Landnámsþættir: Mikley | 99 |
| Viðauki við landnámssögu Fljótsbygðar | 139 |
| Hnausabygð | 146 |
| Árnesbygð | 173 |

# FORMÁLI.

Þegar eg fyrir tveimur og hálfu ári síðan hafði afráðið að reyna að rita landnámssögu Nýja Íslands, fanst mér að eg líka þyrfti að rita eitthvað af sögu fyrstu vesturfara frá Íslandi til Norður Ameríku, frá því þeir lögðu út frá ströndum ættlandsins, til þess tíma, að þeir voru búnir að velja sér framtíðar verustað í vesturfylkjunum í Canada og í Bandaríkjunum, því um það hefir of lítið verið ritað.

Til þess að sýna ofurlitla mynd af þessu, sem eg hefi minst á, hefi eg gert eftirritun af bréfum, prentuðum í Norðanfara, rituðum af Íslendingum í Vesturheimi og send heim til Íslands á árunum 1872—1877. Koma þau nú fyrir almenningssjónir í þessari nýju bók minni. en hefðu átt að vera í hinni fyrri (Broti af landnámssögu Nýja Íslands), sem fyrri partur þeirrar bókar, þótt hún hefði þá orðið stærri.

Í bréfum þessum er sagt frá tilraunum, gjörðum af ýmsum leiðandi mönnum, til að velja íslenzkt nýlendusvæði í Austur-Canada og í Wisconsin í Bandaríkjunum, og einnig norðvestur í Alaska. En þær tilraunir verða árangurslausar. Og svo, þegar það sézt, að ekki má lengur svo búið standa, er afráðið að leita frá austri til vesturs, velja nýlendusvæðið í vestrinu, þó ekki sé farið alla leið til Alaska.

Í þessari bók minni, eins og í hinni fyrri, í þáttum landnámsmannanna, get eg þeirra eftir afstöðu bæjanna: get frumbyggjanna allra, sem eg hefi getað fengið upplýsingar um, og hinna, sem seinna komu og settu heimilislandtökurétt á löndin, sem frumbyggjarnir voru fluttir í burtu af. En svo eru sum lönd, sem ekki voru numin í fyrstu land-

námstíð, og þar er ekki nema um einn landnema að ræða. Um fáeina seinnitíðar landnámsmenn hefi eg ekki getað fengið upplýsingar.

Af því fyrri partur bókar þessarar tekur svo mikið rúm, sá eg mér ekki fært í þetta sinnið að komast með landnámsþættina lengra suður en syðst í Árnesbygðina. Víðinesbygðin verður að bíða næstu bókar.

Aftast í bók þessari eru leiðréttingar á villum, sem urðu í hinni fyrri bók minni (Broti af landnámssögu Nýja Íslands). Gáði eg ekki að því fyr en of seint, að þar voru villur, og var líka bent á sumar þær af öðrum. En ef einhvern tíma yrði gefin út Landnámssaga Vestur-Íslendinga, dregin saman í eina heild, bygð á þeim landnámsþáttum, sem ýmsir hafa ritað, þá er áríðandi að villur allar séu leiðréttar, sem í þáttunum eru, svo alt verði þó að síðustu rétt.

Winnipeg, 7. apríl 1921.

**Þorleifur Jóakimsson, Jackson.**



*Arnljotur B. Olson*

**Kafli úr bréfi frá Íslendingi á eyjunni Washington í Ameríku, dagsett 8. marz 1872.**

"Veðráttan hefir verið hér heldur góð í vetur, þó kalt hafi verið stundum; nú er búið að vera moldungs fjúk frostlaust í 3 dægur, og hugsa menn að það sé endir vetrarins og nú fari sólin að bræða snjóinn, stendur eigi svo lengi á því, þegar hlýviðri er komið á annað borð.—Eg er búinn að vera hér fjóra daga úti á ís að fiska og fá 50 fiska, og hefi selt þá fyrir tæpa 7 dollara; hér koma menn að kaupa fiskinn og flytja til næstu staða; gefa þeir 4 cent fyrir pundið. Hér eru margir fiskarar frá nærliggjandi stöðum, og liggja þeir í smá-kofum hér og fara nú, þegar ís veikist. Þegar enginn kemur að kaupa í nokkra daga, láta þeir fisk sinn hér hver hjá öðrum, og aldrei tekur neinn frá öðrum einn fisk; sumir fá 30 á dag, sumir 0. "Svipul er sjóveiðin."

Nú er að segja söguna af Jóhannesi.*)

Hann kom til okkar og fór að reyna að höggva brenni; gekk honum það ervitt í fyrstu, en þar sem hann var í verki með okkur, lærðist honum það fljótlega; kerling hans vann fyrir sér og barninu innan húss; var hann hér svo fram á vetur; þá komum við honum hér fyrir hjá ekkjumanni, sem er einn í húsi, og má hann vera í húsinu ef hann vill í sumar, upp á litla leigu, því maðurinn fer eitthvað í sumar að fá sér vinnu. En Jóhannes á að sá í akur mannsins, sem ekki er stór, og það getur kerlingin, en hann getur verið að sá og hreinsa fyrir aðra upp á há daglaun alt vorið. Nú í vetur hefir hann höggvið fyrir 1—1½ dollar á dag, en brúkað handa þeim þremur 30 cents (55 skildinga) á dag, og hann segist vera óvanur að lifa á pönnukökum með sýrópi, fleski og baunum, steiktu fleski og kartöflum, fransbrauði (það er hvetitibrauð, en annað mjöl en hveiti er ekki brúkað), og svo 12—14 bolla af kaffi á dag, því hér er það siður, að láta altaf í bollann þegar hann er tómur,

---

*) Jóhannes þessi var fátækur bóndi á Suðurlandi; hann sigldi vorið 1871 með skipi frá Eyrarbakka, með konu sína og barn; hann skildi ekkert útlent mál, og þótti miður hæfur til þeirrar farar í fleiru tilliti.—*Höf.*

máltíðina af, og geta sumir sem þorstlátir eru drukkið nokkra bolla af ilmsætu kaffi. Þetta er nú lélegasta fæðan sem hér gjörist, en Jóhannes segir mikin mun á henni og mjólkurbollanum eina á Íslandi. Hér er borðað af sumum fimm sinnum á dag; helzt eru það norskir og Þýzkir, sem svo oft næra sig. Þetta Jóhannesar fæði er nú keypt um harðasta tímann hér; svo þið sjáið hvort það er mjög dýrt að lifa hér. Þetta pláss er annars eitt hið bezta fyrir fátæka að koma til, því þeir geta haft nóg úr vatninu, og af jörðinni til að lifa af; aftur er það eitt hið lakasta fyrir mann, sem hefir næga peninga og getur farið þangað sem jörðin gefur af sér ríkulegri ávöxt. Eg voga að segja, að það er enginn letingi og slóði á Íslandi, sem eg þekki, hvað mörg börn sem hann á, að hann eigi geti lifað hér sældarlífi, því þó maðurinn engu nenti, sem enginn er svo aumur, þá getur konan með elztu börnunum, sáð fyrir framan húskofan nægu til að lifa af, en manninum ætla eg að taka fiskinn úr vatninu til að eta, því það er nægð af fiski við landsteinana, sem er góður að borða; en sá, sem er seldur (hvítfiskurinn og bleikja), verður að sækjast langt frá landi."

---

**Kafli úr bréfi frá Jóhannesi Arngrímssyni frá Nesi í Höfðahverfi. — Flutti til Vesturheims 1872. Bréfið er dagsett í Milwaukee, 22. september 1872.**

"Þann 28. dag maímánaðar fórum við þrír félagar um borð á skipið Emma Aurvegne, er það lá á Akureyrarhöfn, og komust þá ekki lengra þann dag en út fyrir Oddeyri; 29. náðum við út að Hrísey; 30. var landnorðan stórhríð. 1. júní leystum við frá Hrísey og daginn eftir vorum við komnir vestur af Grímsey; 4. sama mánaðar sigldum við með fram Melrakkasléttu og var hún hið seinasta, er við sáum af fósturjörðunni. 7. sáum við Færeyjar í út-suður, þ. 10. sáum við skonnortu-skip, er hafði stefnu til Englands; þ. 11. sáum við gufuskip, þ. 13. komum við til eyjunnar Thorhall, og hittum þar 4 af eyjarskeggjum, er sýndust mjög líkir fjarðabúum. Um kvöldið sáum við eld í vestri, sem haldið var að væri í Liverpool; 22.. sáum við vita brenda á Líðandisnesi í Norvegi; 23. sigldum við inn á Christianssands höfn; var akkerum varpað þar kl. 2 e. m., en ekki fórum við á land fyr en daginn eftir; við höfð-

um líka nóga skemtun af að sjá gufuskipin ýmist fara eða koma. 24. skemtum við okkur í bænum, sem er mikið snotur. 25. tókum við far hjá Karl Hansen, sem er agent fyrir gufuskipalínuna "Den hvide Stjerne. Að þessu búnu skemtum við okkur í bænum, það sem eftir var dagsins, og fórum um borð í gufuskipið kl. 12 e. m. Þann 26. greiddum við farareyririnn til agentsins, er var að upphæð 80 ríkisdalir 64 skildingar fyrir hvern okkar, alla leiðina frá Christjánssandi til Milwaukee. Á miðþiljum skipsins var okkur vísað til rúms, sem ekki var nú upp á það bezta. 27. gengum við okkur til skemtunar út úr bænum og upp í landið, sem alt er skógi vaxið og fagurt mjög. 28. skemtum við okkur líka. 29. fórum við um borð í gufuskipið, sem heitir Hero, fylgdu okkur þangað skipstjórinn af barkskipinnu Emma, er reyndist okkur eins og bezti bróðir, og agent Hansen. Að því búnu var akkerum létt og haldið af stað; en þegar út fyrir kom, fengum við fjarska mikið andveður og ágjöf, seldu þá upp margir karlar og konur; þótti okkur félögum heldur fara að verða slarksamt. 30. var nokkuð kyrrara. 1. dag júlímánaðar komum við til Hull á Englandi kl. 9 f.m., þá kom enski agentinn og kallaði "Den hvide Stjerne." Hver af farþegjunum varð að segja til farangurs síns, og áður en farangurinn væri látinn ofan í gufubátinn, er lá við hlið skipsins, þá hlaut hver að opna kistu sína. Þá nú alt var komið í bátinn, var okkur sagt að koma á land, og þurfti þá hver að hafa gætur á því, að missa ekki af leiðsögumanninum, sem var agentinn sjálfur, og sem fylgdi okkur heim að sínu eigin húsi, en þegar þar kom, söknuðum við norskrar konu með fjórum börnum; loksins hafði agentinn upp á henni; að því búnu fór öll fylkingin til járnbrautarstöðvanna, þar biðum við litla stund, síðan fóru allir í vagnana, er þeir höfðu fengið hver sinn vegarseðil, og vagnlestin af stað með ógurlegum hraða. Á leiðinni bar margt skemtilegt fyrir augun, stundum var keyrt langar leiðir niðri í jörðinni. Kl. 9½ komum við til járnbrautarstöðvanna í Liverpool, var þá öllum boðið að fara út úr vögnunum og sýna vegabréf sín; síðan var okkur félögum og nokkrum norskum sagt að fylgja einum manni, er gekk með okkur heim til sín; máttum við þá hafa okkur alla við að missa ekki af honum í manngrúanum á götunum; hjá þessum manni vorum við meðan við dvöldum í Liverpool, sem voru 10 dagar, við daufann kost, en nógar skemtanir höfðum við á daginn af því

að skoða borgina og vera á leikhúsum, sem þar eru mörg. Alvarlegar gætur hlýtur maður að hafa á peningum sínum, því þar er sem allir gjöri sér far um að hafa fé úr höndum ferðamanna, einnig er þar fjöldi vasaþjófa, því vil eg ráðleggja hverjum, að hafa ekki peninga sína í kistum eða vösum sínum, heldur hafa þá í belti yfir um sig á milli skyrtnanna, eða í vasa á nærskyrtunni, og er það þó verra. 11. júlí fórum við frá Liverpool kl. 2 f. m., á skipinu Oceanic. Þ. 12. komum við til Írlands; þar var tekið margt af fólki í skipið, sem ætlaði til Ameríku. Þá voru farþegjar á skipinu orðnir að tölu 850, en skipverjar 150. Skipið Oceanic ber 5,000 tonn en gufuvélar þess hafa 3,000 hesta öfl. Skipi þessu er skift í 2 herbergisdeildir, betri og lakari; í betri deildinni er mjög gott að vera, en aftur mjög dýrt og ekki fyrir aðra að vera þar en þá, sem eigi vita aura sinna tal. Í lakari deildinni er þolanlegt að vera, þar er öllu fólki skift í 3 flokka, ógiftir karlmenn í einum, ógiftar stúlkur í öðru, og gift fólk í þeim þriðja. Ekkert bar markvert til tíðinda í þeirri ferðinni, nema að einn kvennmaður dó. Þ. 21. s. m. kl. 5 e. m. komum við til New York; þann dag fóru ekki aðrir í land en þeir, sem voru í betri deildinni. Daginn eftir vorum við allir ferðamennirnir fluttir á móttöku garðinn, sem er fjarska stórt hús; þar vorum við allir um nóttina, en ekki höfðu menn önnur rúm, en bekki og gólfið. 23. var allur farangur og kvennfólkið flutt frá móttökugarðinum, og til járnbrautarstöðvanna, en við karlmennirnir máttum ganga, og höfðum fult í fangi að missa ekki af vögnunum; já það var einhver sú mesta þraut sem fyrir mig hefir komið. Kl. 6½, fórum við af stað frá járnbrautarstöðvunum; oft var skift um vagna á leiðinni. Þann 25. s. m. komum við til Detroit, þar var að kalla ekkert staðið við. Daginn eftir komum við til Chicago kl. 6 f.m.; þar tóku danskir á móti okkur og fylgdu okkur heim til sín. Þar vorum við til þess kl. 5 e. m., að við fórum þaðan og komum kl. 8 e. m. til Racine; þeir sem þar búa eru flestir danskir og Þýzkir; kl. 9 komum við til Milwaukee, og nú er þessi merkilega ferðasaga mín á enda.

Síðan eg kom hingað hefi eg unnið á verksmiðju, kaupið er 1¼ dollar um daginn.

Nú höfum við Íslendingar, sem hér eru á staðnum, leigt okkur hús, og er Páll stúdent Þorláksson forstöðumaður félagsins; en félagsmenn eru þessir: Jónas Jónsson, Jón Halldórsson, Haraldur Þorláksson, Jón Einarsson, Árni

Guðmundsson, Jakob Pálsson, Jóhannes Arngrímsson, en María Sigurðardóttir er bústýra og hefir 4 dollara um vikuna í kaup; hver af okkur félagsmönnum, utan bústýran, leggur til félagsins á hverjum laugardegi 3 dollara, og hrekkur það vel til alls, sem þarf til hússins og húsaleigunnar, sem er yfir mánuðinn 5 dollarar; og þar af borgast líka til bústýrunnar, og þó höfum við betra fæði til jafnaðar en nokkur embættismaður á Íslandi, af þeim sem eg þekki; af þessu getur þú séð, að ekki er eins dýrt að lifa hér, eins og sagt hefir verið á Íslandi.

Hitinn var hér fjarskalegur fyrri part sumarsins, en ekki hefi eg heyrt að hafi orðið tjón af honum, nema í New York dóu af hita 14 á einum degi, og er það einmitt sem menn verða að varast hér, að vinna ekki þegar hitinn er mestur.

Það finst mér að það sé ráðlegast fyrir þig að koma hingað og þyrftir þú þá að hafa góðann mann með þér, nefnilega þann sem kann dálítið í ensku; en samt getur maður slarkast af með að kunna vel að tala dönsku.

Þinn einlægur

**Jóhannes Arngrímsson."**

---

**Kafli úr bréfi frá Jóni Halldórssyni* frá Stóruvöllum í Bárðardal, dagsett 21. ágúst og 8. september 1872, í Milwaukee, Wisconsin:**

"Eg skrifaði þér 9. f. m. frá Liverpool, og vona eg að þú hafir fengið það bréf. Við vorum þar tíu daga hjá frakkneskum Gyðingi, sem við skildum lítið, þar höfðum við ekki gott fæði, svo við þurftum að kaupa okkur mat. Engan höfðum við til að vísa okkur leið um bæjinn og máttum við sjálfir stafa okkur fram, sem gekk heldur seint. Gestgjafinn, sem við vorum hjá, fylgdi okkur á "Museum" þar sem sjá má allskonar dýr og fugla, fiska, forngripi og goðamyndir, ~~alt í fullri~~ stærð, úr hvítum marmara, og kom eg þar oft, og sá eitthvað nýtt. Á hverjum degi gengum við um bæjinn, viltustum oft og þurftum að fá leiðbeining hjá lögregluþjónúm. Hálfan annan dag vorum við að ....

*) Með Jón voru þeir Jónas Jónsson frá Stóruvöllum og Jóhannes Arngrímsson frá Nesi í Höfðahverfi.—*Höf.*

leita um höfnina að skipi frá Íslandi, og loksins fundum við skip frá Reykjavík sem landar okkar, Páll Þorláksson frá Stórutjörnum og 14 aðrir höfðu komið með; þar fréttum við, okkur til mikillar óánægju, að það höfðu verið fá hús á milli okkar meðan þeir dvöldu þar, þeir höfðu farið daginn eftir að við komum. Síðan fundum við manninn, er þeir höfðu keypt fæði hjá, það var danskur karl, mikið vinalegur. Bezti maðurinn, sem við kyntustum í Liverpool, var norskur kandídat. Eg vil vara hvern þann við, sem kann að þurfa að tefja í Liverpool eða annarstaðar á leiðinni, að eyða sem minstu af peningum sínum, því þar er alt eins dýrt og dýrara en hér, meðan hann er að útvega sér hér hentuga vinnu, hefir maður nógan tíma til að eyða peningum sínum, og ef hann fer spart með hér, getur hann lifað bezta lífi heila viku af því sem hann eyðir í Liverpool á einum degi. Þar skyldi maður heldur ekki skifta peningum sínum, því landar höfðu skaða á því að gjöra það þar, og er bezt að gjöra það ekki fyr en í New York; þar fær maður bréfpeninga sem brúkaðir eru um alla Ameríku.

Þann 11. júlí kl. 2 f. m. fórum við frá Liverpool. Skipið hét Oceanic, tekur það 5,000 tons, með 3,00 hesta krafti, það er hér um bil 100 faðmar á lengd. Næsta dag þann 12. var komið til Queens á Írlandi; þar var tafið 2 kl. tíma og teknir farþegjar, lagt af stað aftur kl. 11 f. m. og haldið beina stefnu til New York. Á skipinu voru alls 850 farþegjar og 150 sjómenn. Við vorum á öðru plássi. Fyrsta pláss kostaði 18 pund sterling, og er það ekki nema fyrir höfðingja í orðsins fylstu merkingu, því það er svo fjarskalega skrautlegt, og margir sem höfðu nóga peninga voru á lakara plássi, en ekki voru allir ánægðir með fæðið, það var heldur ekki gott. Þar voru karlmenn og kvennfólk sér og átti alt að fara reglulega fram, en þó kvörtuðu danskar og norskar stúlkur um að frammistöðumennirnir væru að slarka niðri alla nóttina. Nóg höfðum við af dansleik og söng á kvöldin, en á daginn gleymdi maður sér innanum fjölda fólksins, sem var rekið til og frá um þilfarið eins og fé í réttum. Fljótt liðu þessir 10 dagar sem við vorum á leiðinni yfir hafið. Við urðum aldrei sjóveikir, og fáir aðrir voru veikir nema fyrstu dagana. Storm höfðum við 2 dægur. Sunnudagsmorguninn þann 21. sáum við hið fyrirheitna land, sem var fagurt á að líta. Kl. 1 e. m. hafnaði skipið sig í miðri borginni. Er fljótið

ekki breitt sem siglt er eftir. Þennan dag fóru ekki í land nema þeir sem voru með fyrsta plássi. Daginn eftir gekk mikið á, þá þurfti hver að rísa snemma úr rekkju og kasta hálmi úr dýnum sínum, búa um dót sitt og taka á móti hirzlunum úr lestinni; alt var fult af tollheimtumönnum, en ekki skoðuðu þeir vandlega. Áður en farangur manna var látinn ofan í bátinn, fékk hver plötur úr látúni, jafnmargar og hann hafði hirzlur, og eins auðkendar plötur voru festar á hirzlurnar, þarf maður að gæta að, að tölurnar standi heima, því skeð getur að þær ruglist, hjá þeim sem afhenda þær, líka þarf maður að geyma vel plötur sín, ar, annars tapar hann öllu. Við mistum tösku á leiðinni, en ekki var hún mikils virði. 22. júlí kl. 2. e. m. stigum við á land, var öllum vísað inn í Castle Garden, og skilaði hver þar sínum samningsskjölum og tók á móti öðrum. Svo skifti hver sínum peningum og fékk reikning yfir það sem hann hafði látið úti og tekið á móti. Castle Garden er afarstór bygging og rúmar margar þúsundir manna, þar vorum við um nóttina. Mat þurftum við að kaupa okkur, en ókeypis fengu menn að sofa á bekkjum, og gólfinu. Við vorum svo heimskir að láta ábreiður og kodda ofan í ferðakistur okkar, en það er bezt að hafa hvorutveggja með sér, því þá getur farið vel um mann; einkum þarf maður að hafa abreiður í vögnum til að liggja á, og er bezt að hafa tvær ólar utan um hana og koddann (hafi maður hann), mega þær vera eins og hnakkólar og sauma handfang milli þeirra, því alt af við hver vagnaskifti þarf maður að halda á þessu í hendinni og svo matartösku í hinni og skilja vel við alt áður maður sofnar, svo alt sé til reiðu þegar á þarf að halda. Líka skyldi maður sjá um að láta ekki þrengja sér of mjög saman í vögnunum, svo maður geti sofið. 23. júlí voru ferða kisturnar vegnar, reyndust þær ekki of þungar; síðan var skift um merki á þeim, og fengum við svo ekki að sjá þær fyr en hér í Milwaukee. Svo tókum við vegaseðla á skrifstofunni og fengum að vita hvenær við gætum farið af stað. Talar helmingur manna þar dönsku. Svo keyptum við mat til ferðarinnar, og skoðuðum það sem næst var af borginni, sem er eins og allir vita, einhver hin fegursta. Kl. 9 f. m. fórum við af stað; er fyrst langur vegur gegnum borgina, komustum við þar í það harðasta að geta fylgt eftir vagninum, sem ók kvenfólki og gamalmennum. Göturnar voru fullar af mönnum, hestum. og vögnum, svo stundum ætlaði maður hvergi að komast, en var ráðalaus ef

hann misti af vagninum, en það var eina bótin, að eg þekti danskar og sænskar stúlkur, sem voru í honum, annars hefi eg ekki þekt hann úr vagnaþyrpingunni. Ekki tjáir að láta hugann hvarfla neitt né undrast það sem fyrir augun ber, heldur skoða alt í flýti og láta ekkert á sig hrífa. Þetta gengur mörgum illa að læra, en það er ómissandi í öðrum eins borgum og New York. Á járnbrautar vagnstöðvunum vorum við kl. 6 e. m. og höfðum nægan tíma til að litast um og kaupa það sem okkur vantaði, því alt er dýrara á leiðinni en í borgunum. Kl. 6¼ fór vagnalestin af stað; var fljót á vinstri en þetta stórhreinlega land til hægri. Alt af er verið að smá tefja og þarf þá að hafa vegabréfin á reiðum höndum. Maður þarf að varast að fara mikið út úr vögnunum. nema hann viti hve lengi á að standa við. Um nótt fórum við yfir Nigarafossinn, var þá svo myrkt, að við sáum ógjörla þetta furðuverk náttúrunnar, og þau undursmíði mannanna sem víst hljóta að vera á þeirri fjarska löngu brú, sem við þurftum margar mínútur til að komast yfir. 25. júlí kl. 12, komum við til Detroit, fórum á gufubát yfir endann á vatninu, og var það góð hreyfing. Við keyptum kaffi og hristum af okkur vagnarikið. 26. kl. 6 f. m. komum við til Chicago. Þar kom danskur maður inn í vagninn og spurði eftir löndum sínum og varaði þá við Þjóðverjum. Hann sagði öllum dönskum að koma með sér og okkur líka, en þegar út kom, komu þúsund, sem buðu manni með sér, og einn Þjóðverji var búinn að fylla sinn vagn með dönsku kvenfólki, þegar að var gáð, og ók þegar af stað, og okkar ungi leiðtogi hljóp á eftir; var skrítið að sjá þegar stúlkurnar hentu sér út úr vagninum, því þær urðu hræddar þegar þær vissu þær voru sviknar, en eigi að síður hafði þjóðverskur dóni náð konu með 6 börnum, sem átti mann hér í næsta þorpi. Börnin voru öll innan 10 ára, hafði hún brotist fram úr öllu sem okkur þótti fullervitt, samt náðum við henni aftur, var hún þá orðin peningalaus, gáfum við henni 50 cent, svo hún kæmi flutningi sínum með sér. Hinn danski maður fylgdi okkur inn í staðinn, og borðuðum við hjá honum morgun- og miðdegisverð, eða hina fyrstu réttnefndu amerikönsku máltíð. Hver máltíð kostaði 25 cent, en það var tilvinnandi, því þar var maður eins og heima, gat litast um og fengið leiðsögn hjá dönsku þjónunum sem voru í húsinu. Eg hafði mest gaman af að ganga innan um rústirnar og sjá þær undra byggingar, sem voru risnar og voru að rísa

upp úr öskuhrúgunum, sem víða voru umgirtar af kolsvörtum tréstofnum, með dálitlum greinarstúfum útúr. Heldur þú að þú hefðir horft í að eyða hálfum dollar, til að vera hálfan dag í Chicago, þessari undraborg, sem mjög er rætt um í blöðunum, og mega að lyktum aka fyrir ekki neitt gegnum alla borgina til vagnstöðvanna, því ekki skildi hinn ungi maður við okkur fyrri en þar. Kl. 5 lögðum við af stað og kl. 7 og hálf komum við til Racine, þar urðu allir danskir eftir sem höfðu orðið samferða frá Liverpool, höfðum við ekki tíma til að kveðja þá, því vagnlestinn hafði þar svo litla viðstöðu. Kl. 9 um kvöldið komum við hingað til Milwaukee, var þá orðið dimt og ekki búið að kveikja alment á götum. Nú höfðum við ekki vegabréf lengra. Við höfðum tilvísunarbréf (address) til danska konsúlsins og spurðum eftir honum, en alt í einu kemur maður sem kvaðst þekkja hann, hann talaði dálítið í dönsku, við sýndum honum tilvísunarbréfið og lofar hann að koma okkur til hans; að öllu þurfti hann að flýta sér, og ekki leizt okkur vel á manninn. Okkur fanst leiðinlegt að flækjast á vagnstöðvunum um nóttina sem þó var ekkert að, svo við flugum upp í vagninn til hans, og ekki nóg með það, heldur létum við hann heimta út farangur okkar. Síðan ók hann spölkorn og annar með flutninginn sem við héldum væri þjónn hins góða manns; hann nam staðar við húsdyr og vísaði okkur inn, en sjálfur þaut hann burtu. Við flýttum okkur inn að sjá danska konsúlinn, en inni var alt saman þjóðverzkt. Þá sáum við um seinann hvernig skolli hafði gabbað okkur, og biðum svo yfir nóttina. Um morguninn borguðum við sem kostaði með rúmláni 70 cent fyrir hvern. Síðan fórum við að leita uppi danska konsúlinn, fundum um síðir mann, sem gat sagt okkur hvar hann bjó, en af því leið okkar lá fram hjá húsinu er við gistum í, sáum við sama manninn, sem flutti okkur þangað, vera að láta farangur okkar upp á vagn sinn; við spurðum í hverju skyni hann gerði það, hann sagði að á þeirri stundu færi skip til eyjarinnar (Washington) og ef við ætluðum þangað yrðum við að fara strax og annar maður sagði hið sama, svo við trúðum þeim og létum hann flytja alt dót okkar ofan á bryggju, sem stórt gufuskip lá við, síðan tók hann við borgun fyrir að aka okkur þangað, en nú þorði hann ekki að heimta meira en hann átti, svo fór hann sína leið. Við Jóhannes fórum út á skipið að kaupa vegabréf til eyjarinnar, en Jónas var eftir að gæta farangursins. Við gátum ekki strax

náð fundi mannsins sem seldi vegabréfin, því hann var að matast, en þegar hann kom sagði hann að skipið ætti ekki að fara þá leið, því ekkert skip færi þangað fyr en nokkrum dögum seinna, svo við máttum snauta burt í vondu skapi, útaf því að láta þenna þrjót svíkja okkur aftur. En þegar við komum til farangursins var Jónas hvergi að sjá, biðum við lengi, þar til hann kom með norskan mann, Ólson að nafni, sem við erum nú hjá; fór hann nú með þeim félögum mínum að hitta konsúlinn danska, en eg beið við bryggjuna þangað til þeir komu. Konsúllinn ráðlagði okkur að fara ekki til eyjunnar, því við hefðum þar ekkert að gjöra, réði hann okkur að fara hér yfir vatnið, og vinna þar við sögunarmylnu, höfðu 9 landar okkar farið þangað fyrir þremur dögum, en á meðan við dveldum skyldum við halda til hjá Olson og það gjörðum við. Við heimsóttum Kreyser, sem hefir leigt sér hús hér í bænum; hefir hann ofan af fyrir sér með því að hreinsa vagna og fær fyrir það einn og hálfan doll. á dag. Hann lét ekki vel yfir búskap Wichmanns og sagði, að landar okkar hefðu haft baga af því að vera í félagsskap við hann; líka tjáð hann okkur frá, að Einar Bjarnason hefði í vor keypt litla eyju og byggi þar. Þegar við heyrðum þetta, þótti okkur ekki ráðlegt, að fara út í eyjuna til Wichmanns og þeirra. Réðum við nú af að leita upp í landið (því það kostaði ekkert) þangað til við fréttum hvernig löndum okkar gengi fyrir handan vatnið. Mér var farið að leiðast að flækjast í borgunum, svo eg heitstrengdi að fara með hverjum sem fyrst kæmi til að fá sér verkamenn. 28. vorum við um kyrt, því þá var sunnudagur, en enginn bóndi kom. 29. fékk Jónas vinnu við sögunarmylnu og átti að fá 40 dollara um mánuðinn; en við Jóhannes fórum með bónda, sem talaði ensku, 20 enskar mílur upp í landið og áttum að fá 20 doll. um mánuðinn auk fæðis og húsnæðis; en ekki leizt okkur vel á mann þennan, og Olson sagði okkur að vera ekki nema einn eða tvo daga, ef okkur félli ekki, og horfa ekki í þó við fengjum ekki kaup fyrir þá daga. Við vorum hjá bóndanum tvo daga, en fréttum þá að hann væri refjóttur, svo við gengum frá honum daginn eftir. Síðan unnum við fyrir einum dollar hvor hjá þjóðverzkum bónda; þar var eg svo gálaus, að drekka súra mjólk um kvöldið, er eg kom frá vinnunni. Af þessu, hita og harðri vinnu, fékk eg magaveiki. Nú fékst Jóhannes með engu móti til að vinna lengur á landinu, og vildi ekki að eg væri eftir, svo eg lét tilleiðast að snúa með honum aftur til

Milwaukee, en sárnauðugur skildi eg við landsbygðina. Eg fann, að eg hefði strax vanist við vinnuna, hún er sízt harðari en á Íslandi, því það dimmir svo fljótt. Hefði eg verið alheill, mundi eg ekki hafa hætt fyr en eg hefði hitt góðan stað, sem mér hefði líkað til að setjast að í, því hann er maður viss að finna hér í Ameríku, og má ekki verða hissa, þó hann finni einn eða tvo ekki góða. — Ef eg ætti að skrifa hvað eina, er bar fyrir okkur þessa fimm daga, sem við vorum að ferðast, þyrfti eg langan tíma og mörg örk af pappír, því það var sannarlega skáldleg ferð. Landinu verður ekki lýst með fám orðum, en það get eg sagt, að eg sakna einkis af Íslandi í fegurðarlegu tilliti, nema það væru smá, vilt blóm, sem hér eru svo stórskorin, eins og allir aðrir jarðarávextir. Hjá Þjóðverjanum sá eg garða með skrautlegustu blómum. Trén eru svo afbragðs fögur og girða þau svo yndislega hinar blómlegu korn og mais ekrur. — 3. ágúst komum við Jóhannes hingað aftur og settumst að í sama stað, hjá Olson; var Jónas þá hættur við mylnuvinnuna, sem var of þung fyrir hann að byrja með, enda þoldi hann hana ekki. 6. ágúst kom Páll og félagar hans frá sögunarmylnunni, allir meira og minna lasnir af magaveiki, sem við allir höfum fengið snert af, með fram af því, að við höfum lagt of mikið á okkur, svona fyrst í stað. Þeir félagar höfðu haft tvo dollara um daginn og fjóra og hálfan dollar þurftu þeir að borga fyrir fæðið um vikuna. Öll smíðavinna er hér létt, því verksmiðjurnar vinna hið þyngsta. Sama daginn sem landar okkar komu hingað, byrjuðum við Jóhannes vinnu við verksmiðju hér rétt hjá, og er iðja okkar að bregða járnvír í grindur, sem ganga inn í vél er þreskir korn. Vinnan er álíka þung og að prjóna á Íslandi, og vinnutíminn er 10 stundir og á laugardögum 9; vinnulaunin eru 1¼ dollar á dag fyrsta mánuðinn, en von um 1½ næsta mánuð, og verðum við lengur, máske 2 dollarar um daginn. Jónas fór til staðar hér nokkuð frá, sem heitir Fort Howart; hitti hann þar Árna, einn af Íslendingunum er áður voru komnir; þar hefir hann verið síðan og höfum við skrifast á. Ómissandi er að skifta sér, því þá getur hver skrifað öðrum hvar bezt er að vera. Á kvöldin geng eg oft til Kreysers, þó hann sé góðan kipp héðan, og hefi eg aldrei orðið var við neinar óspektir á götunum, né séð drukkið kvenfólk, og þó eru á leiðinni ölhús svo tugum skiftir. En í Liverpool sáum við oft margar ungar stúlkur prúðbúnar vera í áflogum á götunum. Hér sést enginn beiningamaður, enginn götustrákur, né

nokkur, sem elti mann með allskonar glingur til að selja; en í Liverpool mátti maður reka þennan skríl frá sér með harðri hendi, og stundum sáust þar konur hálfnaktar með barn á handleggnum grátandi af sulti, biðja í guðs nafni að kaupa af sér eldspýtur eða annað smáglingur. Af þessu ræð eg, að hér sé enginn öreigi. Hér eru allir hreinlega klæddir og enginn kvartar um bágindi. Sveitar vandræðin eins og á Íslandi þekkja menn ekki. Bændur kvarta ekki um gestnauð, þó víða uppi í landinu sé lofað að gista ókeypis; fær maður þar mjólk að drekka, eins og á Íslandi, og um miðjan daginn er manni boðið að borða. Þetta reyndum við Jóhannes, þegar við vorum að labba hingað ofan úr sveitinni, eins Páll, sem ferðaðist 20 mílur upp í landið og heimsótti norskan prest. En auðvitað er, að menn og bæir eru misjafnir, og líkast til misjafnari en heima. En aldrei hefði eg trúað, fyr en eg reyndi það sjálfur, að nokkuð væri af hendi látið nema fyrir borgun. Á engan bóndabæ komum við, þar sem ekki var alt hreint og þrifalegt innan húss, því kvenfólkið gjörir víðast ekkert utan húss; karlmenn mjólka kýr, og vorum við allsstaðar spurðir að, hvort við kynnum það ekki.—Hér er kyrlátt yfir höfuð í bænum og eg hefi kunnað vel við mig síðan eg fór að vinna. Hann er víða yndislega fallegur, húsin stór og skrautleg, umgirt af inndælum grasflötum og fögrum trjám. Göturnar eru allsstaðar breiðar, en sumstaðar ekki enn steinlagðar; víða eru tré beggja megin, einkum fyrir framan húsin, þar sem gengið er; hlífir skuggi þeirra við sólargeislunum og þau hressa mann, með ilmi sem af þeim leggur. Fljót rennur um miðjan bæinn með mörgum brúm, sem undnar eru upp, þegar skip koma og fara; eru að eins tveir menn við hverja; þær eru svo breiðar að tveir vagnar geta farið hver hjá öðrum, og samt nóg pláss fyrir gangandi menn til beggja hliða. Hér eru minst vinnulaun, ódýrast fæði og lægst húsaleiga, líka heilnæmast loftslag, því menn koma hingað úr öðrum borgum til að vera hér meðan heitast er, svo eg held að það sé gott að vera hér fyrst, meðan maður er að venjast loftslaginu og kynna sér mál og siðu manna. Það verður að sætta sig við lág daglaun fyrst. Við höfum nú þenna mánuð hin lægstu laun, sem fullorðnir menn hafa hér, og þó ættum við að hafa afgang eftir mánuðinn jafnmikið og vinnumenn hafa heima um árið, þó þætti það á Íslandi létt vinna sem við höfum hér. Eg jafna ekki saman fæði hér og heima, því eg get ekki ímyndað mér að nokkur heldri maður heima

hafi til jafnaðar slíkar kræsingar. Fæðið kostar hjá veitingamanni okkar 12 dollara um mánuðinn, og þykir það mjög sanngjarnt eftir gæðum. Hér er sá vani að þvo sér þrisvar á dag. Er hafður til þess stór kassi vatnsheldur í einu horninu á daglegu stofunni, sem vatn er látið í á morgnana. Úr honum liggja tvær lokrennur (kranar) sem vatni er veitt um í þvottaskálarnar, en undir er borð, sem tekur við því er niður fer, og rennur það jafnótt burtu um þar til gjörðar pípur úr húsinu. Er þetta alt gjört til létta fyrir kvenfólkið. Þó hér sé 30—50 manns á fæði og borðað þrisvar á dag, geta þó fjórir fullorðnir kvenmenn (með konunni) þjónað að þessu, og þegar þær koma inn í borðsalinn, eru þær fölar eins og þær hefðu ekkert að gjöra, það sést hér varla blóðrjóð eldabuska.

Mér leiðist aldrei, því í tómstundum mínum hefi eg ætíð eitthvað fyrir stafni, en að vinna 10 stundir getur ekki verið leiðinlegt fyrir þann, sem unnið hefir 16 heima. Einhleypir menn sem einkis hafa að sakna, finst mér eigi að koma, og líka hættuminna fyrir nýgifta menn, sem eiga eitt eða ekkert barn, að koma hingað, heldur en að fara að basla með búskap heima, einungis ef þeir eiga 400 ríkisdali, því eg skyldi hafa treyst mér til að komast af með konu og eitt, barn, þó eg hefði ekki meira en þetta, og hafa þó afgang fyrir húsaleigu í mánuð og fyrir nauðsynlegustu húsgögn. Eg álit óhugsandi að ætla sér að taka land strax, meðan enginn er kominn á undan sem getur styrkt mann fyrst. Handverksmenn fá hér vissasta vinnu, en ómissandi er þeim að kunna þýzku eða helzt ensku. Allir mega búast við að læra alt að nýju hvað vel sem menn voru verkfærir heima, en ekkert er vandlært ef maður skilur málð dálítið. Verkfæri þurfa handverksmenn að leggja sér til, en þau eru ekki margbrotin, og fátt getur maður notað af íslenzkum verkfærum, nema við það sem maður smíðaði heima. Það er óhætt fyrir hvern laghentan að segjast vera smiður. Eg fékk starfa við vélina sem eg hefi unnið við sem trésmiður, og hefði það gengið vel, hvað smíðið sjálft snerti, en eg hafði engin verkfæri og mátti svo gjöra mér að góðu þetta grinda smíði, sem er fullgott einungis fái eg full laun. Þeir sem vildu flytja með sér verkfæri, t. a. m. hefiltannir, sporjárn og einn eða tvo hefla, þeim er bezt að hafa þá sér í hirzlu með handfangi á lokinu svo ef þeir fara með ferðalínum, sem farangur manna er veginn, þá geta þeir haldið á þessum smíðatóla kassa og haft hann hjá sér, því þess-

konar er ekki vegið. Þannig ætti maður að fara með alt sem þungt er, en sem ekki fer mikið fyrir, t. a. m. hnífapör. Lausum og liðugum sem hvergi hafa ákveðið sér aðsetursstað, þegar þeir fara að heiman, álít eg bezt að hafa sem minst með sér af fötum, eða kaupa ekki föt fyrir peninga áður en þeir fara. Hér fæst frakki, vesti og buxur með nýjasta sniði fyrir 20 dollara; hvítur sumarfrakki fyrir 2 dollara. Maður hefir með sér þau föt sem hann á og eru heil. Léreftsskyrtur eru hér ekki dýrari; bezt er að vinna í þunnum ullarskyrtum, þær eru líka mikið hollari en léreftsskyrtur, sem maður getur varla verið í nema einn dag; ekki þarf margar nærbuxur, því á sumrum er aldrei verið nema í einum buxum. Vetlinga brúkar enginn á sumrum, og íslenzkir sokkar eru óþolandi heitir, þó er sjálfsagt að hafa þá með eftir þörfum. Vetrar vinnuföt er bezt að koma með að heiman, en öll betri föt skal maður geyma sér að kaupa, því þau fara illa í flutningnum. Oftast hefir maður hér fataskifti kl. 6 e. m. og er þá orðinn í einum svip að heframanni. Norskar stúlkur, sem eru búnar að vinna hér í mánuð, koma þá út á göturnar snjóhvítar. Það er furða hvað þær geta orðið "flot" á svo stuttum tíma, því þær sem okkur voru samferða, sýndust ekki bera af íslenzku kvenfólki.

8. september. Nú erum við 6 landar búnir að stofna hér félagsbú. Búskapurinn er vikugamall, svo hann er en í bernsku. Húsaleigan fyrir 3 herbergi er fimm dollarar um mánuðinn. Við lögðum til 7 dollara hver, fengum fyrir það matreiðsluofn, rúm, stóla, borð og borðbúnað. Má það heita furða hvaða búslóð við höfum fengið fyrir ekki meira. Á Íslandi hefði okkur ekki tekist að fá húsgögn við svo litlu verði, var alt keypt og flutt hingað á laugardagskvöld eftir kl. 5. Við Jóhannes höfum nú verið þessa viku við aðra vél með 1½ dollar um daginn. Starfi okkar er að hreinsa hluti sem steyptir eru, t. a. m. hjól, ofnpípur og margt fl., svo að bera brætt járn og hella því í forma. Á verksmiðjunni eru fleiri hundruð manns og hverjum borgað á vikufresti. Vinnan er þung með sprettum, en hvíldir á milli, og þurfum við að fá betri laun ef við erum þar lengi. Það er óþægilegt að koma inn á stórar verksmiðjur fyrst, þar sem maður heyrir varla eitt orð þó maður skildi eitthvað. Höfum við verið kallaðir "green boys" (þ. e. grænir drengir eða viðvaningar). Það nafn fá allir fyrst og er ekki laust við að gjört sé gys að manni, því

ekki kann maður að slá eitt högg á meitil eða nokkuð að gjöra með sama lagi og þeir. Er það ekki ólíkt því þegar sveitamaður fer til sjávar fyrst, eða einhver ætlar að reyna að dorga á Mývatni, sem ekki er fæddur Mývetningur. En sé maður eftirtektasamur kemst hann fljótt upp á þessa sérstöku aðferð sem hér tíðkast við alt. Svo koma nýjir og nýjir "grænhöfðar" sem þá eru langtum grænni, og leiðist athygli manna að þeim. Eg mátti eftir þrjá daga stjórna einum grænum Englendingi, sem ekki gekk vel að skilja mig, því hvorki var eg góður í verkinu eða málinu.

---

**Úr bréfi frá Þorláki Jónssyni á Stórutjörnum til ritstjóra Norðanfara, — dagsett 3. febrúar 1873.**

**Herra ritsjóri!**

Af því þér og svo margir fleiri vinir og kunningjar mínir og sona minna Páls og Haraldar, sem héðan fóru til Norður-Ameríku næstliðið sumar, — hafa beðið mig svo oft og innilega að lofa sér að vita það sem eg frétti af ferðum þeirra og hvernig þeim gengi og liði, þá verð eg að senda yður nokkrar línur til prentunar um þetta efni, eftir því sem þeir bræður hafa ritað mér frá Vesturheimi:

Þeir fóru, og 13 aðrir farþegjar með kaupskipi því er Thor hét, frá Eyrarbakka 13. júní. Frá Liverpool fóru þeir 2. júlí. Ferðin gekk yfir höfuð að tala vel, en sérílagi yfir Atlantshafið og alla leiðina frá Liverpool til Quebec. Þeir komu til Halifax 11. júlí, sigldu þaðan daginn eftir og lögðu upp að Quebec þ. 15. Hið síðasta bréf er eg hefi fengið frá Páli, er dagsett þann áttunda september næstl., var hann þá sestur að í borginni Milwaukee í fylkinu Wisconsin. . Höfðu þeir bræður þá verið þar í fimm vikur, og María kona Haraldar og þrír landar þeirra. Höfðu þeir keypt sér þar fyrst í stað mat og húsnæði hjá dönskum mani, Kreyser nokkrum er áður hafði verið verzlunarmaður hér á landi, og Páll hafði kynst honum á Eyrarbakka. Höfðu þeir aðsetur sitt hjá honum í mánuð, síðan tóku þeir sér hús til leigu þar í borginni, það voru þrjú herbergi og húsaleigan 5 dollars um mánuðinn. Keyptu þeir í sameiningu öll húsgögn, og ótilbúinn mat, og var María kona Haraldar ráðskona þeirra og bústýra, en Páll féhirðir. Tekur hann meðal annars svo til orða um búskap þeirra:

Við erum í bezta lagi ánægð með lífið; þótt við séum en ekki farin að græða mikið fé, þá er nokkuð unnið í því að við erum farin að þekkja hér nokkuð ~~til, og~~ erum farin að búa sjálf; höfum nóg til búsins, og vonum að hafa það, því nóg er til að gjöra.

Hann segist hafa komið Haraldi bróður sínum í vinnu hjá amerikönskum timbursmið, en heldur hafi sér gengið það illa af því að Haraldur hafi eigi kunnað málið, en hjá þessum manni læri hann bæði málið og smíðið, og hafi þó 1 dollar 25 cent um daginn. Segist Páll hafa fengið sér sjálfum vinnu — fyrst um sinn á beykisverksmiðju, og þyki sér þar létt og náðug vinna, einkum þegar vinnutíminn sé ekki lengri en tíu stundir á dag og 9 á laugardögum.

Litlu áður en Páll skrifaði mér þetta bréf, hafði hann farið út á land til að skoða það, og til að heimsækja þar norskan prest, er hann hafði kynst við, þá hann kom fyrst til Milwaukee, og sem þá hafði boðið honum að koma heim til sín. Fer Páll hér um svo feldum orðum: Eg hefi nýlega farið út á landið til norska prestsins, sem eg gat um við þig í síðasta bréfi. Hann tók mér mjög vel, og ók eg með honum til kirkju í vagninum hans, og var við messu hjá honum. Kirkjan var falleg og söngurinn góður. Þar var spilað á orgel sem stóð við hliðina á prédikunarstólnum uppyfir altarinu. Fyrsta lagið sem sungið var í kirkjunni var: "Gæzkuríkasti græðari minn." Karlmenn sátu allir hægra megin frammi í kirkjunni en konur hinu megin. Prestur ók með mig eftir messu langt á leið hingað ofan; í vagninum hjá okkur var og ríkur bóndi norskur, eitt af sóknarbörnum prestsins, hann sagði prestur mér að ætti 8—10,000 dollara á rentu fyrir utan alt sitt stóra bú, jafnríkir honum og ríkari væri margir í sinni sókn. Þið getið nærri, að söfnuðirnir verða að vera ríkari hér en á Íslandi, þar sem þeir borga prestinum, reisa kirkju og skóla, og íbúðarhús handa prestinum, og launa kennaranum. Það er nærri óskiljanlegt hvað mikið Norðmenn eru búnir að gera hér á svo fáum árum. Þeir hafa t. d. reist latínuskóla sem kostaði 80,000 dollara og þó eru ekki nema liðug 30 ár síðan hinn fyrsti Norðmaður kom hingað; og hvaðan hafa þeir þessi auðæfi nema úr jörðinni; hún gefur hér heldur meira af sér en vort kalda Ísland. Á leiðinni upp til prestsins dagaði mig uppi hjá norsku fólki, gisti eg þar um nóttina og átti beztu nótt og ekki fékk eg að borga neinn næturgreiða. Bóndi sá hafði 6 kýr, 16

svín og 4 hesta; búgarður hans var 100 ekrur, og gaf honum af sér hveiti, rúg, kartöflur og maís og nóg af heyi. Hann sagði mér að maðurinn gæti losað daglega 20 hesta af heyi með orfi sínu, en með sláttuvélinni sem hestar gengu fyrir, mætti losa á annað hundrað hesta á dag.

Páll segir að Íslendingar á eyjunni Washington hafi skrifað sér að þeim líði þar vel, en þeim þyki skógurinn heldur mikill á eynni; segist hann ímynda sér, að eyjan sé ekki vel fallin fyrir fátæka menn að byrja þar búskap, því þar muni svo mikið þurfa að gjöra áður en jörðin geti farið að gefa töluvert af sér. Páll og Haraldur biðja okkur foreldra sína að bera kæra kveðju frá þeim til vina þeirra og okkar hér norðanlands.

Með virðingu,

**Þorlákur Jónsson.**

---

**Kafli úr bráfi frá Páli stúdent Þorlákssyni, — dagsett 27. janúar 1873 að Concordia University, St. Louis, Missouri.**

Herra ritstjóri Norðanfara.

Ég sendi yður eftirfarandi línur, ef þér vilduð svo vel gjöra að veita þeim inngöngu í blað yðar, má vera að margur landi minn hafi gaman af að heyra eitthvað héðan úr hinu fjarlæga vestri. Eg þykist vita að margir eða eigi allfáir af löndum mínum hyggi á hingaðför, og mæta mér því margar spurningar, þegar eg hugsa upp til Íslands, og einna fyrst sú, hvort hér sé nú í raun og veru betra að vera, en á Íslandi. Ekki get eg að því gjört, að mér þykir þetta að nokkru leyti óþarfa spurning, og að nokkru leyti vandi úr að leysa. Að mér þykir spurningin óþörf kemur sjálfsagt meðfram af því, að eg er farinn að þekkja hér dálítið til og búinn að reyna ýmislegt, og finst, fyrir sjálfan mig að dæma, trautt megi líkja þessu landi saman við Ísland, bæði það er til landkosta og fjárhags kemur, og þá mun stjórnin ekki síðri. En það er nú, svo sem allir vita, sannmæli að sínum augum lítur hver á silfrið, og ætti eg að geta svarað öllum til þeirrar spurningar, yrði eg að hafa augu og smekk allra. Einum gest að þessu, öðrum að hinu, einn vill ekki búast nema tötrum, þótt efnin leyfi meira; annar vill ganga hreinlega til fara, einum er sama þó hann

búi í moldarkofum, öðrum þykir það óþolandi; einn unir því vel að lifa við fremur auðvirðilega mannfæðu, annar vill lifa vel og svo framvegis. Eg segi við þig: "Komdu hingað, hér er betra að vera.". Þú segir: "Nei, hjá mér er miklu betra." Báðir getum við sagt satt að vissu leyti, en hver á að ráða fram úr þessu? Hið betra verður hið verra, og hið verra betra.* Réttast mun í þessu efni að framsetja dæmi, sanna viðburði (Facta) dæmi svo hver eftir sínum smekk. Það er nú vant að vera svo, að þegar eitthvert nýtt fyrirtæki byrjar, eru sumir með, en sumir móti. Margir þeir sem eru með útflutningi hingað eða vilja sjálfir flytja sig, eru viljugastir að trúa öllu góðu héðan, en síður hinu misjafna, aftur munu þeir ekki fáir, sem rísa öndverðir gegn þessu fyrirtæki, og týna til allar ljótar sögur, lognar og sannar til þess að styðja með fordóma sína og fæla aðra; og enn eru þeir, sem ekkert þekkja til þess, en segja þó: "Það er vitlaust". Sumir sem hugsa dálítið um þetta, skapa sér allra handa skrípa-hugmyndir, annað hvort að menn lifi hér eins og blóm í eggi án nokkurrar fyrirhafnar, eða að menn hafi hér ekkert að lifa af annað, en t. d. jarðepli. Sumir segja í vantrú sinni, það er engu að trúa þaðan, þau bréf sem landar okkar skrifa þaðan, hafa þeir verið neyddir til að skrifa svo og svo. "Alt er þetta fótalaust." Sumir færa það til sem ástæðu gegn þessum flækingi, sem þeir svo kalla, að úr landinu fari loks allur vinnukrafturinn, og tómir ómagar verði eftir. Það getur nú verið að þetta megi hugsast, en hvað ætla þá þeir, sem svo hugsa, að verði af vinnukraftinum. Að hann fari í sjóinn? ef ekki, þá verður hann þó einhverstaðar að koma niður; komi hann hingað fellur hann í betri jörð og ber mörgum sinnum meiri ávöxt, og munu þá ekki Íslendingar vera svo fráleitir öllum þjóðum, að þeir ekki rétti fúslega föðurey sinni hjálparhönd; er ekki það betra, en vera kallaður "ómagi Dana." En þótt nú svo fari, að fólk flytji sig frá Íslandi hópum saman, mun það þá víst að landinu hraki fyrir það? Merkilegt er það, að þessi liðug 30 ár, sem fólksflutningar hafa verið frá Noregi, þá sýnist Norvegur standa jafnréttur sem áður, og þó verða bráðum svo margir Norðmenn í Bandaríkjunum sem í Norvegi sjálf-

*) Menn verða að gá að því, að þegar eg segi "hér", á eg ekki við öll Bandaríkin í heild þeirra. Wisconsin er í Bandaríkjunum, en það, sem má segja um Wisconsin, gildir ekki um öll ríkin. Ríkið Wisconsin vestan við Michigan-vatn mun lesendum einna kunnugast að nafninu til, og látum því vort "hér" líta til þess mestmegnis.—*Höf.*

um. Þenna stutta tíma hafa Norðmenn hér í ríkjunum framkvæmt ótrúlega mikið; þeir hafa smátt og smátt dregið sig saman, hafa myndað söfnuði, reist kirkjur og barnaskóla, stofnað kirkjufélög, og latínuskóla í ríkinu Iowa, sem kallast "Lúter College", og kostaði hann hina norsku söfnuði 87,000 dollara. Sjálfir borga þeir allan kostnaðinn. Á hvað bendir þetta okkur? Á það að þetta fólk sé ötult og iðjusamt, Já að vísu, en bendir það ekki á nokkuð meira? Útlendingar segja nú um oss Íslendinga, að oss líði svo báglega, sakir þess, að við nennum ekkert að gjöra, drekkum og lifum í óhófi, alt á að vera þjóðinni að kenna. Eitthvað er nú satt af þessu, en er það alt leti og ómensku að kenna. Eða er þessi velsæld Bandamanna eingöngu dugnað þjóðarinnar að þakka. Nei, akurinn gjörir sitt og sáðmaðurinn sitt; ef sáðmaðurinn er ónýtur, gjörir akurinn að vísu lítið gagn, og ef akurinn er ónýtur, sáir sáðmaðurinn til einkis, þótt jörðin sé hér frjófsöm, þarf hún þó umhirðingar, en hún ávaxtar sitt pund og hvetur eigandann til atorku og iðjusemi. Á iðjuleysi lifir hér enginn maður; þeir ef nokkrir væru sem halda það, skulu forðast að flytja hingað, sem heitan eld. Síðastl. ár hefir flutt sig hingað frá Evrópu og öðrum álfum heims afarmikill fjöldi fólks t. d. 293,933 hafa komið inn í landið að eins í gegnum New York, auk alls þessa grúa sem komið hefir á land við Quebec, Boston, Philadelphia, Baltimore, New Orleans og Galveston; frá Þýzkalandi einu eru meðal hinna áður nefndu hér um bil 130,000 manns, 30 þúsund Rússa hafa tekið sig saman um að flytja sig til Texas, og hafa í félagi gjört menn á undan sér til þess að sjá þeim út land og kaupa. 50 bændur frá Sachsen í Þýzkalandi hafa nýlega keypt sér búgarða í ríkinu Michigan.

Bezt mun fyrir þá sem hingað koma, einkum Íslendinga, að fara ekki strax að spila upp á sínar eigin spýtur, heldur bera sig að læra, sem flest í byrjuninni af því sem nytsamlegt er, og vera ekki of ásælnir eða eigingjarnir, því að það er skaðlegt; ekki skulu þeir þó láta hafa sig fyrir féþúfu. Varkárir skulu menn vera í kaupum, og eigi leggja trúnað á öll fagurmæli landsmanna. Hér er það títt, ef til vill fremur en nokkurstaðar annarstaðar, að kaupmaðurinn, sölumaðurinn eða agentinn auglýsir það í blöðunum og slær því upp á hús sitt, að hann hafi það að selja, sem bezt sé og ódýrast í öllum heimi af því tagi; það dugar ekki minna, en kaupi menn þetta dýrindis djásn, sjá

menn oft á eftir hve raunalega menn hafa verið blektir. Fyfir þessu verða að eins aðkomumenn; hérlendir gæta sín, og þá þekkja kaupmenn úr. Allir vita hvað nauðsynlegt er að kunna landsmálið, þegar hingað kemur; auk enskunnar er og þýzka mjög alment mál; dönsku eða norsku hafa menn og mjög mikið gagn af, yfir höfuð finnast hér flestar tungur heimsins, en vor kæra íslenzka mun fátíðust en sem komið er.

Það sýnist eigi vera óeðlilegt ef að við Íslendingar flytjum okkur hingað í nýlendu, að við mættum með tímanum aukast og auðgast og komast meir fram í þjóðaröðina, og eins og meir fram á leikvöll sögunnar með öllum okkar góðu hæfileikum. En nýlendustæðið er að vísu vandvalið með tilliti til samheldni í framtíðinni. Margur mun nú vilja segja til þessa, að þessi flutningur verði að eins til þess að tortýna tungunni og sundra þjóðinni, svo að hún, þegar fram líði stundir, hverfi inn í aðrar þjóðir. Hugsa má þetta, en eigi þarf svo að fara, sýnist mér; því að bæði er það, að á Íslandi verður ætíð bygð, svo lengi það er ekki jökull tómur, hraun eða sandur, og það svo. að þeir hlutar þess, sem eru byggilegir munu fullskipaðir, að grun mínum, þótt fólk flytji sig þaðan smátt og smátt, og svo vona eg að Íslendingar geti með lagi geymt tungu sinnar, ef þeir hafa sín eigin blöð, kennara og presta, eins og Norðmenn, og auk þess blaðaviðskifti við föðurey sína. Þannig getur íslenzkum rithöfundum opnast breiðari vegur með framtíðinni, svo að þeir, sem finna köllun hjá sér að rita þjóðinni eitthvað til gagns, þurfi ekki að hrökkva á hæli aftur og leggja árar í bát eða flýja til annarar tungu. Þótt margt sé nú eftir að segja, leyfir eigi tíminn meira í þetta sinn. Þetta er í flýti skrifað; fyrirgefi lesarinn og færi á betra veg.

**Páll Þorláksson.**

---

**Úr bréfi Bjarnar Kristjánssonar Skagfjörðs, dagsett í borginni Rosseau, Ontario, 1. september 1873, til járnsmiðs Steins Kristjánssonar á Akureyri, og bónda Kr. Kristjánssonar á Stóragerði.**

Eins og ykkur mun kunnugt, að 4. dag ágústm. um kvöldið fóru allir vesturfarar um borð á gufuskipið Queen 155 manns, þá léttu þeir akkerum og héldu af stað kl. 1½

um nóttina, og mun skipið hafa verið komið lengst út á fjörð, er allir voru komnir til rúma sinna, og sumum víst gengið örðugt að komast niður. Kl. 6 um morguninn var skipið komið út af Flateyjardal, og vöknuðu margir við þann draum að þeir voru orðnir sjóveikir, skipið skreið jafnan og þó móti hvössum austanvindi; um miðjan dag þ. 5. var það komið norður af Langanesröst. Flest kvenfólkið var nú orðið veikt, og margt af karlmönnum, líka herti nú á veðrinu, en skipið stefndi í suður. 6. m. sami stinnings vindur á austan og allir orðnir veikir nema fáir menn sjóvanir. Nú var stefna skipsins einu striki austan við hásuður, voru þá undin upp segl, svo skipið brunaði áfram með ógurlegum hraða. 7. m. sami vindurinn þó miklu meira sunnan. Sáust þá Færeyjar um miðjan daginn 6 mílur í vestur; alt kvenfólkið og börn næringarlaust. 8. s. m. Um hádegi komum við til Leirvíkur á Hjaltlandi, þar var staðið við í 4. klukkustundir, og seldir 30 hestar, nokkrir Íslendingar komu á land og fóru þar í lyfjabúð til að kaupa lyf handa hinum sjóveiku, og dálítið fleira; lyfsölumaðurinn gekk með þeim og sýndi þeim bæinn, og var hinn viðfeldnasti. 12. s. m. komum við til Aberdeen á Skotlandi, það mundi þykja stór staður heima á Fróni. Húsin standa strjált, en græn tún og yrktir akrar á millum, þar sáum við gufuskip í smíðum, og var nokkuð stórkostlegt að sjá það standa á þurru landi, þar voru og á ferð gufuvagnar, og vagnar með hestum fyrir og margt fleira sem ekki er hægt að segja frá. Þar voru allir hestar fluttir úr gufuskipinu (Queen), er voru alls nálægt 230, 5—7 drápust á leiðinni; af því má nærri geta hvað heilnæmt loft hefir verið fyrir okkur í hesthúsi Walkers, þar sem menn bjuggu upp yfir, en hestarnir drápust neðan undir, af loftleysi, óhirðing og þrengslum. Þar skildi nú Walker karlinn við okkur með söng og seinast með laginu "Eldgamla Ísafold"; þetta átti að tákna lukkuósk til okkar, en fáir af félögum okkar gáfu sig að því, eða tóku undir til að biðja hann vel fara, því margir munu gramir yfir allri aðferð hans við okkur. Kl. 5 um nóttina komum við til Granton; er það lítill bær en laglegur, og gróðursettar hríslur á bak við hann eða kaupstaðinn. Þegar um morguninn komu tollþjónar fram á skipið og spurðum við þá hvort þeir væru komnir til að skoða farangur okkar, en þeir kváðust ekki gjöra það fyr en hann væri kominn á land. Þeir spurðu helzt um tóbak og brennivín því annað

væri ekki tollað, og sögðust íslendingar lítið hafa af þessháttar. Þegar á land kom, komu hinir sömu og luku upp 2 eða 3 hirzlum og fundu ekkert. Þegar við vorum komnir á land fyrir stundarkorni, kom umboðsmaður Allanlínufélagsins til okkar, því um morguninn hafði verið sent með fréttafleygirnum, fregnin um að við værum komin til Granton; litlu seinna kom gufuvagn, sem tók okkur alla saman; farangur okkar bárum við svo sem 60 faðma af bryggjunni og á vagninn sem næstur var gufuvagninum sjálfum, hann var opinn, en hinir, sem voru aftan í og fólk var í, eru eins og lítil ferstrend hús með þverbekkjum, hurðum og stórum gluggum til beggja hliða; svo gengum við í vagna okkar, 29—30 í hvern, að því búnu var lokað öllum hurðum með lykli svo enginn komst út, en gluggana geta menn tekið opna þegar menn vilja. Kl. 12 á sunnudaginn fór vagnlestin af stað með okkur. Þeirri unaðsemd get eg ekki lýst með orðum, en það hygg eg að flestum löndum okkar þætti skifta um lífið við þessháttar ferðalag; flugið er líkast sem maður fari ofan bratta brekku á skíðum, að hálfri stundu liðinni vorum við komnir til Edinborgar, þar var tafið í 4—5 klukkustundir, þar gengum við út úr vögnunum og skoðuðum borgina, fylgli G. Lambertsen okkur hýsna langan veg, svo sumir voru orðnir fulllúnir, þá þeir komu aftur heim til vagna sinna. Alt varð að skoða í flýtir, en eitt varð mönnum starsýnast á, það var minnisvarði Walter Scotts, sem er höggvinn út í marmara og stærri en nokkur maður, og situr á stóli í klofa uppi í háum turni. Þaðan fórum við kl. 4—6 til Glasgow. Útsýnið á þessari leið er yndislegt: blómgaðir akrar eða plantaður laufgaður skógur, alt sem augað eygði að skoða, og er þó sumstaðar víðsýni mikið á leiðinni. Bónda bæjir allir eru úr steini; þetta alt sýnir að bændur á Skotlandi, eru í betri efnum en vér íslendingar. Frá Edinborg minnir mig að vagninn færi 6 sinnum gegnum hamra eða hæðir, sú ferð þótti öllum skemtileg mjög, og var eins og að vesælir þá hrestust, það er að segja, þegar vagnalestin þaut ekki niður í jörðinni, því þá var svalinn og gufan ónotalegri. Þegar við komum til Glasgow, þurftum við að ganga langan veg í gegnum borgina og voru þeir sem vesælir voru og þurftu að bera börn orðnir þreyttir. Tveir agentar fylgdu okkur alla leið til vesturfara húss Allan félagsins, og fengum við þar fæði ókeypis, eins og lofað var, máltíðin um kvöldið var kaffi og nóg brauð með, og eitt egg handa

hverjum, svo háttuðum við ofan í góð rúm, og hygg eg að flestir hafi orðið fegnir hvíldinni, sama fengum við um morguninn eftir að borða, og í miðdagsverð góða súpu með jarðeplum og kjöti, og um kveldið sama og áður. Mikil ósköp ganga hér á í borginni; göturnar eru fullar með fólk allan daginn frá morgni til kvölds, og stundum svo þétt, að menn varla komast í gegnum það, svo er altaf verið að aka í vögnum, og gengur hestur fyrir hverjum þeirra og 2 fyrir sumum, þeir eru fjarska stórir og sumir þrjár álnir á bóginn, allir skaflajárnaðir, og 4 skaflar á hverri skeifu, annars gætu þeir eigi neytt krafta sinna fyrir vögnunum. Frá Glasgow fórum við 12. mánaðarins, á (þriðjudag) kl. 2 e. m. var þá lengi farið eftir elfu, hjólbátur gekk fyrir eða teymdi skipið ofan til sjáfar; á bátum þessum er eitt hjól á hvorri hlið og snýst líkt og hverfisteinn með spjöldum svipuðum og á mylnukalli, sem ganga ofan í sjóinn, og snúast með ás þeim, er liggur yfir bátinn en gufuvélin flytur alt áfram. Þegar út úr ánni var komið, fór skipið leið sína í hvössum vindi og kom til Liverpool í sama mund daginn eftir að við fórum frá Glasgow, þar bættist við margt fólk af ýmsum þjóðum, norskir, sænskir, danskir, þýzkir, franskir, enskir. Liverpool get eg ekki lýst að neinu leyti, nema það er mikið stærri borg en hinar áður nefndu. Þar var óteljandi skipagrúi, sem voru innilokuð í kví er umgirt var með steinlögðum bryggjum og grafnir skurðir eða sýki, í alt einum krókum upp í borgina, sem öll stór skip eru vanalega leidd eftir út og inn með hjólbátum. Nú fórum við frá Liverpool 14. s. m. til þess í drottins nafni að byrja hina löngu sjóferð yfir hið breiða Atlantshaf; 15. s.m., var þá hvass útsunnan hliðarvindur svo siglt varð, fóru þá nokkrir að verða sjóveikir. 16. s. m. útnorðan og sjórót. Fæði fólks á skipinu var kaffi á morgnana og brauðsneið, miðdagsverður, kálsúpa með jarðeplum og kjöti eða baunum ef ekki voru jarðepli, á kvöldin tevatn, ein brauðsneið, dálítið af kexi og smjöri. Sumum þótti morgun- og kvöldverðurinn ekki viðfeldinn, þó þurfti enginn að kvarta um sult sem heilbrigður var. Danskur túlkur var á skipinu er stuðlaði að því að alt gengi sem skipulegast til, að því leyti sem unt var; einnig var þar danskur læknir sem daglega vitjaði hinna sjúku. Á hverjum degi var sópað og bekkir þvegnir, og ef það þótti illa gjört, voru þeir látnir bæta um það. Sunnudaginn þann 17. herti mjög á veðrið, og nú var margt kvenfólk orðið veikt. Á þremur

stöðum á skipinu var lesið af íslendingum sunnudagslestur. Farþegar voru á sjötta hundrað, þar af fimm hundruð á þriðja farrými, en hinir munu hafa verið enskir herramenn, sem munu hafa haft dýrara viðurværi en hinir, og um leið þurft að gjalda hærra farkaup. Þenna dag sáust tvö skip undir seglum, er héldu sömu leið og við. Einn maður sem á skipinu var hafði verið 40 ár í Ameríku í fylkinu Ontario, í bænum Ottawa, sem lætur heldur vel af að vera þar, veturinn er, sagði hann 3 til 5 mánuðir, og byrjar venjulegast í desember, og endar í marz. Atvinnuvegir væru þar jarðarrækt, skógarhögg, ýms veiði, og daglaun 1½ dollar til tveggja. Fátækur bóndi norskur var líka á skipinu rúmlega sextugur og hefir átt 7 börn, 2 dætur hans eru fyrir 4 árum síðan komnar til fylkisins Iowa í Bandaríkjunum og eru þar vinnukonur, og sendu nú föður sínum farbréf að upphæð 350 ríkisdali, og eitthvað meira í öðrum munum, svo að hann komst nú vestur einungis fyrir þeirra hjálp, 18. ágúst nokkuð kyrrara og fólk hressara, en þoka svo ekkert sá. 19. hvast útnorðan og loftsútlit ískyggilegt. 20. gott veður, og sólskin og flest fólk upp á þilfari. 21. ágúst var norðan vindur og siglt eftir skipsreikningi, þá sáust nokkrir ísjakar kringum skipið. Sól rann þá í sjó kl. 8. e. m. 22. bjart veður og sólskin, sást þá enn til íss; vindur útsunnan; kl. 8 e.m. sást föguf eyja, sem svo er kallað til hægri handar, og samstundis Nýfundnaland til vinstri, og svo aftur suðaustur horn af Labrador; þar fórum við næst landi og sáum skóga á austur ströndinni, þó fremur óglögt, en það gat þó ekki annað verið, það sýndust eins og skuggar í sólskininu. Um morguninn þann dag dó barn, sem Englendingur átti, og líkinu kastað fyrir borð að lítilli stundu liðinni, eftir að skipspresturinn hafði haldið ræðu yfir því. 23. blítt veður á sunnan, sást þá ekkert til lands, þeir sem vesælir höfðu verið voru nú farnir dálítið að hressast. Kona mín og fjórar aðrar, voru alla leið í rúminu bæði til Englands, og þaðan yfir Atlantshaf, en börnin mín ekkert sjóveik, eftir það við fórum frá Englandi.

Mikið hefir danski túlkurinn, sem heitir Bensen hjálpað okkur, og meðal annars öll læknishjálp verið torsótt hefði hann ekki verið. 24. ágúst sálaðist barn á fyrsta árinu, sem Sigurður Jakobsson úr Dalasýslu átti. Skipspresturinn hélt ræðu yfir því sem við íslendingar náttúrlega ekki skildum, og þegar búið var að varpa líkinu í sjóinn,

hélt hann áfram ræðunni nokkra stund, með afturluktum augum og upplyftri hægri hendi, þar til hann hætti; hlutaðeigendur, þökkuðu honum fyrir með handabandi. Kl. 6 e. m. sást land til beggja hliða, langt frá til hægri en skemra til vinstri. Canada lönd, sem liggja norðvestan við Nýju Brúnsvík, eru þau til að sjá sem með hæðum eða öldumynduð og með risavöxnum skógum; víðast er til sást, var bygð með fram ströndinni, en alt sást vegna fjarlægðarinnar óglögt. Flói sá, er við fórum eftir, er fjarska breiður að sjá suðvestur með smáeyjum, sumar bygðar en allar skógi vaxnar. Þá var komið kvöld og farið upp eftir Lawrence fljóti um nóttina og saknaði eg þess að sjá ekki löndin til beggja hliða, því þar er víst fagurt útsýni. Til Quebec komum við mánudaginn 25. ágúst; vorum við þá búnir að vera frá Akureyri 20 daga 5½ kl. stund, til þess er við vorum komnir á land. Hér var tekið vel á móti okkur, og gátum við fengið hvað sem við vildum keypt; konur og karlmenn eltu okkur og buðu nýja mjólk til kaups, en alt er hér dýrt sem menn þurfa að kaupa. Páll stúdent Þorláksson var nú kominn hingað, og búinn að bíða eftir okkur fimm daga. Við hefðum líklega allir farið til Milwaukee, hefði ekki Lambertsen verið búinn að ráða okkur til Ontario, þangað fóru nú 112, en hinir með Páli. Sama dag kl. 2 fóru allir Íslendingar í vagnana, einnig fjöldi af öðrum útlendingum og fórum af stað frá Quebec, og komum til Montreal snemma morguns, þar stjöldruðum við litla stund, og sumir keyptu sér tevatn og brauð sér til hressingar og við þorsta. 26. ágúst héldum við til Kingston, alla þá leið er mest skógland að sjá og bygð meðfram járnbrautinni, og þætti þetta fagurt land heima; þaðan fórum við um kvöldið og ætluðum að halda áfram, en þá ól kona Kristins Ólafssonar barn kl. 10 um kvöldið og varð því stans þar á meðan, svo urðu þau eftir með börn sín í bráðina, en vagnlestin hélt áfram til þess að okkur mætti annar gufuvagn, er járnbrautin þar ekki nema einsporuð, svo báðir þurftu að bíða birtunnar, og sá vagninn varð að fara aftur á bak, þangað til að tvöfaldaðist brautin, sem alt gekk vel og enginn varð fyrir slysum né tjóni. Reglan er að senda rasegulf-þráðar fregn á undan, til að segja á hvaða tíma þessi eða hinn gufuvagninn fari um hinn svonefnda einstig járnbrautarinnar.

Til Toronto komum við kl. 8 f. m. 27. dag ágústmánaðar, og vorum á leiðinni frá Quebec þangað 42. klukku-

stundir, sem er nálægt 510 enskar mílur að vegalengd, eða hér um bil 25—26 þingmannaleiðir. Borg þessi Toronto er höfuðstaður Ontario, þar fengum við fæði meðan við biðum þar í tvo daga. Þann 29. fórum við þaðan, fyrst á gufuvagni þar til kl. 2 e. m., svo á vögnum sem hestar gengu fyrir, þar til um kvöldið að við náðum að móttökuhúsinu í Gravenhaus; þar vorum við um nóttina. Þaðan fórum við hinn 30. á gufubát yfir Muskoka vatnið til Rosseau; hér erum við á móttökuhúsinu í dag og fáum frítt fæði til þriðjudagskvölds. Á morgun ætla nokkrir að skoða landið, er helzt á orði að þeir sem nokkur efnaráð hafa, að þeir fari að taka lönd, því að ekkert er sagt eins gott fyrir eftirkomandi tíma. Það lítið sem eg get ráðlagt ykkur, landar mínir, sem hafið í hyggju að flytja vestur um haf, er að fara ekki óráðstafaðir, heldur láta skrifa sig til einhvers félags, helzt Allan félagsins, því að í öllu hefir því farist vel við okkur. Annað hitt, sem mest ríður á, fyrir þá sem gjörast fyrirliðar, fyrir einhverjum flokki, og svo alla sameiginlega, er, að koma djarfmannlega og rösklega fram í ferðinni. Þegar menn ganga um borgir t. a. m. á Englandi, að ganga æfinlega í hóp nokkrir saman, og ganga rösklega þann veg sem þeir ætla að fara, en ekki einir sér, og síst unglingar; ef þessa er gætt, mun varla þurfa að kvíða fyrir vasaþjófum á Englandi, eða hvar sem er. Eg vil og ráða mönnum til að fá sama túlkinn og við höfðum, og læt eg hér með fylgja utanáskrift hans: Mr. Peter Benesen, Office, Liverpool, England.

Kunningjarnir biðja að heilsa og Baldvin fósturforeldrum sínum Steini og Guðnýju.

---

St. Louis, Concordia University,
18. október 1873.

Herra ritstjóri!

Þótt eg hafi séð þess merki í blaði yðar, að sumum muni leiðast þetta fréttabull héðan frá Ameríku, þá veit eg þó að þeir eru margir, sem fegnir vilja fá fréttir héðan, og finst mér því ekki rétt að láta þá gjalda hinna að minsta kosti meðan óséð er, hvorumegin afl er meira. Til varúðar vil eg þó geta þess, að jafnvel þótt eg sendi yður fréttalínu héðan endrum og sinnum, þá vil eg ekki hafa það svo

skilið af lesendum blaðs yðar, sem eg vilji þar með ginna menn hingað, að eg rita héðan margt gott og glæsilegt, heldur vil eg því að eins rita góðar fréttir héðan, að þær séu góðar og ljótar fréttir, að þær séu ljótar, takandi ekki tillit til þess, hvað sá eða sá lesandi muni finna samkvæmt sinni skoðun eða ósamkvæmt, og án þess að hafa annað fyrir augum, en að lofa löndum mínum heima að heyra nýungar héðan úr þessu landi, sem þeim er flestum svo ókunnugt, og reyna að skýra hugmyndir þeirra um það, vonast eg svo aftur á móti svo góðs til af þeim að þeir líti fremur á viljann en verkið það er til fréttaritarans kemur. Nægi þetta sem inngangur.

Síðastliðið vor barst mér sú fregn hingað með fyrstu bréfum, að þetta nú útlíðandi sumar, ætluðu sér hingað til Bandaríkjanna búferlum frá Íslandi um 500 manns, og í nafni þessara útflutnings manna var mér ritað af þremur mönnum, er báðu mig að leita uppi hentugt land handa þessum mönnum og festa kaup í því. Þessari bón neitaði eg af eftirfylgajndi ástæðum: 1. Af því að eg áleit mig til þess alveg ófærann að velja land, því að til þess þarf ekki svo litla þekkingu á landinu ef í lagi á að fara, og að velja fyrir 500 manns, ef til vill 500 smekki, það þótti mér mínum smekk og jarðfræðislegri þekkingu ofvaxið. 2. Af því að það er sannfæring mín, að íslenzkir bændur séu of vankunnandi til að byrja strax á því að taka land út af fyrir sig, þar sem þeir hvorki kunna þá búnaðarháttu, er hér hlíða, né þekkja neitt til landslaga og gangs hluta hér yfir höfuð; 3. ástæðan, af því að flestir af þeim, er frá Íslandi koma muni ekki hafa nóg fé til að setja strax upp bú hér og þeir koma. Sú var því uppástunga mín eftir kunnugra og áreiðanlegra manna ráði, að landar þeir er hingað flyttu sig búferlum, færu fyrst til bænda hér og dveldu hjá þeim 1—3 ár, lærðu búnaðarháttu og viðskiftagang manna á meðal og ynnu sér inn dálítið fé, eftir því sem kostur væri á, á þessum tíma —sömuleiðis lærðu að meta og dæma landið og reynslu eftir samkomulagi að komast að sem hentugustu landi, er þeir eftir svo og svo langann hérveru tíma ættu að kaupa og flytja sig á margir í senn og mynda þannig hina fyrstu íslenzku nýlendu — það má nærri geta, að það er ekki alllítið undir því komið, að afla sér kunnáttu og þekkingar í verki sínu, áður menn fara að spila upp á sínar eigin spítur, og ef norskir bændur t. d. þurfa að læra búnað hér, þá er ekki ólíklegt að íslenzkir bændur

þurfi þess. Ekki er þó hér með sagt, að norskir eða jafnvel íslenzkir bændur ekki geti eða gætu haft sig fram, þótt þeir byrjuðu þegar fyrir sjálfa sig, heldur er miðað við, hvort alment sé það réttasta, arðsamasta og bezta, það hafa norskir bændur sagt mér, að þeir iðrist ekki neitt eftir því, að þeir voru 2—3 ár hjá "Yankee" bændum áður þeir fóru að byrja bú sjálfir, því á þeim tíma hafi þeir lært svo margt, sem hafi verið þeim til ómetanlegs gagns síðar. En nú eru aftur norskir bændur, sem búnir eru að vera hér í mörg ár og eru enda margir orðnir stórríkir (t. d. menn sem eiga 20—70 þúsundir dollara) eins færir í búnaði og hinir svonefndu "Yankees"; og þegar svo er, virðist liggja næst fyrir Íslendinga, sem hingað koma, að læra aftur af Norðmönnum. Þetta hafði eg fyrir augum þegar eg svaraði vesturförum, og neitaði að fara að leita uppi land, en lofaði þeim aftur, að reyna að útvega þeim staði í norsk-lútersk-um söfnuðum í Wisconsin og í Minnesota. Eg skrifaði því strax formanni þess mesta norsk-lúterska kirkjufélags hér, sem kallast "Synoden for den norsk Evangeliske lúterske Kirke i America" og alment "Den norske Synode", og spurði hann hvort fimm hundruð Íslendingar mundu geta fengið vist í hinum norsku söfnuðum í Wisconsin og Minnesota, þar til þeir væru búnir að ná þeirri þekkingu á landshögum hér, að þeir gætu flutt sig í nýlendu út af fyrir sig, og svaraði hann mér og kvað það mundi vafalaust, enda yrði Norðmenn fúsir til að hjálpa upp á frændur sína frá Íslandi. Nú bjóst eg við að þeir myndu koma hér um miðjan ágúst, og fékk því leyfi til þess hjá skólastjórninni, að fara héðan þegar í miðjum júní upp til Milwaukee til Haraldar bróður míns, til þess að vera þar til taks, að fara á móti vesturförunum, er eg fengi nákvæmar fréttir um það hvenær þeir færu að heiman eða þá nær þeir myndu lenda í Quebec, og til þess að geta búið það undir hjá prestunum hvað margar fjölskyldur eða menn hver gæti tekið í sinn söfnuð; í fjórum söfn. í Wisconsin var eg búinn að fá loforð fyrir vist handa einum 40 fjölskyldum og nokkrum lausamönnum, og þótti mér það mundi duga, því að eg var búinn að heyra, að ekki gæti komið meir en um 200 manns. Nú líður til þess 12. ágúst; þá kemur mér sú fregn með fréttaþræði frá Glasgow, í gegnum Allanlínu stofurnar í Montreal og Chicago, að frá Glasgow fari þann dag 150 Íslendingar, og er eg beðinn að vera kominn til Quebec, ekki seinna en 22. ágúst; og er eg hafði skrifað það til agent-

anna í Chicago, að eg væri til reiðu, þá voru mér þegar send ókeypis farbréf fram og aftur milli Quebec og Milwaukee, og með gufuskipi fór eg svo að kvöldi þess 17. frá Milwaukee aftur yfir Michigan vatn til Grand Haven (84 enskar míl.) ; þangað kom eg kl. 12 um miðdag, daginn eftir í staðinn fyrir kl. 6 um morguninn, því að töf hafði orðið á um nóttina við það að eitthvað bilaði í gufuvélinni, varð eg því að bíða í Grand Haven til kl. 9 e.m. Þann tíma notaði eg til þess að spyrja uppi landa minn Björn Jónsson frá Hafnarfirði, sem í fyrra varð eftir nálægt Grand Haven á múrsteinagarði (brick yard), en sem við hinir Íslendingar ekkert höfðum heyrt um síðan. Á múrsteinagarðinum hitti eg nokkra norska og svenska, og rámaði þá eitthvað í það, að þar hefði verið Íslendingur árið áður nokkurn tíma, svo hitti eg danskann mann, sem gat gefið mér greinilegri upplýsingar um hann. Björn hafði verið á tígulgarðinum stuttan tíma og hafði honum ekki fallið, þótt hann fengi 2 dollara á dag; þaðan fór hann því að höggva skóg, og úr skógarvinnunni hafði hann farið skömmu eftir nýár á sögunarmylnu í borginni Saginaw í Michigan. Meira gat þessi maður ekki sagt mér um Björn nema það, að honum hafði leiðst og hafði verið að tala um að fara heim aftur. Við sem höfðum verið honum samferða, vorum hræddir um, að hann væri dauður, þar sem hann hafði lofað, að skrifa okkur, en ekkert bréf kom, en eftir þessu lítur svo út sem hann hafi ekki hirt um, að láta okkur vita um sig. Frá Grand Haven fór eg um kvöldið með "Detroit og Milwaukee" járnbraut (D. og M. R. R.) og kom morguninn eftir kl. 7 þangað er hún sker Grand Trunk — járnbraut (í Milwaukee júnction), sem liggur milli Quebec og Chicago. Með henni fór eg og kom til Quebec að kvöldi þess 20. Þá var enn ekkert skip komið frá Glasgow. Eg beið í Point Levi 5 daga og mændi oft niður eftir Lawrenzius fljóti. Snemma morguns þann 25. kemur drengur inn í svefnherbergið mitt, þar sem eg bjó, og sagði mér að skipið Manitoban af Glasgow, væri komið með eina 600 farþegja. Eg spyr, hann hvort þar séu með nokkrir Skandinavar, en hann segir það vera tóma Frakka. Mér þótti þetta kynlegt; en til þess þó að verða einhvers vísari hleyp eg strax niður að lendingunni; en í mannþyrpingunni finn eg fyrst engan Íslending, þangað til eg kalla á íslenzku og spyr eftir Íslendingum, og var mér ansað "já". Nú efaði eg ekki lengur, að hér væru landar fyrir, þrengi eg mér upp á skipið og

stend alt í einu innan um tóma landa, frændur og vini. Allir voru hressir og voru að taka saman föggur sínar og búast í land. Einhver, sem þeir höfðu haft tal af, hafði sagt þeim, að eg mundi ekki vera kominn. Rétt eftir að við vorum komnir í land, átti eg tal við nokkra af hinum helztu mönnum og tjáði þeim hvað undirbúið væri vestur í Wisconsin; en þeir sögðu mér aftur, að 115 af þessum 165, er hér væru komnir, hefðu hálft í hvoru afráðið að fara til Ontario í Canada, því að stjórnin býður hverjum, sem þangað vill flytja sig, kauplaust far með járnbrautinni frá Quebec, en þó væru þeir fúsir á að fara upp til Wisconsin, fyrst svona væri. En þegar við fórum að grenslast betur eftir, voru þeir nokkrir, sem ekki höfðu nóg fé til að komast upp til Wisconsin og þeir voru og margir, sem voru heldur á því, að sæta kauplausu fari svo langan veg inn í landið, því að eftir þrjá mánuði gætu þeir og flutt sig úr Ontario vestur í ríkin, ef þeir svo vildu. Eg gat náttúrlega ekki ábyrgst að þessar vistir hjá Norðmönnum stæðu þeim opnar um hávetur; og ef þeir færu til Ontario, yrðu þeir að vera þar veturinn yfir að minsta kosti. Hér við bættist og það, að þegar við fórum að hyggja til um farseðlana hjá agentunum, þá voru þeir búnir að frétta það, líklega af norska túlkinum á skipinu, að svo margir Íslendingar ætluðu að fara til Ontario. Canadastjórn vill náttúrlega mjög fegin fá landið bygt, en gengur víst illa að fá fólk til að setjast að þar, því að allir streyma inn í ríkin. Agentunum varð því hverft við, þegar eg fór að nefna farbréf handa Íslendingum til Milwaukee, og spurðu, hvort eg ætti nokkuð með að taka fólk frá Canadastjórn. Hvorki sagði eg það vera né hitt, að eg væri í slíkum erindagjörðum, og tók upp fulltrúaskilríki frá Allan og sýndi þeim, og heimtaði farbréf handa þeim, sem aldrei voru ráðnir til Ontario, og fékk þau. Úr því svona var komið, þótti eigi hlýða að breyta áforminu, heldur fengju þeir 115 kauplausa farið, en hinir 50 yrðu með mér upp til Wisconsin. Eftir nokkrar stundir var vesturfaralestin búin til ferðar, og fórum við með henni, allir Íslendingar samt, því að við áttum samleið til Toronto. Lestin hélt áfram viðstöðulaust, og gjörðist ekkert sögulegt fyr en við vorum komnir í nánd við smáborgina Coburg, seint um kvöld daginn eftir að við fórum frá Quebec. Dimt var úti, en mjög blítt veður; lestin fór ákaflega hart. Þá var það, að kona Kristins Ólafssonar, bónda úr Eyjafirði, fæddi barn; og þótt það yrði í svo óhentugum kringumstæðum, gekk það þó

alt vel. Lestin nam staðar í Coburg, og fluttum við konuna með barninu upp á eitt gestgjafahús bæjarins og fengum komið henni þar fyrir ásamt manni hennar og börnum þeirra, til þess hún yrði ferðafær og þau gætu komið á eftir til Milwaukee; þau heyrðu nefnilega til þeim flokknum. Morgguninn eftir komum við til Toronto, og höfðu þá Milwaukeemenn farið í aftari vagnana og voru þar út af fyrir sig, en Ontario-menn í hina fremri. — Hérað það, sem síðarnefndi flokkurinn ætlaði til, kallast Muskoka, æði langt norðvestur af Toronto-borg og áttu þeir að fá hús hjá stjórninni fyrst í stað og 200 ekrur lands ókeypis hver, með fleiru. Með þeim var norski túlkurinn af Manitoban, og höfðu þeir fengið hann til að fylgja sér til Muskoka, enda hrósaði hann því landi mjög, en níddi aftur niður ríkin, svo að það lenti oft í deilum með mér og honum, því eg vissi að hann sagði ekki satt frá þaðan, og eg efaðist um að lof hans um Muskoka væri grundaðra. Það land þekti eg reyndar ekki svo sem að neinu, en eg vissi, að menn fluttu sig hópum saman úr Canada inn í ríkin. Auðvitað gat eg ekki verið viss um, að betra væri fyrir þá að koma með mér, en að setjast þarna að, og skifti mér því ekkert af því. —

Í Toronto var lestin slitin í sundur og eimreiðin hélt áfram með fremri vagnana, þar sem Ontario-menn voru, en okkar vagnar urðu eftir. Brátt fóru þeir þó af stað, sem leið lá til Fort Sarnia á landamærunum. Þangað komum við um kvöld þann 27., en lágum þar um kyrt í vögnunum um nóttina. Næsta morgun fór lestin með okkur yfir St. Clair ána, sem rennur suður úr Huron-vatni á þar til gjörðum trjáfleka, til Port Huron að vestan. Sem lög gjöra ráð fyrir, var farangur vesturfara skoðaður, og þurftu flestir fjölskyldufeður að borga 10 cent. Að því búnu héldum við leiðar okkar til Milwaukee Junction, og fórum þar af Grand Trunk. Við urðum að bíða eftir hraðlestinni austur frá Detroit til kl. 10 um kvöldið. Á meðan heittu konur "íslenzkt kaffi" á vesturfarahúsinu, og drukkum við það með góðri lyst. Auk landa voru og nokkrir Norðmenn, Svíar og Þjóðverjar í hópnum, sem ætluðu vestur til Milwaukee. Þegar tími var til kominn, fórum við því með hraðlestinni vestur um Michigan og segir ekki frá okkur fyr en við vöknuðum eitthvað klukkan sex um morguninn við það, að lestin stendur kyr úti í skógi einum. Eg stekk þegar út og fram með henni og að gufureiðinni. Þar voru smiðir að losa frá stóru hjólin, því að ásinn hafði

hrokkið í sundur, og þurfti því að ná í annan gufuvagn frá næstu vagnstöðvum til þess að geta komist áfram með lestina. Vegna þess eg hafði lesið svo mikið um, hve hætt sé við að lestir rekist hver á aðra, þegar svo beri við að staðar þurfi að nema milli vagnstöðva, datt mér í hug, að slíkt gæti borið að nú, að lest kæmi aftan að okkur á sömu braut, og fór eg að grenslast eftir þessu, en komst að því, að búið væri að telegrafera frá næstu stöðvum fyrir framan, sem kallast Muir og voru skamt þaðan sem lestin stóð, til næstu stöðvar fyrir aftan, og væri því engin hætta. Þetta sagði eg löndum. Svo var háttað á lestinni, að tveir vesturfaravagnar voru tengdir aftan í hraðlestina sem aukavagnar; öftustu vagnarnir í hraðlestinni eru ætíð svefnvagnarnir, því að það þykir tryggasti staðurinn í lestinni. Ef t. d. lestir koma hvor móti annari og rekast á, þá meiðast mest þeir vagnarnir, sem fremstir standa. Að lest renni inn á aðra að aftan, ber aldrei við, nema þegar eitthvað bilar og lest þarf að tefja á milli stöðva; þá gætu menn ætíð farið út í rauninni til varúðar. Í hinum aftari vesturfaravagn voru flestir landar; einir, þrír eða fjórir voru í hinum fremri. Veður var blítt, en þoka töluverð, og eins og áður var á vikið, voru ekki allir vaknaðir inni í vögnunum. Nær kl. 7 heyrðum við, sem á aftasta vagninum vorum, eitthvert vagnskrölt fyrir aftan okkur, en eg hugði það mundi lest, sem vissi af okkur og væri að nema staðar, og stóð því alls-óhræddur á pallinum milli vesturfaravagnanna. En mér varð litið í gegn um aftasta vagninn út um hinar dyrnar, og sá þá hvar flutningslestin (freight train) kom óðfluga fram úr þokunni og var rétt komin að okkar lest. Eg kalla inn í vagninn og bið alla í guðs bænum að hraða sér út, enda voru og nokkrir þegar farnir af stað. Um leið og eg stökk sjálfur ofan og til hliðar, því eg bjóst jafnvel við að vagninn mundi velta út af brautinni. Þegar eg sneri mér aftur við, sá eg, að flutningslestin var komin þar sem hraðlestin hafði staðið, en hraðlestinni hafði skotið áfram og gufuvagninn á flutningslestinni hafði gengið inn undir miðjan aftasta vagninn, og lyft honum upp að aftan og brotið þann part af honum; en næsti vagn var brotinn í spón og þakið af honum hafði kastast langt til hliðar; hinir aðrir vagnar voru óbrotnir og allir stóðu þar á brautinni. Eg heyrði mikið hljóð og vein, og við hliðina á mér sat kona íslenzk með blóðugt höfuð, og hafði hún flumbrast á því er hún stökk út um glugga á vagninum og kom niður

á höfuðið. Aðra sá eg ekki af löndum, og var því hræddur um að margir af þeim mundu særðir og drepnir. Þegar eg kom að vagninum okkar landa, heyrði eg að einn spurði eftir því, hvort faðir sinn eða móðir lifði; annar spurði eftir bróður eða systur; maður spurði eftir konu sinni með kvíða fyrir svarinu, og kona eftir manni o. s. frv., með tárin í augunum. Eg komst strax að því, að foreldrar mínir og systkini væru á lífi, ómeidd að mestu, og lét þau heyra til mín, að eg væri heill, og brátt varð eg þess vísari, að allir landar lifðu, en einir sjö voru meiddir, ekki þó fjarska mikið — t. d. með marðan hæl, með brendar hendur af gufunni, sem kom út úr eimreiðinni, með bláa bletti á fótum og skeinur hér og hvar, en enginn af þeim virtist finna neitt til af fögnuðinum yfir að hitta sína á lífi, og gleðin var mikil mitt í slysinu. — Í næsta vagni var verri aðkoman; þar hafði sænskur maður, Hed að nafni, mist konu sína og tvær dætur sínar, 10 ára og 17 ára, vissi hann ekki um, en hélt þær væru báðar dauðar. Þýzkur maður hafði mist konu og barn er hún hafði á brjósti. Konan hafði orðið á milli annars og þriðja vagns að aftan. Það var átakanlegt að sjá hvernig ekkjumennirnir báru sig og vildu ekki huggast láta, og þá gátum við, sem alla okkar höfðum lífs og að mestu heila, enn betur fundið til, hve mikið við áttum drotni að þakka fyrir vernd hans á okkur, sem virtumst þó í meiri hættu í aftasta vagninum, þar sem og margir sváfu, (þar á meðal faðir minn og bræður mínir tveir); en sá endinn, er þeir sváfu í, var óbrotinn með öllu, og þeir vissu lítið af, er lestirnar rákust saman. Frá Muir voru ýmsir komnir með vín á flöskum til að hressa þá, sem særðir voru á sál og líkama, og ágætlega var tekið á móti okkur öllum, þegar við komum til Muir; fólk vissi ekki, hvað það átti að vera okkur gott. Hinir særðu voru fluttir upp á stórt gestgjafahús og þar komu læknar að hjúkra þeim. Sem túlkur með læknunum hitti eg meðal annara sjúklinga dætur Heds, og var önnur, sú eldri, nær komin dauða, en bað mig þó að láta pabba sinn koma til sín; hin var fótbrotin, en læknar höfðu góða von um, að hún mundi verða jafngóð. Þegar Hed kom þangað upp, var eldri dóttir hans að skilja við. Margir voru fleiri særðir, auk landa, en engan sögðu læknar vera særðan til ólífis nema dóttur Heds. Þeir af löndum, sem meiddust, voru: 1. Eiríkur Hjálmarsson (með sár á öðrum hælnum, sem klemst hafði milli borða); 2. Stefán Guðmundsson (brendur á höndum

og fótum) ; 3. Sigurbjörg Stefánsdóttir (marin á höfði) ; 4. Herdís Jónsdóttir (marin á læri) ; 5. Kristján Hallgrímsson, lítill drengur (hakan litið eitt marin) ; 6. Ágústa Einarsdóttir (litið eitt særð á höfðinu) ; 7. Jakobína systir mín (blátt mar á fæti). Alt þetta fólk var þó svo hrest, að það gat haldið áfram kl. 4 e. m. þann sama dag vestur til Grand Haven, eftir að járnbrautarfélagið hafði lofað að annast það, þar til það yrði alheilt, eins þótt það héldi áfram til Milwukee.

Lesarinn mun hafa gaman af að vita, hvað til þess kom, að lestirnar þurftu að rekast saman, þegar búið var að telegrafera aftur fyrir til næstu vagnstöðva. Við rannsóknarréttinn, sem haldinn var strax í Muir út af slysinu, varð það uppvíst, að þegar telegraferað var frá Muir austur til næstu stöðva, þá var flutningslestin komin vestur fyrir þær stöðvar og varð því ekki stöðvuð eða aðvöruð. Þetta var þegar telegraferað aftur til Muir, og maður var sendur með merkisstöng aftur fyrir okkar lest; átti hann að gefa vagnstjóra á flutningslestinni merki um að nema staðar, en þessi merkisberi hafði ekki nent að fara nógu langt og vagnstjóri sá því ekki merkið fyr en of seint, meðfram af því, að þokan var og verra var að stöðva lestina fyrir því, að svo sleipt var á járnbrautarteinunum. Á þennan mann var því skuldinni skelt, og framburður okkar farþegja var sá, að vagnstjórinn okkar hefði og átt að vera svo varkár, að láta okkur vita, að hætta gæti verið búin, því þá hefðum við getað verið komin út hundrað sinnum. Það er auðvitað, að járnbrautarfélögin gjöra það ekki að gamni sínu, að halda óaðgætna menn í sinni þjónustu, því að óaðgætnir ráðsmenn gætu kostað þau mikið; t. d. þurfa félögin að borga ættingjum þeirra, sem drepnir eru í slíkum slysum, fimm þúsund dollara og þar yfir fyrir hvern. Hina særðu ber þeim að annast, þar til heilir eru orðnir, og borga þeim eftir sannsýni fyrir tíma missi, er orsakast af meiðslum, og svo og svo mikið fyrir hvern lim, er þeir missa.

Morguninn eftir slys þetta komum við til Milwaukee, og voru þá fregnir um þessar ófarir komnar þangað. Strax sem við lentum, fór eg til lögsögumanns, sem eg vissi að ekki dró hlut járnbrautarfélaganna, og spurði hann ráða um, hversu mikils hinir særðu gætu að réttu krafist af félaginu fyrir þennan óskunda, og sagði hann mér, að eg skyldi fyrst sjá hve vel agentum félagsins, þeim er í Mil-

waukee eru, færist að láta hjúkra þeim og annast þá á meðan þeir væru sjúkir; því að færist þeim það vel, yrði ekki hægt að heimta mikið fé af þeim, þar sem ekki færi meiri meiðsl en þetta. Því næst fór eg til agentanna, og sagði þeim til hinna særðu. Þeir tóku því vel og sögðu það vera sjálfsagt, að þeir önnuðust þá, og sögðu þeir, að hinir særðu gætu haft það svo sem þeir vildu, hvort þeir heldur semdu við þá strax um vist peningagjald og að þeir væru síðan skildir allra mála að því borguðu, eða þeir (agentarnir) borguðu kost, meðöl og alla læknishjálp til þess er þeir yrðu heilir. Landar kusu það síðara. Eftir vikutíma voru flestir sjúklingarnir orðnir albata, og komu þá agentarnir að fá kvittun hjá þeim fyrir aðgjörðum sínum og borga þeim tímamissirinn, sem stafað hafði af þessu. Manni Herdísar guldu þeir 40 dollara, eftir því sem hann setti upp auk fæðis fyrir konuna og drenginn og læknishjálp. Manni Sigurbjargar borguðu þeir 30 dollara o.s.frv. Stefáni Guðmundssyni, sem var þó undir höndum læknis eina viku til, guldu þeir 30 dollara o.s.frv.; föður hans 20 dollars fyrir að bíða eftir honum iðjulaus þennan tíma í Milwaukee; Jakobínu systur 5 dollara fyrir bláa blettinn á fætinum, og Ágústu 10 dollars fyrir skrámuna á höfðinu. Eiríkur Hjálmarsson gat ekki samið við þá, vegna þess hann var ekki heill orðinn, og hefir ekki getað það enn. Auk þessa borguðu og agentarnir alt smávegis, sem skemst hafði; t. d. ef rifnað hafði sjalhorn, guldu þeir 5 dollara, eins mikið og allgott sjal kostar hér o.s.frv. Mér guldu þeir túlksstörfin, 20 dollara, svo að þeir borguðu út í það sinn 250 dollara. — Segja má nú, að járnbrautarfélagið hafi vel getað staðið sig við að borga, þótt meira hefði verið upp sett, en eigi ber að líta til þess, heldur til sanngirninnar. — Eftir þessa samninga fylgdi eg nokkrum fjölskyldum út á landið 87 enskar mílur fyrir vestan Milwaukee, og fékk vistir handa þeim í söfnuðum prestsins séra Ottesens. Þegar við komum þangað, var tekið við okkur tveim höndum af Norðmönnum, er sögðu okkur að presturinn sinn hefði beðið þá fyrir það af stólnum, að taka vel á móti Íslendingum, ef þá bæri þar að garði. Bændur komu og sóttu hver sína fjölskyldu. Magnús Gíslason komst til Wetle Fedland, Utica P.O., Dane Co., Wisconsin, og fékk að setjast að í gamla húsi Fedlands og fékk þangað matsuðuofn; ætlaði Fedland að leggja þeim til allan ósoðinn mat og skyldu þau elda, en matur sá átti aftur að koma

upp í kaup Magnúsar. Ekki sagði Fedland, að hann gæti gefið Magnúsi vinnu hjá sjálfum sér allan veturinn, en hann mundi geta fengið vinnu hér og hvar í kring. Hinir vistuðust á líkan hátt; þeir Hallgrímur Gíslason, Jón Jónsson, Guðmundur Stefánsson, skamt hver frá öðrum. — Þótt mér litist mjög vel á þetta norska fólk, sem landar þessir komust til, þykir mér þó ekki von, að þeim líki alt eða að þeir kunni við sig undir eins, strax á meðan þeir eru ókunnugir og skilja ekki málið til hlítar. Fleiri íslenzkar fjölskyldur hafa farið út í norsku söfnuðina og nokkrir lausamenn, en enn sem komið er hefi eg svo sem ekkert heyrt frá þeim. Það þykist eg þó vita, að þeim farnist betur úti á landinu, en hefðu þeir sezt að í borgunum, t. d. Milwaukee. Nú skrifar einn prestur mér frá Wisconsin, að þær 3 fjölskyldur sem í sínum söfnuði séu, kunni vel við sig. Frá Ontario mönnum hefi eg en ekkert heyrt. Í sumar hafa komið til Milwaukee um 135 Íslendingar, tvö börn hafa fæðst þar hjá löndum, og tvö á leiðinni þangað, einn maður dáið, Hrútfirðingur Þórður að nafni, gamall maður. Nýkominn er hingað til St. Louis séra Jón Bjarnason frá Reykjavík og kona hans Lára Pétursdóttir.

Yðar o. s. frv.
**Páll Þorláksson.**

---

**Kafli úr bréfi frá Vigfúsi bókbindara Sigurðssyni, dagsett í Rosseau, Ontario, 18. janúar 1873.**

Eftir 26 daga ferð, frá því 4. ágúst að við fórum frá Akureyri, komum við vesturfarar til Rosseau, sem er lítið þorp er stendur við vík eina er gengur norður úr Muskoko vatni. Um nóttina lágum við öll í skipinu sem flutti okkur yfir vatnið. Snemma um morguninn daginn eftir kom agentinn hérna J. G. Best og nokkrir af bæjarmönnum með honum til að taka á móti okkur. Það var búið að boða honum komu okkar áður með fréttafleyginum, sem liggur hingað alla leið frá Toronto og lengra út í land, — fylgdi hann okkur á Emigranta húsið hérna og lét færa okkur vistir; brauð, flesk, sirop og tevatn (ekki kaff, og söknuðu margir þar vinar í stað) og þenna kost höfðum við í þrjá daga, eftir það skyldi hver fæða sig sjálfur. Nú máttu menn ekki liggja aðgerða-

lausir, fóru nú sumir að hugsa um að taka sér land sem hér fæst nóg gefins; létu nokkrir skrifa sig fyrir landi hér upp í skógnum, eru 4 mílur héðan að lóð þess er næst hefir tekið sér land, það er lengra til hinna allra. Eg tók ekkert land, því eg var peningalaus og hugsaði því einungis um að fá mér vinnu, fékk eg hana eftir viku og var sagt hún myndi vara í 6 vikur, og lofað 16 dollara kaupi fyrir mánuðinn, það var við vegagjörð hér norðaustur í skógunum og mátti eg labba þangað undir 20 enskar mílur, fór Brynjólfur mágur með mér og fjórir aðrir landar, svo við vorum 6 í alt, en milli 10 og 20 manns fóru héðan 20 mílur í norðvestur til Parrysound, sem er hið norðasta kauptún hér í Ontario, er stendur við hin miklu stöðuvötn er liggja fyrir norðaustan Bandaríkin, og fengu þeir þar vinnu við sögunarmylnu. Við sex félagar unnum að vegagjörðinni með enskum og norskum, því Norðmenn voru margir komnir hér á undan okkur í sumar. Eftir viku fóru 3 landar heim aftur til Rosseau því þeim þótti vinnan erfið en héldu þeir mundu fá betri vinnu hér. Skömmu síðar slasaðist einn af okkur sem eftir vorum í fingri, og Brynjólfur fékk fingurmein, svo þeir máttu til að fara líka heim, varð eg þá seinast einn eftir þar til vinnan hætti, sem var miklu fyrri en ráð var fyrir gjört, því eg var þar ekki nema 16 daga og fékk fyrir það korta 10 dollara; svo ekki var um annað að gjöra fyrir mig en halda hingað aftur. Mér hafði nú gefist færi á að sjá landið og verð eg því að geta þess að nokkru; það er að mestu leyti flatt með smá öldum, ekkert fjall sést og alt þakið þykkum skógi og sést ekki út úr honum, og varla sumstaðar upp í heiðan himininn, nema þar sem grasrjóður eru (þar sem deiglent er) með miklu grasi, sem nær manni sumstaðar undir hönd; hefðu menn kosið að þau væru fleiri og víðar en þau eru, því það er svo gott fyrir nýbýlinginn að hafa engi nærri sér að slá handa kú á meðan hann er ekki búinn að rækta neitt af landi sínu. Þegar fram í sækir þykja þau ekki betri en annað land; því þau eru víðast of raklend fyrir akuryrkju. Víða eru hér stöðuvötn, ár og lækir, í einu orði nóg vatn hvervetna. Nóg er af allrahanda berjum og smá villi aldinum í skóginum, og af einskonar tré má tappa vökva, sem má sjóða úr síróp og sykur. Það er kallað sykurtré og líkast birki; stend eg í þeirri meiningu að þess háttar tré séu ekki annað en gömul björk. Margar eru hér fleiri trjá-

tegundir t. a. m. eik, askur, greni og fura með fl. sem eg man ekki nöfnin á; höfum við oft óskað að nokkuð af þessu væri komið heim til Íslands, því hér getur landnámsmaðurinn ekkert gjört við það sem hann heggur annað en að brenna það, ef hann býr ekki nærri sögunarmylnu, sem ekki eru nú víða; því það sér ekki högg á vatni þó hann taki sí og æ til eldiviðar og í girðingar eða til húsa. Nýbýggjara húsin eru bygð þannig; að beinum trjám sem bær eru, er hlaðið hverju ofan á annað í veggi og stafna, og höggvin saman á endum sem mynda hornin á tóftinni, svo húshornin líta út á eftir sem geirnegling, er svo mosa troðið í að innan í rifurnar sem verða á milli, en blautum leir að utan er harðnar sem kalk, þegar búið er að höggva skörð fyrir glugga og dyr, eins eru hlaðnir upp stafnarnir undir risið úr trjábútum sem lagðir eru hver ofan á annan, altaf styttri og styttri, eftir því sem hækkar, er svo lögð mænir tróða og langbönd yfir, sem á hlöðu heima á Fróni og svo klofin niður kleif tré í þakið og gólfið; þó hafa sumir í það, nl. gólfið, beina greniása, sem lagðir eru hver fast við annan, og svo höggvið slétt að ofan með skaröxi. Geta þessi hús orðið hin hlýustu timburhús. Svo útvega allir, sem geta, sér soðningarofn (stove), sem soðið er í, steikt og bakað; jafnframt því sem hann er brúkaður til matreiðslu, vermir hann upp húsið, er mjög hentugur, hafður hér í hverju húsi, en dýrir eru þeir, kosta frá 24 til 40 dollara, svo sumir hinir fátækari geta ekki keypt þá, og mega láta sér nægjast með að hlaða upp steinum fyrir arin í húsið, í líkingu af skorsteini.

Nú er að hverfa frá þessu og geta hins, að þegar eg kom heim, voru sumir farnir alveg héðan, t. a. m. Ólafur frá Espihóli og þrjár fjölskyldur með honum (eru þeir nú komnir til Milwaukee og eru þar atvinnulitlir); og víðsvegar dreifðu menn sér héðan, fóru sumir aftur til baka til Toronto; gekk sumum illa að fá atvinnu, einkum kvenfólkinu, því þær eirðu ekki í vistunum, þóttust hafa of mikið að gera. Baldvin Helgason og Davíð frá Bakkaseli fóru hér upp í skóginn fimm mílur, í leiguhús, er stendur nálægt landi þeirra, sem þeir eru nú búnir að kaupa með óruddri lóð fyrir 150 dollara. Engir landar bygðu í haust, en tveir einhleypir menn úr Húnavatnssýslu settu upp kofa handa sér í vetur. Seinast urðu hér ekki eftir til veru á emigrantahúsinu nema átta fjölskyldur, sem voru: Eg, Vigfús Sigurðsson, Anton og hans fjölskylda, Þorsteinn frá

Tungu í Fnjóskadal og kona hans Arnfríður, dóttir Jóns gamla Bergþórssonar (hún lézt eftir barnsburð seint í nóvember), Björn Skagfjörð, Benedikt frá Mjóadal, Rafn nokkur að vestan og Sigríður nokkur, ekkja úr Skagafirði. Síðar kom Friðbjörn jarðyrkjumaður, sonur Björns heitins í Fornhaga. Sökum þess að bankar í Nýju Jórvík urðu gjaldþrota í haust, varð tregt um vinnu hér, og fékk eg ekki vinnu nema dag og dag, og svo hefir það verið í allan vetur; agentinn lét okkur að sönnu höggva brenni fyrir jólin, einn sex vikna tíma, og fengum við 75 cents fyrir faðminn (cord) það á að vera 8 fet á lengd, 4 fet á hæð og hvert stykki 4 fet á lengd; þótti okkur það ekki góð atvinna og hefði ekki hrokkið okkur fjölskyldumönnunum til að lifa af í vetur; en það bætir úr skjótt, að við fáum nú bráðum styrk frá stjórninni, og vinnu við að höggva braut hér upp í skóginn yfir lönd þeirra íslendinga, er tóku sér lóðir í haust þar efra. Eigum við að fá 45 dollara fyrir míluna, og er stjórnin búin að senda okkur mat; kaffi, sykur og te upp í kaupið, og eigum við að fá það með innkaupsprís þeim, sem á því er í Toronto; sjálf ætlar hún að kosta flutning á því hingað. En þessi vinna stendur ekki lengi yfir, ef tíðin verður góð, því þetta eru ekki nema þrjár mílur, sem okkur eru ætlaðar, og erum allareiðu búnir með þrjá-fjórðu úr mílu; svo sjáum við, að þetta er heldur engin gæða atvinna, því við höfum varla meira en hálfan dollar um daginn til jafnaðar, því við erum ekk vel fimir við skógarhöggið enn þá, þó flestum sé að lærast það, því það þarf æfing til þess eins og að slá heima.

Nýlendulífið er örðugt fyrstu árin, en með tímanum mun enginn iðrast þess að hann flutti til Ameríku. Eg þekki hér fjölda manna, sem komu hingað bláfátækir frá Englandi, Skotlandi og Írlandi, einnig Þjóðverjar, en hafa nú keypt sér land og eru í allra beztu kringumstæðum. Þegar menn eru búnir að ryðja og rækta, þurfa menn ekki að kvíða lífinu. Þannig ritar þessi landi vor, Tryggvi Jónasson, og vill það ekki koma saman við það, sem Torfi Bjarnason ritaði í bréfi til okkar, þegar hann var á ferðinni vestan frá Bandaríkjunum í haust. Hann sagðist heldur vilja koma til Bandaríkjanna með 5 cent í vasanum, en með 5,000 dollara til Canada. "Svo er margt selt og keypt, að sitt sýnist hverjum." Eg þekki bónda hér, sem kom hingað fyrir 5 eða 6 árum, með fimm cent í vasanum, og bygði hér úti í eyðiskóginum og er nú kominn í beztu

kringumstæður; hann er skozkur. Það er auðvitað, að það er betra fyrir þá, sem kunna málið, að komast áfram, t.a.m. Engla, Skota og Íra, einkum fyrst. Svo skal eg taka það fram, að það sem eg heldur eggja menn á að fara hingað, nær það einungis til þeirra, sem hafa bæði heilsu, þrek og vilja til að vinna, því eg vil miklu heldur ráða þeim frá að koma hér, sem annað hvort eru heilsutæpir til að þola stranga vinnu eða ekki nenna því, einkum ef þeir hafa ómaga eða stóra fjölskyldu, sem þeir þurfa að framfæra, nema að þeir séu þá svo megandi, að þeir hafi meira við að styðjast en einungis vinnu sína.

Lítið get eg sagt í fréttum, af því eg skil ekki málið né blöðin; það sem mestum tíðindum gegnir, er banka gjaldþrot í New York, sem eg hefi minst á hér að framan. 2 stórir bankar fóru á hausinn í haust, vegna óguðlegra peningasvika; þetta hafði þær verkanir, að verzlanir og verksmiðjur stöðvuðust og gjörðu mörg þúsund manna atvinnulausa. Hefir það og gjört hér töluverðan óhag með vinnu og annað, því enda þótt Canada seðlar séu alla jafna í sínu gildi sem gull, eru menn nú ragari að voga peningum sínum í veltuna og leggja þá í ýmislegan kostnað en áður; þó vonandi sé, að bankar hér í Canada standi á gömlum merg í skjóli Bretastjórnar. Og þetta vinnuleysi vestur frá hefir verið þess ollandi, að mörg ódáðaverk hafa verið framin; og skrifar einn landi oss þaðan um það þannig: "Lítið get eg sagt í fréttum héðan, nema ef það væri eitthvað ilt, því eg er hræddur að það sé meira til af því heldur en því góða. Hér eru margir þjófar og ræningjar, og morðvargar, einkum í Chicago, því eg hefi heyrt, hvort það er satt veit eg ekki, að þar sé drepnir eða myrtir þrír menn til jafnaðar á dag; einn norskur var myrtur, sem ætlaði til Noregs að finna kunningja sína, og hafði á sér 1200 spesíur. Líka hefi eg frétt, að Íslendingur einn í Michigan hafi verið drepinn fyrir 250 dollara, sem hann hafði á sér. Hér gengur á öllum ósköpum í sumum stöðum í Bandaríkjunum: brotnir upp bankar og stolið úr þeim, og húsbrunar af fanta völdum. Hér í Canada hefi eg ekki heyrt getið um neinar morðsögur, að því undanskildu, að í sumar, þegar við komum til Toronto, hafði verið nýlega tekinn til fanga maður, sem hafði skotið á menn, sem gengu um götuna; var getið til að hann hefði gjört það í vitleysu; í vetur hafði orðið slagur út úr drykkjuskap í bæ þeim er Beachbridge heitir, er liggur 20 mílur héðan í suður.

Þar slógust Englendingar og Frakkar og biðu tveir af þeim frönsku dauðann af því.

Eg má nú til að hætta; fyrirgefið mér ófullkomleikann á þessum línum, sem eg hefi rispað í flýti og eru fyrsta uppkast, því eg hefi ekki tíma til að skrifa þær upp reglulegar, því bréfin okkar þurfa að fara að komast á kreik, svo þau komist ekki seinna en fyrstu sumarfuglarnir til Íslands. Hér sendir ykkur kveðju guðs og sína,

Arnljótur B. Olson, Vigfús Sigurðsson.

---

Úr bréfi S. M., 14. Júní 1874.

Lancaster P.O., Nebraska.

Sama daginn og eg endaði bréfin heim seinast, 5. maí, fórum við Jón Halldórsson af stað frá Milwaukee og komum til Chicago kl. 5 e.m. sama dag; gengum við beina leið frá vagnstöðvunum til landsöluskrifstofu Burlington and Missouri járnbrautarfélagsins og keyptum þar landskoðunar vegabréf. Eftir þeim getur maður staðið við og skoðað land hvar sem maður vill á leiðinni, og þar eð félagið gefur næstum ókeypis ferð hingað til Nebraska, lætur það þessi vegabréf gilda sem borgun upp í hina fyrstu leigu sem borguð er um leið og landið er keypt; en kaupi maður ekki land af þessu félagi, fær hann ekki ferðina borgaða. Vegabréf okkar Jóns kostuðu hvort um sig 25 doll. 25 cents og giltu til Lincoln höfuðstaðarins í Nebraska; eru þar enn ekki nema 1245 íbúar. Lincoln er héðan frá landinu, sem eg keypti, 20 mílur í norður. Frá Chicago fórum við aftur af stað kl. 10 um kvöldið 5. maí og komum til Burlington í ríkinu Iowa klukkan 8 morguninn eftir, 6. maí. Höfðu þá vagnarnir hrist okkur hálfsofandi í 10 kl.-stundir, svo okkur var orðið mál á hressingu. Eftir það gengum við enn inn á landskrifstofu, skoðuðum landabréf og spurðum um alt, sem okkur datt í hug. Þann sjöunda maí kl. 5 og hálf f. m., komum við til Villisca, sem er lítið þorp í Iowa, fórum þaðan fótgangandi sex mílur í norðvestur til að skoða land, sem boðið var til sölu; var það hálend slétta, fyrir 11 til 17 dollars ekran. Ekki leizt okkur á þetta land, sem var of þurt og hátt. Eg gleymdi að segja þér frá brúnni yfir Mississippi fljótið rétt hjá Burlington; voru vagnarnir fleiri mínútur að renna yfir hana, enda

fóru þeir þá ekki harðara en maður gengur. Brúin er svo ramgjör, að fáir geta ímyndað sér það. Undir henni eru afar stórir stampar þríhyrntir og snýr eitt hornið í strauminn; þeir eru fullir af grjóti. Eftir eins dags dvöl í Villisca fórum við þaðan 8. maí og komum til Missouri-fljótsins kl. 9 f. m.; var þar til taks svo stórt gufutröll, að það tók tvo vagna fulla af fólki og rann með þá yfir um; tók þá annað tröllið við og dróg þá áfram. Var það skrítið að sigla á vatni og vera þó á gufuvagni. Kl. 10 komum við til Plattemouth, sem er lítill bær vestan við Missouri-fljót, allskamt þaðan sem Laplatte áin rennur í það. Bærinn stendur í kvos upp frá fljótinu, sem brattar skógivaxnar hlíðar liggja að og sumstaðar klettar. Fljótið er breitt, með sandeyrum, sem alt af eru að breytast, og sitja skipin oft föst á þeim. Í Plattemouth töfðum við í klukkustund, og fórum þaðan með brautinni, sem liggur eftir vesturbakka La Platte. Til Lincoln komum við kl. 4 eftir miðdag 9. maí, þar dvöldum við til hins 12. og vorum að bíða eftir bréfi frá Lárusi Bjarnasyni bróður Torfa, en máttum þó fara frá Lincoln áður en það kom, og til Salthills. Þar skoðuðum við land og sáum land Torfa, sem búið var að sá hveiti í; héldum áfram þaðan samt gangandi og til Firth, vorum þar um nóttina og löbbuðum enn af stað til að hitta Lárus, þar til við fundum hann. Hjá húsbónda hans vorum við tvær nætur, vorum við þá alt af að ganga og litast um eftir landi og fundum loksins það er okkur líkaði; það er 4 mílur frá vagnstöðvunum í Firth; kostar ekran 7 og 8 dollars.

Nú eigum við á hverjum degi von á Ólafi Ólafssyni, sem víst ætlar að taka land í sömu "section" og við, því hér er sannarlega fallegt land, ef nóg væri efni til að gjöra umbætur á því. Eftir alt þetta flakk fórum við Jón að vista okkur. Vistaðist eg hjá þýzkum karli í sjö mánuði frá 10. maí til 10. desember, fyrir 18 dollara um mánuðinn. Mér fellur hér vel, nema hvað eg heyri lítið af ensku, því hér er töluð mest lág-þýzka, en eg reyni ekki að tala annað en ensku. Þegar við Jón komum hingað eftir fimm daga ferð yfir meir en 100 hnattmílur, eða 20 þingmannaleiða langan veg auk allra smákróka, frá Milwaukee, var skógur hér orðinn allaufgaður, en sást ekki vottur fyrir lauf á trjánum í Wisconsin; öllu var hér búið að sá og margir búnir að planta maís, svo eg vildi ekki kosta til að reyna að setja korn í mitt land, ef það yrði ekki fullvaxið

í uppskerutímanum; en eg ætla að láta brjóta á því, sem kostar 2 doll. og 50 cent fyrir ekruna. Síðan eg kom hingað hefi eg verið vel hraustur, og finst mér þó sumir dagar eins heitir og þegar heitast var í Milwaukee í fyrra, og þó hitnar enn fram úr þessu. Eg er samt ekkert hræddur við það. Vatn er hér svo gott, að þó eg þambaði mikið af því, verður mér ekkert meint af því, en í Wisconsin mátti eg það ekki, því þá varð mér ilt í maganum. Loftslag hér held eg sé ágætt; sunnan og suðvestan vindar svala hér oft í hitanum; þrumur, eldingar og steypuskúrir hreinsa hér nú loftið einu sinni, tvisvar og þrisvar í viku, svo grasið þýtur upp. Nærfelt á hverju kvöld má sjá hér "sléttuelda", því hver brennir á sínu landi. Hver bóndi plægir í kringum land sitt 16 álna (2 "rods") breiða ræmu, til að halda eldinum frá húsi sínu. Þó verða hér oft skaðar af eldum þessum.

---

## Úr bréfum frá Ameríku.

Kinmount, 13. október 1874.

— — Yður þykir máske gaman að heyra ofurlítið um, hvernig Íslendingum þeim líður, er komu hingað til Ontario í haust. Áformið var í fyrstu, að ef þeir hefðu komið tímanlega eða um uppskerutímann, að útvega þeim vistir hjá bændum og láta þá kynna sér landshætti áður þeir byrjuðu sjálfir á búskap; en af því þeir komu svona seint, var ekki hægt að fara betur að, en útvega öllu einhleypu kvenfólki vistir, en flytja alla karlmenn og þeim áhangandi fólk hingað til Kinmount, því hér geta þeir fengið vinnu í allan vetur á járnbraut, er verið er að byrja að byggja, með allgóðum launum, sem sé 1 doll. 12½ cent á dag. Atvinnu geta þeir líka haft hér í alt sumar, ef þeir kjósa, á sama stað. Þeir voru fæddir í Toronto í hálfan mánuð, á meðan verið var hér að byggja handa þeim hús til að vera í í vetur. Þeir eru nýlega komnir allir og margir þegar byrjaðir á vinnu. Öllum þykja Íslendingar álitlegir menn yfir höfuð að tala og vel líkar við þá til verka. Enn er ýmislegt fremur óviðfeldið fyrir þá hér í bráðina, á meðan þeir eru að komast betur á laggirnar; en þeir eru flestir í góðu skapi og ókvíðnir fyrir framtíðinni, enda verður alt gjört til að hjálpa þeim á veg. Þeir geta fengið land gefins rétt meðfram og nálægt járnbraut þess-

ari, og ætla eg með þeim að skoða það nákvæmlega bráðum og þeir að velja sér jarðir, er eg síðar sendi stjórninni númerin á, til þess að hún láti höggva á þeim og byggja hús, svo Íslendingar þessir geti byrjað bú á jörðum sínum í vor ef þeir vilja. Stjórnin hefir reyndar ekki enn bréflega samþykt að gjöra þetta á þessum stað, en eg tel efalaust, að hún gjöri það, auðv. þó með því skilyrði að endurbæturnar verði borgaðar á sínum tíma. Meira get eg ekki skrifað að sinni, því við erum ekki komnir lengra. Veðrið hefir verið dálítið svalt um tíma, en enn þá búumst við hér við svo sem sex vikna góðu veðri.

Yðar. Sigtr. Jónasson.

---

St. Louis, 14. október 1874.

— — Eg hefi aftur og aftur verið að hugsa um að rita yður greinilegar fréttir héðan af okkur löndum, en hefi dregið það alt til þessa og mun líkl. draga það þangað til ef guð lofar að eg fæ tíma til, með fyrstu skipum í vor komanda. Sem lítið sýnishorn af lífi okkar Íslendinga hér fyrir vestan haf á þessu sumri, get eg sagt yður þá frétt, að það hafa eigi verið svo litlar hreyfingar í þá átt, að finna nýlendustað og stofna ísl. nýlendu, en að minni skoðun hafa þeir orðið of "langeygðir" eða seilst of langt, sem nú fyrir liðugum mánuði hófu landskoðunarferð til Alaska. Það land keyptu Bandamenn af Rússum hér um árið fyrir sjö miljónir dollara, ef mig ekki misminnir, og kalla menn hér allar fyrrum eignir Rússa á norðvestur kjálka Ameríku með einu nafni Alaska. — — Þá hafa þessir landskoðunarmenn, sem eru þeir Jón stúdent Ólafsson, Ólafur Ólafsson og Páll*) nokkur að austan, fara þessa ferð upp á eigin spítur, en hafa fengið ókeypis far bæði með járnbrautinni til San Francisco og þaðan með herskipi norður með Kyrrahafsströndinni munu því helzt haft í hyggju að skoða sig um á ströndinni og eyjunum rétt fyrir norðan 54. br.gr., og að því búnu snúa aftur til Wisconsin. Þeir hyggja, að stjórnin muni gefa Íslendingum kauplaust far þangað ef þeir vilja, alla leið frá Íslandi, og hafa hugsað sér þetta land við Kyrrahafið helzt við hæfi Íslendinga,

*) Páll Björnsson, Péturssonar frá Hallfreðarstöðum í Hróarstungu.—*Útgefandinn.*

vegna þess að þar er aldrei mikill hiti, né fjarskalegur kuldi sakir sjóstraumanna að sunnan. Það hefi eg frétt síðast af þessum löndum vorum, að þeir höfðu stigið á skip þann 16. f.m. í San Francisco, til þess að halda þaðan norður. Við Haraldur bróðir minn og faðir okkar fórum í landaleit í sumar norður til Wisconsin eftir áskorun nokkurra landa í Wisc., bænda úr Bárðardal og Eyjafirði og af Austurlandi, — og völdum við nýlendustað í Shawano County, sem á íslenzka tungu mundi mega þýða Ljósavatnssýslu. Land er þar mest alt skógi vaxið, með vötnum og ám hér og hvar, en mest vatnanna er þó "Shawano" (Ljósavatn), sem er milli 20 og 30 fermílur enskar að flatarmáli. Spölkorn austur af þessu vatni, sem liggur nær freka þingmannaleið norðvestur af Green Bay, hafa numið sér land um 10—12 landar nú fyrir fáeinum vikum og ætla þeir að fá sér vinnu við skógarhögg nálægt löndum sínum í vetur. Þessar vikur síðan þeir námu hér land (80 ekrur hver), hafa þeir verið að höggva við til skála og reisa þá; ekki er langt eftir húsaviðnum. Eg var þar efra síðast í ágúst á sýslunefndarfundi, þar sem hreppstjórar voru saman komnir úr öllum bygðum hreppum (Towns) sýslunnar, og fékk eg þar framgengt með fulltingi Norðmannsins séra Homme, og Þjóðverjans séra Dicks, sem báðir eru lúterskir prestar þar í norður Wisconsin og framtakssamir, ötulir og hjálpsamir menn, að nefndin úrskurðaði, að alt land (county land) í Shawano yrði látið íslenzkum nýlendumönnum eftir fyrir hálfvirði, þannig, að hver einstakur maður skyldi þó eigi mega fá meira en 80 ekrur af því landi einn tíundi af verðinu skyldi borgaður strax og landið væri numið, en hitt, eða níu tíundu, á tíu árum, með 7% rentum. Nú mun lítið af þessu sýslulandi vera í hærra verði sem stendur en 1 dollar ekran, og verða þá 80 ekrur með helmings afslætti að eins 40 doll., en af þessu borgast 4 strax, en 36 á tíu árum, eins og áður er sagt, og má þetta því að réttu heita gjöf. Auk þess úrskurðaði og nefndin, að alt hið sendna land fyrir norðan Ljósavatn, það er lítt nýtt þykir til hveitiræktunar, og yfir höfuð alt sendið land, sem sýslunni heyrir til, skyldi látið Íslendingum gefins, því að það væri, sögðu nefndarmenn, afbragð til sauðfjárræktar, en þeir höfðu heyrt, að Íslendingar væru góðir fjármenn. — Eg heiti á yður og þá af lesendum blaðs yðar, sem eigi skoða oss landa sína hér í landi Leifs hepna

sem "tollheimtumenn og heiðingja," að skýra ykkur betur frá, ef g. l., hvers vegna landar hafa snúið sér til norður Wisconsin og sér í lagi að þessu héraði, hverjum kostum og ókostum landið sé búið og hvernig nú löndum gangi að brjóta ísinn og sigra áhyggjur og erfiðleika nýbýlingalífsins. — Það má sjá af blöðunum, að glatt hefir verið á hjalla hjá ykkur heima í sumar, enda var afmælið sjaldgæft og margs að minnast. Þ. 2. ágúst héldum við landar hér, milli 60 og 70, upp á þúsund ára afmæli vorrar kæru fósturjarðar; við söfnuðumst saman í Milwaukee nokkrum dögum áður og kusum 3 manna nefnd til þess að undirbúa hátíðarhaldið og standa fyrir því; og skoruðum á séra Jón Bjarnason, sem ásamt konu sinni hafðist við í Milwaukee þá tvo mánuði, júlí og ágúst, sem latínuskólinn í Decorah í Iowa, þar sem séra Jón er skipaður kennari í latínu og grísku, gefur sumarfrí, að prédika yfir okkur út af hinum 90. Sálmi, eða þeim texta, sem viðhafður var um alt Ísland. 2. ágúst söfnuðumst við öll saman kl. 2 e.m. í kirkju Geelmuydens, norsks prests í Milwaukee, til þess að hlusta á hina fyrstu íslenzku prédikun, sem nokkurn tíma hefir haldin verið, að því er menn munu hafa sögur af, hérna megin Atlantshafs. Auk okkar Íslendinganna var fjöldi Norðmanna í kirkjunni, þeirra sem höfðu gaman af að heyra "hvernig hinir gömlu forfeður þeirra hefðu orðað það", en þeir munu nú lítið hafa þóttst skilja forfeður sína. Séra Jón hélt snjalla prédikun um Drottins náðarríku varðveizlu á hinni íslenzku þjóð um hin liðnu 1,000 ár, og söngurinn, sem kona hans Lára, dóttir hins þjóðfræga söngmeistara vor Íslendinga, Péturs Guðjónssonar, stóð fyrir, gekk afbragðs vel, svo að Norðmenn luku lofsorði á okkur fyrir. Að lokinni messugjörð skipuðumst við til prósessíu á strætinu fyrir utan kirkjuna þannig, að tveir flaggberar í hinum íslenzka þjóðbúningi gengu fyrir, annar með hið íslenzka, sem við höfðum gjöra látið til þessarar hátíðar— blátt með ídregnum hvítum fálka—, en hinn með hið þrílita stjörnuflagg Bandamanna. Þar næst röðuðu karlmenn sér, tveir og tveir, og þá konur, sumar í hinum íslenzka þjóðbúningi. Þessari prósessíu héldum við út í gegnum borgina til skemtigarðs eins, sem nefndin hafði leigt fyrir 5 doll., og undirbúið þar með mat og vínföngum. Nú skemtu menn sér með ræðum og söng. Jón Ólafsson mælti langt og skorinort erindi fyrir minni Íslands, og

Ólafur Ólafsson fyrir skál Íslendinganna í Ameríku; enn fremur var drukkin skál Vínlands og Norðmanna hér, sem allmargir voru viðstaddir og þeim þakkað fyrir bróðurlegar viðtektir á okkur frændum þeirra, sem hittum þá aftur hér í landi Leifs eftir 1000 ár. Þá var drukkin skál íslenzkrar tungu og að endingu skál þeirra hérlendra manna, sem skörulegast höfðu gengið fram í því að safna bókum handa Íslandi í sumar, og voru einkum teknir fram Prófessor Fiske við Cornell University, og Prof. B. B. Anderson við Madison University, Wisc. Prof. Anderson hefir nýlega gefið út bók með titlinum: "America not discovered by Columbus," en því miður hefi eg ekki getað lesið þá bók enn. Báðir hinir nefndu heiðursmenn voru boðnir til afmælisveizlunnar, en hvorugur gat komið vegna forfalla. Alt fór vel og sómasamlega fram á þessum hátíðarfundi, enda fóru allir ánægðir af honum og munu lengi minnast þeirrar hátíðar, sem nokkrum Íslendingum auðnaðist að halda í Milwaukee (í Vínlandi) í minningu 1000 ára byggingar Íslands, fósturjarðar sinnar, er forðum átti þá sonu er að réttu ber heiður sá að hafa fyrst fundið þetta auðuga og víðlenda ríki. — Frá löndum í Ontario hefi eg fengið bréf eigi alls fyrir löngu, og segir t. d. Vigfús Sigurðsson, að hann og fleiri fjölskyldur, sem hefðu ætlað sér að komast vestur yfir vötnin til Wisconsin í haust, muni nú eigi geta hugsað til þess fyr en þá að vori. — Af almennum fréttum héðan má einkum nefna atvinnuskortinn, sem hefir þjáð þetta land að kalla má nú um heilt ár; verksmiðjum hefir víða verið lokað algjörlega eða verksvæði þeirra þrengt og ýms félög, sem höfðu myndast til þess að leggja járnbrautir eða önnur stórvirki, hafa annaðhvort farið á höfuðið eða lagt árar í bát fyrst um sinn, í því skyni að bíða betri byrjar. Af þessu hlauzt, að þúsundir af verkamönnum hafa orðið að ganga iðjulausir, einkum í stórborgunum, og tilfinnanlegast hefir það orðið fyrir nýkomna fátæklinga. Orsökin til þessa er án efa bankahrunið í New York í fyrra haust, og peningaeklan, sem á eftir kom og skelkurinn, sem kom í peningamenn landsins, að nú mundi eigi alt með feldu í tilliti til peningastjórnar Bandamanna, enda var eigi um annað meir rætt á síðasta þingi, en hvernig skyldi bkippa þessu ólagi í liðinn og varð veita lánstraust ríkjanna; voru þar um mjög deildar skoðanir manna. Sumir mæltu með því, að aukin yrði útgáfa bankaseðlanna

(greenbacks), en sumir voru aftur á móti því, og vildu, að málmpeningar (specie payment) yrði nú aftur, eins og hafði verið á undan borgara styrjöldinni hér, hinir almennu gangpeningar. Í þessum síðarnefnda flokki var Grant forseti. Heita má að vísu, að nokkuð sé farið að rætast úr með atvinnu, en þó er hún engan veginn enn komin í samt lag. Fyrir skömmu bryddi á óspektum í Suðurríkjunum milli svertingja og hvítra manna, en nú virðast þær sefaðar að fullu.

Á stórsóttum hefir eigi borið mjög mikið hér þetta ár. Meðal landa hefir, að því mér er kunnugt, einlægt mátt heita heldur gott heilsufar yfir höfuð; þó hefir hópurinn skerst um einn í sumar, með því drotni þóknaðist að kalla burt Pétur Thorlacius frá Stokkahlöðum í Eyjafirði, þ. 30. ágúst. Hann andaðist úr innanveiki (cholerine). — Að endingu bið eg yður svo að bera vinum og kunningjum kæra kveðju mína. Verið jafnan sæll. Yðar,

**Páll Þorláksson.**

---

**Úr bréfi frá Ameríku, dagsett 1. febrúar 1875. til ritstjóra Norðanfara.**

Í Kinmount, Ontario.

Stjórnin útvegaði Íslendingum öllum atvinnu í haust við Victoria járnbraut, er verið er að byggja frá bænum Lindsey, sem er um 60 mílur í norðaustur frá Toronto, en frá Lindsey hingað til Kinmount eru 40 mílur. Einnig lét hún byggja bjálkahús mönnum til íbúðar fyrst um sinn. Húsin voru fjögur tvö af þeim eru 70 fet á lengd, en 20 á breidd hvort um sig en hin tvö að eins 35 fet á lengd en 20 á breidd. Þau voru bygð á sama hátt og nýbyggjar vanalega gjöra hús sín, nefnil. veggir hlaðnir upp úr óhöggnum trjám, sem fylt er á milli með mosa og leir. Þökin eru úr borðum, en plankagólf. — Er Íslendingar voru hingað komnir, reyndust húsin ónóg og of lág, svo í viðbót voru bygð tvö hús, 35 fet á lengd og 20 á breidd hvort og var loft í öðru þeirra. Einnig voru sett loft í hin tvö stærri húsin. 10 suðuofnar voru lagðir til með húsunum til bráðabyrgðar, er ætlast var til að landar kæmu sér saman um að kaupa og sem flestir eru seldir; stjórnin

borgar flutning á þeim hingað, svo þeir eru með innkaupsverði.

Lífið var mörgum Íslendingum erfitt fyrst eftir að þeir komu hingað til Kinmount, sem að miklu leyti orsakaðist af lasleika í fólkinu. Þegar það kom á land í Quebec, voru margir lasnir af magaveiki, er orsakaði uppköst og niðurgang; þessi kvilli virtist að grípa fleiri á leiðinni til Toronto. Margir voru lasnir af honum meðan þeir dvöldu í Toronto, og virtist lítið batna þó læknir væri á hverjum degi að skoða hina sjúku og senda þeim meðöl. Íslendingar voru fluttir hingað í tveimur hópum; hinn fyrri fór frá Toronto hinn 9. október, en sá síðari þann 12. Vegalengdin frá Toronto til Kinmount er 102 mílur enskar, og er farið 88 mílur í norðaustur með Toronto og Nippising járnvegi til bæjar, er liggur við enda þessa vegar og nefnist Cobakonk. Þaðan eru 14 mílur til Kinmount, er fara verður með hestavögnum. Til að komast til Kinmount samdægurs urðum við að fara frá Toronto kl. 8 um morguninn, og komust til Cobakonk litlu eftir miðjan dag. Þar höfðu allir miðdegisverð og að því búnu var farið að koma kvenfólki og krökkum og hinu nauðsynlegasta af farangrinum á hestavagnana, er voru fyrirfram umbeðnir þangað. Alt hafði gengið vel með landa alt til þessa, að undanteknu því, að þeir voru ekki sem liðlegastir, er þeir áttu að fara að ferðast með gufuafli í Quebec í fyrsta sinn; en er til hestavagnanna kom, þá fór heldur að grána leikurinn. Svo var til ætlast, að allir karlmenn, er frískir væru, gengju þessar 14 mílur, en hitt alt keyrði; en þeir frískustu urðu fyrstir að komast á vagnana, svo tími eyddist talsvert, þar eð aftur varð að stanza vagnana og reka menn ofan, en hlaða aftur með krakka og kvenfólki. Það var því komið undir rökkur, er af stað varð komist, svo mikinn hluta vegarins varð að fara í myrkri, sem var fremur óskemtilegt, þar eð hann var ósléttur og blautur af rigningum. Þegar fyrri hópurinn fór frá Cobakonk til Kinmount, var gott veður og hlýtt um kvöldið; en þegar sá seinni fór hittist svo illa á, að það var hinn kaldasti dagur í október; kvenfólki og börnum varð því býsna kalt á vögnunum, og mun það hafa átt nokkurn þátt í ungbarnadauða þeim, er átti sér stað eftir að til Kinmount var komið. Tvö ung börn dóu í Toronto og eitt á leiðinni þaðan tl Cobakonk, en ett var skilið þar eftir veikt með móður þess, það barn dó nokkrum dög-

um síðar. Eftir að til Kinmount kom dóu 12 börn og stúlka á 17. ári. Hér er að vísu læknir, en hann er læknisþurfi sjálfur, því whiskey er nærri búið að drepa hann. Það skifti því nokkrum tíma áður góður læknir kom, sem járnbrautarfélagið fékk upp á sinn kostnað. Eftir að búið var að brúka meðöl hans um stund, fór fólkinu smátt og smátt að skána, jafnvel þó enn eldi eftir af magaveiki í sumum. Álit lækna hér er, að lasleiki þessi hafi mest orsakast af breytingu á loftslagi, fæði og vatni. Læknir nokkur frá Lindsey, er fenginn var fyrst til að rannsaka heilbrigðisástandið, gaf þá skýrslu, að allir hefðu sýkst af einum eða fleiri persónum á skipinu. Hvað sem um þetta er, þá er víst, að lasleiki þessi olli mönnum mikils tjóns á ýmsan hátt. Agent stjórnarinnar var falið á hendur að semja við formann járnbrautarfélagsins um að láta Íslendinga hafa vinnu í allan vetur og alt sumar, ef þeir vildu, samt að launin yrðu 1 dollar á dag í vetur, en að öllum líkindum 1¼ dollar í sumar. Nú, þegar til verks var tekið, sem var hinn 12. október, voru margir lasnir, svo þeir þoldu ekki vinnu nema dag og dag í senn, og líka voru nokkrir að búa um sig til vetrarins og sintu eigi vinnu, svo félagið hélt að Íslendingar mundu verða svona óstöðugir við vinnuna alt af, og bjuggu sig því eigi út með nóga hesta og kerrur. Þegar því nær allir voru orðnir fullfærir um vinnu, fór því að verða skortur á vinnunni og vísuðu verkstjórar mörgum frá sér, sumum í nokkra daga og sumum til fulls. Svo eg varð að fara suður til Toronto um miðjan fyrra mánuð að kvarta yfir vinnuleysi, og er nú meira en helmingur þeirra, sem vinnulausir voru komnir til vinnu aftur og hinir fá vinnu eftir fáa daga. Sökum þess að vinnuekla er mikil um alla Ameríku og laun lág, þá notaði járnbrautarfélagið sér það og setti launin niður um 90 cent á dag um byrjun f. m. Þetta getur samt ekki staðið nema stutta stund, þar eða vinnu verður nóga að fá með vorinu. Veturinn hefir annars verið mjög óhentugur til að halda áfram járnbrautarvinnu, þar eð frost og snjór hefir verið með langmesta móti, því nú er snjórinn alt að því 3 fet ensk á sléttu að jafnaði, og ef félagið hefði ekki verið loforðum bundið með vinnuna, þá hefði það látið hætta um einn eða tveggja mánaða tíma. Í vetur er ekki hægt að vinna að öðru en að grafa í gegn um hæðir og fylla gil og svo að sprengja kletta og fella skóg, þar sem brautin á að leggjast í gegn, en við

hið tvent síðarnefnda eru Íslendingar ekki miklir garpar sökum óvana; samt eru fáeinir að hjálpa sprengingarmönnum, og eg ætla að koma nokkrum ungum og einhleypum mönnum í skógarhögg við brautina. Slíkt er þeim nauðsynlegt að læra.

Nokkrir Íslendingar fóru að skoða land í haust hér norður og austur frá, var landagent stjórnarinnar fyrir förinni, en Sigurður Jóhannesson frá Manaskála, sem hefir verið hér í Canada meir en ár og hefir gott vit á landi, var með sem túlkur Járnbrautin á að leggjast rétt í gegn um sund af landi því er þeir skoðuðu, og er nú verið að fella skóginn þar sem hún á að liggja. Landið, sem fæst gefins, sögðu skoðunarmenn álitlegt, og Sigurður, sem skoðað hefir hin gefins lönd víða í hinum "Free Grant" héruðum, segir að sér hafi hvergi þar þótt land álitlegra en hér. Skoðunin var byrjuð svo seint, að henni varð eigi haldið áfram nema eina viku áður snjór féll, og enginn tók sér land. Eg hafði við öllu öðru að snúast, svo eg gat ekki verið með í skoðuninni, en strax og vorar ætla eg nákvæmlega að skoða land með fram þessari braut.

Þó það ætti að liggja hverjum manni í augum uppi hver hlunnindi það eru að fá gefins land rétt við járnbraut, sem verið er að leggja, og munu því — auk þess að land það, er menn nú fá gefins, ætti eftir fimm ár, eða þegar afsalsbréf fæst fyrir því, að verða að minsta kosti eitt þúsund dollara virði —, geta haft atvinnu við á ýmsan hátt. Þá er varla hægt að gjöra sumum Íslendingum það skiljanlegt. Braut þessa á að leggja héðan norður að Ottawafljóti, og á hún þar að tengjast hinni fyrirhuguðu Canada Kyrrahafs braut; aftur að hausti mun verða búið að fullgera hana svo frá Lindsay hingað, að lestir geti farið að ganga um hana, og verður þá óslitinn járnbrautarvegur héðan til Toronto. Auk þess að maður getur fengið gefins land fast við járnbraut, er hvergi fæst annars staðar í Canada, þá eru líkindi til, að námur verði þessu héraði til framfara, því skamt héðan hafa fundist bæði járn og blýnámur, sem eigi er þó hægt að nota fyr en járnbautin er orðin fullgerð. Skamt hér fyrir vestan liggur einlæg keðja af ám og vötnum langt norðan úr landi, og er mikill hluti af vötnum þessum skipgengur. Ganga því gufubátar eftir vötnum þessum á sumrin; einnig eru þau notuð til að fleyta timbri norðan úr landi suður að Ontariovatni. Veiði er einnig talsverð í vötnum og ám hér í grend.

Eg þarf ekki að fara mörgum orðum um hið annað atriði, er aftraði mér frá að styrkja til þess að menn flyttu hingað á næsta sumri. Það er nóg að segja, að meiningar Íslendinga í Ameríku hafa, síðan þeir fluttust hingað, verið mjög skiftar með tilliti til hvar bezt muni fyrir oss að taka bólfestu. Íslendingar í Bandaríkjunum skiftust í fyrra í tvo flokka; annar áleit Wisconsin hinn bezta stað, en hinn flokkurinn áleit Nebraska betri. Í sumar myndaðist hinn þriðji flokkur, og gengu í hann nokkrir af Nebraskamönnum. Þessi flokkur álítur að Alaska eðahinar gömlu eignir Rússa í Ameríku, sé hinn rétti staður fyrir Íslendinga að safnast saman á, og þeir er skoðuðu land þar, láta mikið af því, eða þó einkum af sjávaraflanum þar. Án þess eg sé kunnugur, finst mér samt Alaska heldur norðarlega, til þess að þar geti verið öllu frjósamara en á gamla Íslandi, og ekki get eg annað séð, en að menn verði hér um bil eins mikið út úr hinum mentaða heimi á Kadiak eyju, og menn eru á Íslandi. Hér í Canada eru menn nú gengnir í tvo flokka; álítur annar, að bezt muni vera að setjast að í Nova Scotia, þar eð stjórnin þar bjóði mönnum betri kosti, en Ontario stjórn gefi, og svo verði menn nær Íslandi, sem þeir halda þeir muni betur geta verzlað við með tímanum; en hinn flokkurinn vill vera kyr hér í Ontario og reyna hversu að mönnum gengur komast hér áfram. Nova Scotia stjórn gaf von um frían flutning þangað, en nýlega hefir hún neitað að gefa hann. Meðan svona stendur alt óráðið og því nær óreynt, finst mér óráðlegt að eggja menn til nokkurs viss staðar, sem þeir, er þangað væri komið, kannske yndu ekki í; hrakningar frá einum stað í annan eru það, sem eyðileggja fjármuni þeirra, er hingað koma, ef þeir hafa nokkra, og standa öllum útflutningsmönnum fyrir þrifum; og þó stjórnin kunni að bjóða glæsileg kjör, þá álít eg ætíð hollara, að reiða sig meira upp á sjálfan sig og sína eigin fjármuni, en stjórnir og loforð þeirra um hjálp. Hvað mig sjálfan snertir, þá held eg þeirri skoðun enn, að Ontario hafi marga yfirburði yfir hina aðra staði, er stungið hefir verið upp á fyrir nýlendustað handa Íslendingum, enda vegnar löndum hér betur, þegar öllu er á botninn hvolft, en þeim hefir vegnað annars staðar í Ameríku, þó ýmsir segi hið gagnstæða.

Það er því, undir þessum kringumstæðum, bezt fyrir alla, að hreyfa sig sem minst og láta þá, er í Ameríku eru,

útkljá um málið með reynslunni. Eg mun seinna láta yður vita framhald af gjörðum manna hér vestra.

Yðar heiðrandi **Sigtryggur Jónasson.**

---

Parry Sound, Ontario,
25. janúar 1875.

Herra ritstjóri!

Vegna þess að bréf, sem eg skrifaði bræðrum mínum og kunningjum heima í fyrra, lenti mér þó óafvitandi í aukablaði Norðanfara nr. 25. og 26., þá hefir það orðið tilefni til þess, að nokkrir af löndum mínum hafa skorað á mig, að eg léti fleiri koma í Norðanfara. Bið eg yður því að gjöra svo vel að ljá þessum línum rúm í yðar heiðraða blaði, enda þótt eg finni mig ekki færan um að rita svo vel sem skyldi, þar eg þá líka sé ömunaryrði í blöðunum frá einstökum mönnum gegn öllu því, sem snertir Ameríku; eins og t. d. bréf Húnvetningsins nafnlausa, er stendur í 23.—24. blaði Norðanfara n.l. ár. ›Það er sannarlega leiðinlegt, þegar menn rita í blöðin um það, sem menn ekki þekkja til hlítar, einkum þegar þá er spáð í eyðurnar miður góðgjarnlegu efni, eins og t.a.m. þegar hann kemur með þá setningu, meðal annara ástæðulausra, að bréfum þeirra (nefnil. emigranta) sé ekki trúandi, og t.a.m. hætti þeim við að gylla kjör sín um of, til að teygja þangað fleiri til sín í ólukkuna, svo sem kunningja og ástvini, því þeim skrifa menn heim.‹ Hann gjörir oss þannig, er segjum annað af því nýja landi en alt ilt, verri ríka manninum, sem guðspjallið getur um, því hann vildi þó ekki, að bræður sínir lentu í fordæmingunni, þó hann væri þar kominn sjálfur. Hefir nokkur fremur ástæðu til að trúa því, þó einhverjir segðu alt annað en gott, sem eg get vel ímyndað mér að geti átt sér stað, því bréf manna verða að skapast eftir smekk og greind hvers eins. Sumir máske eru til, sem fellur ekki að láta illa af landinu, eins og Hrafna-Flóki af Íslandi forðum, en fáir ætla eg lofi það svo mjög úr hófi, sem Þórólfur smjör, heldur telji kosti og lesti, eins og Herjólfur á Fróni forðum, og það vildi eg leitast við að gjöra, eftir minni litlu þekkingu.

Sem framhald af því, sem eg ritaði í fyrra, er að geta þess, að við, Íslendingar í Rosseau, héldum áfram með að ryðja þar nefnda braut, ásamt þeim löndum, er búnir voru

að taka sér þar bólfestu í skóginum, Baldvini Helgasyni og Davíð frá Bakkaseli í Fnjóskadal; þeir keyptu lóð þá, er fylgdi húsinu, sem þeir fluttu í í fyrra haust, svo þeir eiga það nú, auk þeirra lóða, sem þeir fengu hjá stjórninni af gefins landi. Tóku þeir að sér kafla af brautinni, sem lá yfir land þeirra, í félagi með tveimur Húnvetningum, Bjarna Snæbjarnarsyni og Jakobi Lindal, er bygðu sér skála mílu frá þeim fyrnefndu; urðu þessir menn okkur bjargvættir með að ljá okkur húsaskjól þar í óbygðum um hávetur; þegar lengra dró upp í skóginn og orðið var oflangt að ganga heim og að heiman á dag, gekk verkið heldur til seint fram, því bæði var skógurinn stórvaxinn og talsverður snjór til tafar, þó ekki væri nema lausamjöll, því aldrei kom gola til að þjappa honum saman; samt var haldið áfram þangað til komnar voru sex mílur að öllu samtöldu, ásamt tveimur, er þrír Norðmenn ruddu. Fóru þá flestir að letjast, því þá stóð yfir harðasti tíminn seint í febrúar, þá snjór og frost voru hér mest. Fóru þá sumir af þeim er land áttu, að ryðja mörkina fyrir sjálfa sig, það er að skilja þeir, er þá vildu halda í lönd þau, er þeir höfðu látið skrifa sig fyrir; hinir sögðu sig alveg frá þeim, þótti þar sumstaðar grýtt, þó víðast sé þar allgott land á milli, með því líka þeir höfðu fregnir af betra og jafnara landi norðar, með veiði vötnum og smágjörðari skógi, vildu því leita þangað. Varð þetta tilefni til þess, ásamt atvinnuleysi í Rosseau, að við fluttum þangað 23½ mílu til norðvesturs, á ofanskrifaðan stað; seinast urðu ekki eftir í Rosseau, nema Anton og Brynjólfur frá Mývatni og Flóvent frá Skriðulandi við Eyjafjörð. Við fengum hér nú vinnu við sögunar vatnsmylnu og 1 dollar um daginn; þótti okkur nú þetta gott hjá því, sem við höfðum vanist áður, þó daglaun væru alment 1 dollar og 25 cent sunnar í landinu; en það var góð uppbót, að við fengum hér leigulaust húsnæði og máttum taka nóg til eldiviðar af því, er sagaðist utan af trjám og borðvið í mylnunni; er þetta hvorttveggja nokkuð dýrt í hinum stærri bæjum. Hélzt þessi mylnuvinna við fram í miðjan nóvember; eigi að síður situr einn af löndum enn við sömu kjör í allan vetur hjá félagi því, er á þessa myllu. Við hinir aðrir landar höfum ekki haft verk síðan, af því við höfðum vistaskifti, nema hálfan tímann við að saga í sundur tré til annarar mylnu uppi í skógi, hér allskamt frá, samt dollar um daginn; en nóg höfum við að líkindum að starfa, þegar dregur að vorinu.

Þorpið, sem við búum í, er ekki mikil borg; bærinn er líka ungur og í barndómi. Þegar eg kom hér fyrst, virtist mér hann ekki öllu stærri en Akureyri, en síðan hafa verið bygð 30 hús, og eftir því er líklegt hann fari vaxandi; hann liggur líka allvel við verzlun.

Sem áður er á vikið, var það tilgangur okkar meðfram að fara hingað, að skygnast eftir landi hér í grend, og sökum þess var gjörð dálítil landskoðun í vor. Hafa þeir Sigtryggur Jónasson og Friðbjörn Björnsson lýst því landi, sem þeir fóru um, í Norðanfara aukablaði nr. 25.—26. Leizt þeim víða vel á það og mikið betur en í grend við Rosseau. Voru þá sumir að tala um að taka sér land þegar í stað, þó var það seinast ráðið, að bíða með það þangað til landar þeir, er von var á, kæmu að heiman. Í miðjum júlí var Sigtryggur gjörður út af Ontario stjórn að taka á móti þeim flokki, þegar á land kæmi í Ameríku, og fylgja honum til Toronto. Var það ætlun Tryggva, að einhleypt fólk og þeir, sem ekki gætu tekið land, ráðstöfuðu sér þar í vinnu og vistir, af því hér norður frá yrði verra að fá atvinnu yfir veturinn; en hann ætlaði að fylgja þeim, er land gætu tekið, hingað; átti þá með sama að velja nýlenduna, taka lönd og byggja hús; en sem kunnugt er, drógst það svo langt fram á haustið að flokkur þessi kæmist til Ameríku, að ekki varð úr neinni landtöku í haust. Við höfum ekki séð Sigtrygg síðan, hér í Parry Sound, né nokkurn af þeim löndum, sem þá komu. Hvort nokkrir af þeim fara hingað í vor eða ekki, er enn óvíst; samt líkar þeim nú ekki þar sem þeir eru, þarna í Kinmount. Máske þeir tvístrist sinn í hverja áttina, eins og þeir, sem áður voru komnir. Það var annars ekki við því að búast, að Íslendingar gætu haldið saman hér í Ameríku fremur en aðrar þjóðir, því við höfum aldrei verið félagslyndari en aðrir menn, og víst flestum vandlátari að landi; eg sé það á því, að sumstaðar hér, þar sem löndum hefir þótt ótækt land, hafa annara þjóða menn tekið það og þótt gott, t.a.m. land það, er Ólafur frá Espihóli skoðaði hér, þykir eitthvert hið bezta; þar eru bæði Norðmenn og Svíar og Danir seztir að; ólíklegt hann fái það betra í Alaska, og sízt mildara loftslag svo norðarlega á hnettinum.

Nýlega hefir það borist í bréfum landa til okkar frá Kinmount, að þeir sumir þar væru að hugsa um að fara til Nova Scotia (Nýja Skotlands), því Jóhannes Arngrímsson, sem sagt er að sé orðinn agent stjórnarinnar þar, hefir

borið þeim mkið kostaboð frá henni, t.a.m. skuli hver, sem kominn er yfir 15 ár, fá gefins land, 100 ekrur (þar af tvær ruddar og brendar ásamt hús og nýbyggjarastyrk 11 dollara, m. m. Þó boð þessi sýnist nú glæsileg, þá virðist þó sumum það nokkur fljótfærni að hlaupa eftir þeim svona út í bláinn, fyrir þá, sem hingað eru komnir. Fyrst er ekki að vita, hver endingin verður, og svo vita menn ekki með neinni vissu hvernig landið er; en svo mikið er þó víst, að brigðulli er þar þó veðrátta og íhlaupasamari en hér; n.l. í sumar snjóaði þar 30. júní, sem eðlilegt er, af því landið liggur svo langt austur í Atlantshafið, rétt í vegi fyrir hinu kalda þokulofti, er á stundum streymir norðan með Hellulandsströndum utan úr íshafinu; getur slíkt hnekt akuryrkjunni ekki alllítið. Þar hefir enginn Íslendingur verið svo nokkru nemi, svo vér erum þar öllu ókunnugir, en "sjón er sögu ríkari". Menn eru þó heldur búnir að kynna sér, hvernig til hagar í Ontario með margt, þó þeim að vísu líki ekki alt, því bágt mun að finna þann stað í Ameríku, er ekki þyki eitthvað að, sem annars staðar í heimi. Hér er geysi mikið land ónumið, bæði austur og norður; eins og því hefir verið stuttlega lýst í norðlenzku blöðunum; og þó það sé ekki alt jafngott, t.a.m. sumstaðar sendið og grýtt, þá er víðáttan svo mikil af hinu betra, að auðvelt er að sneiða hjá því lakara. Í Nippissing og Parry Sound héruðum, eru sagðir til stórir flákar af rennsléttu landi, og margt sýnist mæla fram með því, að ekki væri svo illa valinn staður hér norður frá fyrir íslenzka nýlendu, svo sem fyrst landrýmið. Gætu menn verið þar nokkurn veginn út af fyrir sig, ef fljótt væri að undið með að taka þar land. Þar er skógur sagður smærri og fljótunnari en hér sunnar; nóg veiði í vötnum og dýraveiðar á landi. Svo er annað, að af því héruð þessi eru í grend við George flóann, liggja þau allvel við verzlun og ágætlega, þegar járnbrautirnar eru komnar, sem ekki mun langt að bíða; sökum þessa eru mikil líkindi til, að mönnum gæti orðið mikið fé úr timbrinu á löndum sínum, sem og öðrum búnytjum. Eins gæti skipaferðir komist á milli Íslands og lands hér, sem, Brúnsvíkur eða Nýja Skotlands, því héðan er skipgengt eftir vötnum og skurðum alt ofan í St. Lawrence fljót. Þriðja, það sem ekki er minst í varið, að veðurátt er hér svo einkar hentug fyrir akuryrkjuna, og heilnæmt loft alla tíma árs; jafnvel þó töluvert frost og snjór sé á vetrum, þá er það vel þolandi því menn hafa ætíð vissa von

um að fá langt og hagkvæmt sumar á eftir. Hvorki er hitinn svo sterkur á sumrin né flugurnar svo tilfinnanlegar að það sé frágangssök. Til þess að byrja hér búskap þyrfti maður að eiga 150 dollara, gott hvað meira væri, til að kaupa fyrir kú og hross eða tvo uxa, getur fjölskyldu maður, sem hefir þrek og elju vel komist af með það fyrsta árið, með því að fá sér vinnu tíma úr sumrinu, þó hann starfi heima á landi sínu allan hinn tímann, Fer það þá með tímanum að gefa svo mikið af sér að hann getur farið að fjölga skepnum t. a. m. sauðfé m. fl., það er enginn efi á því að gott er fyrir efnaða menn að setjast hér að, og einhleypt fólk að fara hingað sem vel heldur saman kaupi sínu, því ekki er það þá lengi að komast í álnir. Þar á móti vil eg ekki ráða bláfátækum fjölskyldu mönnum til þess síst á meðan ráð landa þeirra er hér svo mjög á reyki. Sem dæmi upp á það má telja að erfitt mundi hafa orðið meðal hinna fátækustu í Rosseau í atvinnuleysinu sem þar var í fyrra, hefði ekki bæði herra Benidikt Jónsson frá Vegeirsstöðum í Fnjóskadal lánað þeim dálítið flestum, þó hann væri ekki efnaðri en sumir aðrir sem létu það vera, af því þeir þóttust hafa nóg með sig, og svo kom þeim óvænt hjálp frá herra stúdent Páli Þorlákssyni, sem var svo drenglyndur að senda þeim óbeðinn talsverðan fjárstyrk af gjafa samskotum sem fyrir aðgerðir hans var safnað meðal Norðmanna handa Íslendingum; þar að auki hefir hann látið aðra hjálpsemi og velvild í té, sem honum verður aldrei fullþakkað. Betur að nýlendu hans farnaðist vel í Wisconsin, þá mundu margir leita þangað. Sagt er að hann muni eiga að verða þar prestur bráðum.

Slys vildi til hér í bænum 23. næstliðinn þannig, að stór ofn sprakk, sem kyntur var í vatnsmylnunni, er búið er að endurreisa, verkamönnum til hita, af því að einskonar púður, er brúkað er til að sprengja með grjót, hafði komist að eldinum af vangá. Átta menn meiddust, hvar af sumir limlestust, liggur einn af þeim dauðvona. Heilsufar manna er hér gott, og engin umgangsveiki geysað, við Íslendingar varla fengið aðkenningu af kvefi síðan við komum, það þökkum við hinu góða lofti.

Að endingu óska eg mínum ástkæru löndum heima á feðrafoldinni, heilla og hagsældar, frelsis og frama, með nýjum tíma, sem tekinn er við af hinu gamla júbil ári.

Með virðingu. **Vigfús Sigurðsson.**

Parry Sound, 4. sept. 1875.

Kæri vin!

Hjartans þakkir fyrir bréfið þitt, hvert eg meðtók með góðum skilum, sem við var að búast, því þeir Múnka-Þverár bræður og Friðrik Bergmann, komu með það hingað til Grafenhurt, og settust að í bráð hjá löndum sem vinna þar við járnbraut nálægt 40 að tölu, þaðan eru nálægt tvær dagleiðir hingað. Þeir bræður hafa skrifað mér, Jakob er þar enn, en Jón er nú kominn til Milwaukee og sestur að hjá Ólafi frá Espihóli, sem þá var nýlega kominn aftur til baka úr Alaska-för sinni og er þar búinn búskapur hans. Friðrik fór til Shawano í Wisconsin, til Páls Þorlákssonar, sem nú er orðinn prestur Norðmanna og Íslendinga þar, og ætlar að læra hjá honum undir skóla ásamt Níelsi bróður Páls.

Sigtryggur Jónasson, ásamt fleiri löndum frá Kinmount, fóru í sumar vestur til Manitoba til að leita eftir landi handa Íslendingum. Nú eru þeir komnir aftur. Þeir segjast hafa kyrsett handa löndum sínum vesturströndina með fram Winnipegvatni, 50 mílur á lengd og 12 mílur á breidd, og eftir lýsingum þeirra á því landsplássi, erum við flestir mjög fúsir á að flytja þangað, og því heldur þar sem við hér í Ontario höfum fengið loforð hjá yfirstjórn Canada um frían flutning þangað. Ekki veit eg hvenær byrjað verður á flutningi þessum, en þó hafa sumir fastan huga á því í haust, eg get nú samt ekki skilið að það verði neitt af því fyr en með vorinu. Ef eg kemst þangað lifandi og mér lýst eins vel á þar og af er látið, skal eg ekki letja þig til vesturfarar; en hingað til hefi eg ekki getað hvatt neinn bónda, sem hefir við góða kosti að búa heima að flytja hingað, meðan alt er á tvístringi, það er öðru máli að gegna um vinnufólk, það getur grætt mikið meira hér en heima.

Hér í Ontario hefir venju fremur brytt á vinnuleysi í sumar og þá ekki síður í Nýja Skotlandi, samt fóru nokkrir landar frá Kinmount þangað, og munu þeir vera farnir að sjá eftir því; það sannast á sínum tíma hvað stór og farsæl nýlenda þar verður.

Uppskera er sögð hér víðast í betra lagi, en þó hafa engisprettur gjört nokkurn skaða sumstaðar.

Heilbrigði manna er í bezta lagi, nema hvað mislingarnir gjörðu vart við sig á einstöku stað; ekki komu þeir samt hingað. Af sjálfum mér er það að frétta, að mér og

mínum hefir liðið allvel, eg hefi haft nóg að gera í sumar og nóg að eta; dætur mínar hafa stundum verið allar í vistum, og Bogi oft í vinnu, en Július hefir þá passað heim vatn og eldivið. Kona mín átti dreng fyrir hálfum mánuði, og er hann enn óskírður; eg býst nú ekki við gagni af honum fyr en í Manitoba, þegar eg er seztur þar á laggirnar, sem eg hefi í áformi; en verst er, ef eg get ekki selt húsið mitt, sem eg er búinn að kosta til nálega 400 dollurum, þá verður lítið til að búa við þar; samt held eg að eg fari, ef guð lofar, líklega þó ekki fyr en í vor. Eg skrifa þér í vetur, ef eg lifi, og læt þig þá vita, hvernig okkur líður.

Þinn vinur,

**Jakob Sigurðsson Eyfjörð.**

---

**Kafli úr bréfi frá Gimli 14. janúar 1876.**

Það var á fimtudaginn seinasta í sumri, sem við stigum hér fyrst fæti á land, á nestanga einum litlum, sem Sigtryggur Jónasson nefnir í skýrslu sinni Víðirnes. Voru þar fyrst reist tjöld á landi fyrir fólk, en sumir voru á bátunum. Var skömmu síðar tekið til húsagjörðar víð vík norðan við nesið og þar bygð 30 hús, þar af eitt skólahús, sölubúð og vöruhús og 27 íveruhús. Ekki þótti ráðlegt að dreifa sér út um land svona undir veturinn, og voru allir búnir að koma upp skýli yfir sig um jólaföstubyrjun.

Þarna myndaðist lítið þorp eða bær, sem kallað er Gimli. Það nafn þekkja menn af Eddu, hvernig sem það nú þykir eiga við hér, eða hvort sem það hefir verið nefnt svo í fyrstu í gamni eða alvöru, veit eg ekki. Máske þetta nafn hafi verið gefið bænum af líkri ástæðu og þeirri, sem Eiríkur rauði nefndi Grænland af. Hann sagði, að þangað leituðu fleiri, ef landið héti vel.

Það er búið að mæla út bæjarstæði, sem er ein míla á lengd og hálf á breidd, og skift í smá-lóðir; á hver að kosta 5 dollara og andvirðið að ganga til að mynda með bæjarsjóð. Getur hver fulltíða maður fengið eina eða fleiri keyptar, og þar fyrir utan eina léða til afnota fyrst um sinn. Líka hafa verið kosnir fimm menn í bæjarnefnd, er jafnframt skal vera fyrir alla nýlenduna; í henni eru: Jón Taylor, Ólafur Ólafsson frá Espihóli, Friðjón Friðriksson, Jakob Jónsson frá Munkaþverá og Jóhannes Magnússon.



Einnig er kominn hér upp barnaskóli; þar kennir ung stúlka, bróðurdóttir Taylors.

Nú eru flestallir búnir að taka land, sumir farnir að byggja þar hús og teknir til að ryðja mörkina, og allir ætla nú að fara að vinna, hver að sínu landi, svo þeir geti átt blett til að sá í með vorinu, áður en þeir fara í járnbrautarvinnu.

Þess er vert að geta, að strax og búið var að kjósa hér bæjarnefndina, var hún beðin að vera í útvegum með prest handa okkur í vor, og gjörð uppástunga um, að það yrði séra Jón Bjarnason, sem nú er í Chicago, af því einhver hafði orðið þess áskynja, að hann væri ekki ófáanlegur til að fara hingað. Er það víst allra sameiginleg ósk og vilji, að þessu verði framgegnt.

**Íslendingur á Gimli.**

---

### Úr bréfi frá Nýja Íslandi.

Gimli, 2. september 1876.

Nú eru landar að heiman komnir hingað fyrir hálfum mánuði, og búnir að skipa sér niður út og suður með vatninu, norður að nýlendu-enda og svo út í Mikley. Mjög eru sumir óánægðir yfir því, að geta ekki fengið land fast við vatnið, og mörgu öðru; það er eins og þeir hafi hugsað, að þeir mundu um leið og þeir komu í land, geta reist blómlegt bú, og þó um leið lifað sem fiskimenn, eða þá að lifa sem tómthúsmenn, en ekki nema land og búa sem bændur; þeir vita það nú reyndar ekki. Annars held eg það hafi komið nógu margir í þetta sinn, meðan ekki er búið að mæla út landið. Stjórnin er nýlega samt búin að senda mælingamenn hingað, en það er ekki hægðarleikur að mæla út alt landið á stuttum tíma.

---

### Úr bréfi frá Nýja Íslandi.

14. marz 1877.

Nú er búið að skifta nýlendunni í fjögur bygðarlög, og fimm manna nefnd valin til stjórnar í hverju, og einn nefndur bygðarstjóri. Í Víðirnesbygðar nefnd eru þessir: Björn Jónsson frá Ási í Kelduhverfi, bróðir Kristjáns sál. skálds, bygðarstjóri; Friðjón Friðriksson, Skapti Arason, Kristján Jónsson frá Héðinshöfða (allir Þingeyingar) og

Eyjólfur Eyjólfsson úr Norðurmúlas. Í Árnesbygð: Bjarni Bjarnason frá Daðastöðum, faðir séra Þorkels á Mosfelli, bygðarstjóri; Jón læknir Jónasson frá Saurbæ, báðir úr Skagafirði; Jósúa S. Bjarnarson úr Dalasýslu, Samson Bjarnason úr Húnavatnssýslu og Einar Jónasson, sem nýlenduna valdi með Sigtryggi, úr Dalasýslu. Í Fljótsbygð: Jóhann Briem bygðarstjóri, Björn Pétursson fyrrum alþingismaður, Jakob Jónsson frá Munkaþverá, Þorgrímur frá Miðvatni í Skagafirði og Jóhann Geir af Vesturlandi. En nefndarmenn í Mikley hefi eg ekki heyrt nafngreinda.

---

## Úr bréfi frá Nýja Íslandi.

20. maí 1877.

Síðan bóluveikinni létti, hefir heilsufar verið gott. Kostnaðurinn við bóluna varð um 20,000 dollara, sem stjórnin hefir borgað. — Nú er lagður vegur eftir endilangri nýlendunnni. Verkstjórarnir voru enskir, en Íslendingar unnu verkið. Til vegarins kostaði stjórnin 8,000 dollurum. Þar að auki gaf stjórnin $2,500 dollara til að mæla út veginn, og eg held líka til að gjalda af umsjónarmönnum. Líka hefir nýlendan verið í vetur mæld í sundur í lot, á milli manna. Það gjöra canadiskir mælingamenn.

Nú er verið að setja hér þak og glugga m. fl. á prentsmiðjuhúsið, sem á að verða. Í vetur gengum við í hlutafélag, til að kaupa prentsmiðju handa okkur, fyrir 1,000 dollara (100 actiur, 10 í actiu). Pressan, stíll og pappír er nú komið til Winnipeg; það var keypt suður í Bandaríkjum, af Jóni presti Bjarnasyni. Húsið er 25 fet á lengd og 18 á breidd og spónþak á, eins og flestum húsum hér í Ameríku. Jónas bróðir Sygtryggs er ráðinn prentari með 2½ hundrað dollurum um árið. Blaðið á að heita Framfari.

Nú eru öll lot meðfram vatninu tekin og verður þar þétt bæjaröð.

Eg er að hugsa um að kaupa uxa, að minsta kosti hálfan, í haust, því lítið er hægt að gjöra nema hafa einhver vinnudýr. Einn uxi kostar frá 70—80 dollara, kýr frá 30—50 doll., hestur um 70—100 doll. og þar yfir; suðuofnar 25—35 d., hveiti í sekkjum, 100 pd., 2—3 d. eftir gæðum, sykurpundið 15—18 cent, tepundið 50—60 cent, kjöt 8—10 cent pundið, fleskpund 15—17 cent, kaffipund 60—75 cent, sýróp 1 gall. 80 cent, skógaraxir 1¼—1½ d., plógur

25 d. og þar yfir, 1,000 ferhyrningsfet af borðum 20—30 d., skór 1.25 til 3 dollara, ullartau ( í skyrtur) 50—75 cent. yard ($1\frac{1}{2}$ alin), sexrúðu gluggi um 1 dollar. Eg meina hingað flutt.

---

**Úr bréfi frá Nýja Íslandi.**

30. ágúst 1877.

Háttvirti ritstjóri.

Af því eg er orðinn svo á eftir tímanum að rita yður, hefi eg fátt merkilegt af nýjum tíðindum að segja héðan. Því á meðan sóttvörðurinn var, var ekki hægt að komast upp til Manitoba, hvað sem á lá, né heldur bréfi, nema það væri gegnvætt í eitursýru, og eiga það þó undir skafti og blaði, hvert þau kæmust eða ekki, því ef meðalið til þess var ekki við hendina, voru þau send til baka eða jafnvel brend. Þætti mér því ekki ólíklegt, að margir kynnu að sakna bréfa héðan, er skrifuð voru í vetur. Það flaut og af samgönguleysinu, að fjöldi fólks mátti sitja hér verklaust lengst fram á sumar; iðruðust margir þess sáran, að þeir fóru hingað næstliðið haust, því þeir, sem dvöldust þá eftir í Manitoba, höfðu allir vinnu yfir veturinn eða vistir hjá bændum, fengu 8 til 12 dollars um mánuðinn; vinnukonur frá 5—10, og þær sem beztar þóttu bæði í málinu og öðru, frá 12—15 dollars; unglings stúlkur frá 12 til 14 ára, fengu 4 til 6 dollara fyrir mánuð hvern í vetur, er naumast hefðu komist niður meðgjafarlaust í fæðingarsveitum sínum á Íslandi yfir árið. Því þykir þetta munur, einhleypa fólkinu, eða kaupgjald heima. Fatnaður eigi dýrari hér en þar.

Þessi leiði vörður var nú loks hafinn þann 21. næstl. mánaðar, sópaðist þá að kalla alt héraðið af einhleypu fólki, körlum og konum, og sumir bændur fóru líka að útvega sér vinnu; hefir kvenfólkið komist niður í vistir, en karlmenn fengið verk við járnbrautargjörð og kaupavinnu hjá bændum. Þeir, sem heima sitja, annast um sáðreiti eða ganga að heyverkum; þess þarf nú með, því kýr eru á hverju heimili og víða nokkrir gripir, þó þeir séu flestir hjá Jóni bónda frá Gilsárstekk í Breiðdal, því hann hefir nær 20. — Nokkrir eru nú farnir að kaupa sér hænsni, líka væri gott að eiga endur og gæsir við vatnið, sem sumir vilja nú eignast.

Margir hafa verið að smá meiða sig, helzt á skógaröxum sínum, en þó fáir stórlega. Af einum manni var nær

höggvinn vísifingurinn á hægri hendinni, svo stúfurinn lafði einungis við á taug; græddi hr. Jón Jónasson frá Saurbæ í Skagafirði kögglinn við aftur, svo fingurinn verður að mestu jafngóður, og ber litlar menjar áverkans, aðrar en þær, að það er eins og rauðum þræði sé brugðið yfir um fingurinn, eins og fornsögurnar skýra frá um limi, sem áttu að vera græddir á með töfralækningum. Eg segi þetta til dæmis um það, hvað Jón er snjall að græða. Annar maður hjó og af sér vísifingur alveg, og var grætt fyrir stúfinn á mjög stuttum tíma, af sama lækni.

———o———

## SKAPTI ARASON.

### Yfirlit hans yfir tímabilið frá 1850 til 1889.

Eg er fæddur á Hamri í Laxárdal í Þingeyjarsýslu, 10. september 1850. Foreldrar mínir voru Ari Vigfússon, bóndi á Hamri, og kona hans, Guðrún Ásmundsdóttir,



*Skapti Arason og Anna Jóhannsdóttir.*

bónda á Stóruvöllum í Bárðardal, Davíðssonar. Móðir föður míns var Guðrún, dóttir Ara á Skútustöðum við Mývatn; móðir Ara var Jórunn Þorleifsdóttir prófasts í Múla,

Skaptasonar, en móðir Guðrúnar, móður minnar, Guðný Jónsdóttir frá Mýri í Bárðardal; hún var tvígift, hét seinni maður hennar Benedikt Indriðason, sem bjó á Sigríðarstöðum í Ljósavatnsskarði, og voru synir þeirra Ásmundur og Jón, bændur á Stóruvöllum.

Faðir minn dó seint í október 1860. Tveimur eða þremur árum seinna dó elzti bróðir minn, Ásmundur; 28. desember 1865 dó móðir mín. Á næsta vori, 1866, fór Benedikt bróðir minn að búa á Hamri og var eg hjá honum tvö ár, fór svo að Hringveri á Tjörnesi til Guðnýjar systur minnar og manns hennar, Sigurbjörns Jóhannessonar frá Laxamýri; hjá þeim var eg þar til eg fór til Vesturheims þjóðhátíðarárið 1874.

Það var um 1870 að einstöku menn fóru að tínast vestur um haf frá Íslandi. En ekki gat heitið að útflutningar byrjuðu fyrir alvöru fyr en 1873; það ár kom skip frá Englandi til að sækja fólk og hesta. Með hestana var farið til Englands, en fólkið fór til Canada og Bandaríkjanna. Í þeim hópi man eg eftir þessum: Friðjóni og Árna Friðrikssonum, Ólafi Ólafssyni, Friðbirni Björnssyni, Þorláki Jónssyni, Baldvin Baldvinssyni, Páli Jóhannssyni, Stephání G. Stephanssyni og fleirum. Það ár fóru líka vestur: Sigfús Magnússon, Sigurður Kristófersson, Guðrún systir mín (sem nú er kona Árna Sigvaldasonar bónda í Minnesota) og nokkrir fleiri; fóru hinir síðarnefndu á kaupförum frá Íslandi.

Árið 1874 sendi Allan línan-skip til Íslands, sem flutti fólk beina leið frá Íslandi til Quebec. Í þeirri ferð voru 360 manns, eða lítið eitt yfir þá tölu, þar á meðal þessir: Brynjólfur Brynjólfsson, Samson og Friðrik Bjarnasynir, Þorlákur Björnsson, Þorsteinn Jónsson, Magnús Jónsson (allir nú í Dakota) Frímann B. Anderson, Árni Jónsson (nú prestur á Skútustöðum við Mývatn), Benedikt Einarsson læknir í Chicago og Guðmundur Ólafsson (nú í Winnipeg), Björn Árnason (hann varð landnemi í Dakota, er nú í Winnipeg), Jóhannes og Guðlaugur Magnússynir, Sigurður Sigurbjörnsson, Jóhann Straumfjörð, Jónas Jónasson, Jónas Stefánsson, Benedikt Arason, Jóhann Jónsson (allir nú í Nýja Íslandi), Björn Sigvaldason, Guðmundur Norðmann, Bæring Hallgrímsson, Kristján Jónsson, Skapti Arason (allir nú í Argyle), Guðmundur Jónsson (verzlunarmaður í Winnipeg) og Sigríður systir hans, Guðfinna systir mín (kona Hjálmars Bergmanns í Chicago), Guðný

systir mín og Sigurbjörn Jóhannesson maður hennar (hann dó í Nýja Íslandi 22. janúar 1877).

Fólk þetta fór alt til Toronto; þar settust að allar einhleypar stúlkur, en nokkrir einhleypir karlmenn fóru í vinnu út um fylkið; flest fólkið fór þó norður í Victoriuhéraðið og settist að í fjórum húsum, er bygð voru eða hrofað upp handa þeim meðfram járnbraut, sem verið var að leggja skamt frá þorpinu Kinmount. Hraustir menn allir fengu strax vinnu við járnbrautina og var kaupið einn dollar á dag. Lífið þótti alt annað en gott í húsum þessum; þau voru auðvitað of lítil fyrir slíkan fólksfjölda; en hitt var ekki betra, að fólkið kunni ekki að hagnýta sér þau efni, er það hafði til að lifa á. Veikindi urðu því mikil og mörg börn dóu.

Sigtryggur Jónasson, sem búinn var að vera í Canada tvö ár, var sendur af stjórninni í Ontario á móti okkur til Quebec, til að vera túlkur okkar. Hann var því með okkur til Toronto. Þangað komum við 25. september, eftir nálega 20 daga ferð frá Akureyri; fórum þaðan aftur eftir fárra daga dvöl, til Kinmount; þar setti Sigtryggur upp dálitla verzlun, og nokkru síðar kom Friðjón Friðriksson þangað og vann við verzlunina.

Í grend við Kinmount var talsvert af ónumdu heimilisréttarlandi; nokkrir af okkur skoðuðum mikinn part af því um haustið og þegar snjóa leysti um vorið, en leizt ekki vel á; það var alt þakið hrikalegum skógi og jarðvegurinn grýttur og hrjóstugur víðast hvar.

Þegar fram á veturinn kom, var hætt að vinna á brautinni; þá fór sumt af fólkinu að dreifa sér út um fylkið, og um vorið fluttu nokkrir austur til Nýja Skotlands fyrir fortölur Jóhannesar Arngrímssonar. Þeir námu þar lönd, en yfirgáfu þau aftur og fóru seinna vestur til Manitoba og Dakota. Um vorið bauð Canadastjórn okkur, sem eftir vorum í Kinmount, fyrir milligöngu Sigtryggs og canadisks manns, John Taylors, að senda hinn síðarnefnda og tvo Íslendinga, er við kysum úr okkar flokki, til Manitoba, til að vita, hvort okkur litist þar betur á en í Ontario. Þessu var tekið þakksamlega. Við kusum til ferðarinnar þá Sigtrygg Jónasson og Einar Jónasson. Þeir lögðu af stað 2. júlí 1875. Um sömu mundir lögðum við Kristján Jónsson frá Héðinshöfða af stað áleiðis til Manitoba. Við fórum til Toronto og dvöldum þar í 1½ dag. Þar fann eg Guðfinnu systur mína og nokkra landa. Þaðan fórum við

til Milwaukee, dvöldum þar fáa daga, hjá Guðrúnu systur minni, og fundum nokkuð marga landa. Þar slóst í förina með okkur til Manitoba Sigurður Kristófersson frá Neslöndum við Mývatn. Við fórum með járnbraut til St. Paul og þaðan til Duluth, svo vestur yfir Minnesota til Moorhead. Þar mættum við sendimönnunum Taylor, Sigtryggi og Einari. Þaðan fórum við með gufubát eftir Rauðá til Winnipeg, komum þangað á föstudag 16. júlí. Útlitið var þá heldur ískyggilegt í Manitoba, að því leyti, að engisprettur höfðu hafst þar við í fylkinu nokkur ár, mig minnir sjö ár; í kring um bæinn höfðu þær etið allan jarðargróða, sem sáð hafði verið um vorið, og líka grasið á sléttunum; en þegar vestur í landið kom nokkrar mílur frá bænum, höfðu bændur fengið talsverða uppskeru.

Það mun óhætt að fullyrða, að við vorum hinir fyrstu Íslendingar, sem stigum fæti á jörð í Manitoba. Tveimur til þremur árum áður hafði Winnipegbær verið lítið þorp, en hafði síðan stækkað talsvert. Hvergi var járnbraut til í fylkinu, en verið að leggja Canada Kyrrahafs brautina á milli stórvatnanna og Selkirk.

Í Winnipeg fórum við að grenslast eftir hvar líklegast mundi að horfa eftir aðsetursstað fyrir okkar fólk. Okkur þótti ekki álitlegt að fara langt vestur í land; nálægt var ekki hægt að fá stóran landfláka, sem hægt væri að stofna á nýlendu eingöngu fyrir Íslendinga, sem voru svo fátækir, að engin ráð höfðu til að eignast vinnudýr eða verkfæri til jarðyrkju eða búskapar, og kunnu þar að auk ekkert til þesskonar starfa. Okkur kom því saman um, að skoða vesturströnd Winnipegvatns; okkur var sagt, að í vatninu væri ógrynni af mörgum og góðum fiskitegundum, og landið væri gott. Við lögðum því af stað á stórum opnum báti, með þrjá fylgdarmenn, fórum ofan Rauðá og norður með vesturströndinni alt til Whitemud River, sem nú nefnist Íslendingafljót. Landið var skógivaxið, með stórum grasflákum víða innan um skóginn og meðfram vatninu; skógurinn var víðast hvar smár, og okkur virtist mjög fljótlegt að ryðja honum af landinu í samanburði við skóginn í Ontario; jarðvegur virtist okkur frjór, land slétt og lágt, en þó alt þurt. Með tilliti til landkosta og veiðiskapar hugðum við, að varla myndi að finna hentugra pláss fyrir okkar fólk, í þeim kringumstæðum sem það var. Við hurfum því til baka aftur til Winnipeg, með sannfæringu

um, að við gjörðum rétt í því að ráða fólki okkar til að flytja á þessar stöðvar.

Frá Winnipeg fóru sendimennirnir aftur austur til Ontario; við hinir þrír urðum eftir og fórum að vinna við C.P.R. brautina í Austur-Selkirk. Þar unnum við til þess um miðjan október að fólk okkar, nokkuð yfir 250 manns, kom frá Ontario til Winnipeg. Í Duluth bættust við hópinn nokkrir landar, sem komu frá Milwaukee. Frá Ontario held eg fólkið hafi fengið frían flutning til Winnipeg. Nálega hver maður var eignalaus áður en lagt var af stað frá Ontario.

Eftir fárra daga dvöl í Winnipeg, var lagt af stað til fyrirheitna landsins á flekum, sex ferköntuðum kössum með súðþaki, voru þrír og þrír tengslaðir saman, og svo látnir berast fyrir straumi ofan Rauðá. Auk fólks og farangurs höfðum við meðferðis mikið af matvöru, sem John Taylor keypti fyrir peninga, er Canadastjórn lagði honum til, fólkinu til hjálpar yfir veturinn. Ferðin gekk allvel ofan ána, þar til kom ofan að strengjunum (grynningum í Rauðá milli Winnipeg og Selkirk). Þar festist önnur fleka-trássan. Eftir mikla fyrirhöfn varð hún þó losuð, án þess stórkostlegar skemdir yrðu á farangri, og slysfarir á fólki urðu engar. Eftir það gekk allvel, þó seint færi. Ofurlítið var flýtt ferðinni með því að hafa tog í land og menn til að draga; líka var reynt að hjálpa ferðinni áfram með því að róa flekunum með árum til þess gjörðum.

Þegar komið var ofan undir vatnið, fengum við gufubát, sem Hudsonsflóafélagið átti, til að draga flekana norður undir Víðirnes; svo gátum við sjálfir komið þeim inn á höfnina að kvöldi dags síðasta sumardag.

Frá því við fórum frá Winnipeg, hafði verið blíðalogn og hlýindi. Á laugardag, þann fyrsta í vetri, var norðan kulda stormur og á sunnudaginn var komið snjóföl og veturinn genginn í garð.

Það er líklegt, undir kringumstæðunum, að við hefðum orðið að sæta hörðum kjörum í Rauðárósum, ef að gufubáturinn hefði ekki hjálpað. Það vildi til af hendingu, að við fengum hjálp hans.

Þegar nú var hingað komið, var ekki um annað að gera, en búa um sig til vetursetu. Þarna á sandrifinu, Víðirnestanganum, þótti ekki álitlegt að setjast að; við færðum okkur því norður með vatninu, nálægt því tvær mílur, og fluttum þangað á stórum bát, er við komum með. Þar

var unnið af kappi að því að koma upp kofum til að hafast við í um veturinn. Kvikfénað þurfti ekki að byggja yfir, af því tagi var ekki til nema einn hundhvolpur, sem mér var gefinn í Winnipeg. Þegar allir voru búnir að koma upp kofum, Friðjón Friðriksson búinn að setja upp ofurlitla verzlunarbúð og stjórnarumboðsmaðurinn, John Taylor, búinn að koma upp nokkuð stóru íbúðarhúsi úr tvöföldum bjálkum og fylla upp með mold á milli, fanst okkur að þarna vera orðið nokkuð staðarlegt. Það voru því kosnir fimm menn í bæjarstjórn og bænum gefið nafnið Gimli.

Fiskafli var góður, þegar við komum, en netja útvegur var mjög lítill, enda ekki hægt að stunda veiði fyrir ís, því vatnið fór að frjósa; en eftir að vatnið lagði, var afli mjög lítill; t. d. fengum við Sigurður Kristófersson í fjögur net 60 fiska alls í desembermánuði; í janúar, febrúar og marz varð varla fiskivart. Veturinn var kaldur og snjómikill. Um 20. marz fór að lina frostið, en snjór lá á jörðu alt fram að 20. apríl.

Um lok desembermánaðar hefi eg skrifað það sem hér fer á eftir: "Flestir eru búnir að taka land, en að eins fjórir búnir að byggja á löndum sínum. Söluverð á vörum þeim, er við komum með, er: hveitimjöls sekkur (96 pd.) $3.75; kartöflur, meðan til voru, 90 cent bushelið; saltað flesk 16 cent pundið, reykt 18 cent; flatbaunir 7 cent pd., salt 3 cent pd, edik 40 cent potturinn, steinolía 60 cent gallonið; lítið er til af öðru. Þess má geta, að fáir höfðu peninga til að kaupa fyrir; flestum var útbýtt því, er til var, sem stjórnarláni."

Í lok janúarmán. hefi eg skrifað þetta: "Menn alment að byggja á löndum sínum, út og suður með vatninu; vörubyrgðir eru litlar: tóbak og te, og lítið eitt af fleski og kæfu; flutt hefir verið til okkar frá Winnipeg lítið eitt af hveitimjöli, alt á 4½ cent pundið, og ertur 4 cent pundið, og hveitikorn 4 cent pundið. Það er malað í stórum kaffimylnum og svo brúkað til brauðs." — Svo hefi eg skrifað seint í marz, þetta: "Komið að Gimli: hveitimjöl, flesk og sykur, lítið eitt af skóm, smá áhöld: rekur, jarðhófar og fleira." — Svo síðast í apríl: "Þennan mánuð hefir mjög lítið verið flutt að, vegna ófærra vega. Við lifum nú á fiski og litlu af baunum og hveitikorni, sem ætlað var til útsæðis; hveitimjöl fór upp í 7 dollara sekkurinn í Winnipeg." — Enn seinna hefi eg skrifað: "Um 20. maí leysti ís af vatninu, 28. kom gufubátur inn á Víðineshöfnina með

kartöflur og hveiti. Margt af fólki hefir meira og minna veikst af skyrbjúg og margir dáið, og mörgum batnaði ekki fyr en þeir fengu mjólk. Seint í maí voru keyptar 2 kýr. Guðmundur Ólafsson og Jón Guttormsson keyptu þær."

Um miðjan júní komu 20 kýr með kálfum til nýlendunnar; þrjár þeirra tilheyrðu John Taylor, fjórar mér og systkinum mínum, ein Sigurði Kristóferssyni; hinar 12 skiftust í milli fjölskyldufólks, sem enga kú höfðu; tvær til þrjár fjölskyldur voru um eina kú. Heita mátti uppburður af fiski frá því um 20. apríl og fram eftir sumri.

Seinni part ágústmánaðar komu til nýlendunnar um 1200 manns að heiman; fólk það kom með töluvert af gripum: kúm og kálfum. Það dreifðist um alla nýlenduna, frá Merkilæk (Boundary Creek) að sunnan og alt norður að Íslendingafljóti og út í Mikley. — Sumar þetta (1876) var rigningasamt, svo heyskapur gekk heldur illa; flugur voru ákaflega vondar í skógnum, svo að skepnur voru fremur gagnslitlar; samgöngur engar á landi, allar eftir vatninu á smábyttu-nefnum, er reknar voru saman úr borðviðnum, sem var í kössunum er við fluttum okkur á frá Winnipeg. En til vöruflutninga milli Winnipeg og nýlendunnar var brúkaður báturinn, sem eg hefi getið um að við komum með. Innflytjendurnir, sem komu um sumarið 1876, fluttu sig sjálfir frá Winnipeg á döllum, er til þess voru smíðaðir og róið var með tveimur eða fjórum árum. Ferðirnar á þeim döllum hepnuðust svo undrunarlega vel, að ekki urðu nein slys á þeim ferðum, þó skipin væru ekki góð. — Um haustið og veturinn var höggvinn og ruddur vegur eftir endilangri nýlendunni, sem vel gat dugað fyrir vetrarveg, en fyrir sumarið var lítið gagn að honum.

Síðla á haustinu 1876 kom upp bóluveiki. Henni var fyrst lítill gaumur gefinn, svo hún fékk gott tækifæri til að útbreiðast, áður en alvarlega var farið að gefa henni gaum. En þegar kunnugt varð hvaða veiki þetta var, voru læknar sendir til nýlendunnar, og vörður settur sunnan við hana til að varna útbreiðslu veikinnar út úr nýlendunni. Vörðurinn stóð þar til 21. júlí næsta sumar (1877). Veikin var að mestu leyti um garð gengin um janúarmánaðarlok, samt varð hennar vart í marzmánuði. Úr bólunni dó yfir 100 manns, og auk þess dóu nokkrir af öðrum sjúkdómum, sem eðlilegt var, þar sem húsakynni voru léleg og allur aðbúnaður. Nokkrir veiktust líka af skyrbjúg þennan vetur (1876—77). Það hjálpaði mikið til að halda líf-

lífinu í þessum vesalings fjölda, fiskurinn úr vatninu og skógurinn, sem var við hendina til eldsneytis og bygginga og þar að auki skýldi fyrir Manitoba vetrar nístandi næðingunum.

Meðan vörðurinn stóð, voru vörur fluttar frá Winnipeg að honum, en frá honum og um nýlenduna fluttu nýlendumenn þær sjálfir, sumt á uxasleðum, en sumt drógu menn sjálfir. Að mestu leyti var lifað á stjórnarláni, meiri partinn af öðru árinu, sem við vorum í nýlendunni. Uppskera okkar þar fyrsta sumarið (1876) var nærri engin; við sáðum kartöflum, rótarávöxtum og baunum; við kunnum ekki að búa jörðina undir sáningu eins og þurfti í þessu landi. Fiskafli var góður um haustið, en atvinna var heldur lítil í fylkinu um sumarið.

Í júlí 1877 kom séra Jón Bjarnason til nýlendunnar snöggva ferð sunnan úr Bandaríkjum. Hann messaði á Gimli 19. júlí, gifti þar nokkra, og svo var haldinn fundur eftir messu. Næsta haust flutti séra Jón til nýlendunnar og gjörðist prestur okkar. 14. september sama ár heimsótti okkur nýlendubúa Dufferin lávarður, landstjóri í Canada; hann var okkur kunnur af orðspori síðan hann ferðaðist um Ísland 1856, og fyrir hans meðmæli var það, að stjórnin tók okkur á arma sína og hjálpaði svo skörulega. Canadamenn vissu ekki, hvort mannsefni væri í þessum bláfátæka þjóðflokki; Dufferin lávarður sagði þeim, að svo mundi vera.

Sumarið 1877 var ágætlega gott, þó rigndi heldur mikið í Nýja Íslandi. Uppskera af því litla, sem við höfðum sáð, var heldur góð og heyskapur góður. Þau fyrstu vinnudýr, sem til nýlendunnar komu, voru tveir uxar fjögra vetra gamlir (lítið tamdir), sem eg keypti í júlí 1876; eftir það, snemma næsta vetur, voru keyptir 6 uxar fyrir stjórnarpeninga og síðar um veturinn 6, og stöku uxa keyptu einstöku menn; en lengi var það, að fjöldi af mönnum varð að bera og draga á sjálfum sér hey, við og hvað eina, er þeir þurftu að ná að sér; þeir, sem bjuggu uppi í landi, urðu að bera blautan fiskafla sinn heim á bakinu. — Í júlí 1877 sendi stjórnin til nýlendunnar 230 kýr.

Sumurin 1878—79—80 voru ákaflega votviðrasöm; landið var svo blautt, að ófært mátti heita að fara um það; flugur voru fram úr skarandi vondar, gripir gengu hungraðir, horaðir og gagnslausir; árið 1880 stóð vatnið svo hátt, að það flæddi upp á engjar, sem meðfram því lágu;

heyskapur gekk mjög illa, því uppi í landinu var engi blautt líka af rigningunum. Um haustið gekk vatnið svo hátt, að heystakkar stórskemdust og jafnvel eyðilögðust hjá sumum, sem áttu hey sitt nálægt vatninu. Mönnum fór ekki að lítast þesslega á, að framfarir yrðu fljótar á þessum stöðum, og með því líka að menn voru búnir að eignast talsverðan gripastofn og þár á meðal nokkuð af akneytum, hugðu menn að betur mundi ganga annars staðar. Þetta ár (1880) fóru allmargir að flýtja burtu úr nýlendunni; flestir þeirra fóru til Dakota og Winnipeg. Til Dakota byrjuðu menn að flytja 1878. En síðla í júlímánuði 1880 fór eg fyrir tilmæli John Taylors vestur að Shoal Lake til að skoða land þar umhverfis. Ef mér litist vel á land þar, var hugmynd okkar að fara þangað strax til að heyja, og flytja svo þangað næsta vetur; en þar eð mér leizt ekki á land þar, varð ekkert af þeirri fyrirætlan.

25. september sama ár (1880) fór eg og William Taylor, bróðir John Taylors, til Winnipeg og þaðan til Pilot Mound til kunningja okkar, Everett Parson. Hann hafði verið vinnumaður hjá John Taylor, og kom með honum frá Ontario. Áður en við komum til E. P. hafði hann fylgt Sigurði Kristóferssyni og Kristjáni Jónssyn í landaskoðun, og höfðu þeir numið land í Township 6, R. 14 W. E. P. fór með okkur Taylor og föður sinn og bróður á sömu stöðvar. Við námum allir land. Landskrifstofa var vestur hjá Souris fljóti, þangað ók E. P. með okkur og svo heim til sín aftur. Á svæði því, er við fórum um, var sumstaðar nýbýlingahús á stangli, en sumstaðar ekkert; og bændur þeir, er við heimsóttum, voru ekki betur staddir en það, að við gátum ekki fengið keypt kjöt eða brauð, svo kartöflur voru það eina, er við höfðum til matar, eftir að uppetið var það, sem við höfðum tekið með okkur af mat frá E. P. Þegar við komum til hans, voru þar komnir Friðbjörn Friðriksson og Halldór Árnason. Þeir ætluðu að fá E. P. til að fylgja sér í landaskoðun, en vegna heimiliskringumstæða gat hann ekki farið með þeim, svo eg fór með þeim. Við fórum gangandi, með mat og ábreiður og alt, sem við höfðum meðferðis, á bakinu. Þeir námu land í sama Township og við. Við völdum lönd líka fyrir nokkra aðra. Eftir að það var gjört, gengum við til Winnipeg, eins beint og við gátum komist. Eg kom heim úr þessari ferð 13. nóvember. Þann 15. s. m. var norðanveður mikið og brim, svo vatnið flæddi langt upp á land, og sumstaðar

varð fólk að flýja úr húsum sínum. Vatnið gekk yfir heystakka mína, svo eg varð að koma sumum gripum mínum niður til fóðurs, en það, sem heima var, fóðraði eg á frosnu heyi, sem eg barði upp úr stökkunum.

Þegar hér er komið sögunni, eru liðin fimm ár síðan þeir fyrstu fluttu til nýlendunnar. Auk þess sem menn hafa aflað sér lífsviðurværis, hafa verið bygð mörg viðunanleg íbúðarhús; gripahús líka betri en fyrst voru, rutt talsvert land og girt inn fyrir engi og sáðlönd; líka bygð allmörg bænahús og komið á fót blaði (Framfara). Þeir Sigtryggur Jónasson og Friðjón og Árni Friðrikssynir hafa eignast gufubát, og eru að búa sig undir að "taka út" sögunarvið og setja upp söguñarmylnu við Íslendingafljót 1881.

Trúmáladeilum, sem staðið hafa yfir um tíma, er nú lokið. Séra Páll Þorláksson er kominn til Dakota, en séra Jón Bjarnason til Íslands. Séra Halldór Briem er nú eini presturinn í nýlendunni.

Friðjón Friðriksson hefir gott íbúðarhús og sölubúð á Gimli; auk hans verzlunar eru ein eða tvær smáverzlanir í nýlendunni.

Þann 15. marz 1881 lagði eg af stað alfarinn frá Nýja Íslandi, með konu og tvö börn, annað á þriðja ári en hitt á fyrsta; eg hafði þrjá vinnu-uxa og eitt hross (pony) fyrir fjórum sleðum; á einum sleðanum var hús úr borðviði, einfalt, 6 fet á breidd en 10 á lengd; það var íbúðarhúsið á leiðinni og þar til í júlímánuði á landi mínu; auk þessa hafði eg 10 nautgripi. Í förinni með mér var Guðmundur Norðmann með tvo uxa og tvo sleða (þá var iðulega einn gripur hafður fyrir hverjum sleða hér í Manitoba), Sigurður Kristófersson með tvo uxa og tvo sleða, og Skúli Árnason með tvo uxa og tvo sleða, fáa gripi og konu og fjögur börn. Sigurður hafði líka nokkuð marga gripi. Einn sleðann höfðum við til að flytja á hey, keyptum það þar sem það var að fá, en þar sem það ekki var að fá, hlutum við að vera án þess. Þrjár nætur á leiðinni höfðum við ekkert til að næra skepnurnar, stundum lítið, en oft nóg. Við fórum til Winnipeg og þaðan til Portage la Prairie, og svo áfram suðvestur, og eftir 17 daga ferð komum við 31. marz til okkar nýju nýlendu, að austurendanum á núverandi bygð Íslendinga í Argyle. Síðasta daginn kom snarpur hríðarbylur, en birti þó upp, þegar leið á daginn, með brunastormi. Uxarnir sumir voru orðnir uppgefnir, svo við urðum að létta á þeim og skilja eftir nokkuð af far-

angri okkar. Um nóttina þessa síðustu í ferð okkar, gistum við í skógarbelti skamt frá löndum þeirra bræðra, Skúla og Guðmundar. Skepnum okkar leið ekki vel, kuldinn var mikill en næringu var enga að fá. Um morguninn var orðinn dauðvona vetrungur, sem eg átti; hann drapst skömmu síðar. Næsta dag (1. apríl) komumst við þangað er hey það var, er Sigurður Kristófersson hafði "sett upp" um sumarið. Þar skamt frá bjuggu tveir Englendingar í kofa, sem þeir höfðu bygt um haustið. En hjá þeim var ekki hægt að fá húsaskjól, né aðra aðhlynningu. Við Sigurður héldum til nálægt þeim þar til um miðjan mánuðinn; tíðin var köld en snjóaði ekki mikið. Á þeim tíma fluttum við dálítið af við á lönd okkar og hey. 15. apríl, á föstudaginn langa, skildum við, og fór hver á sitt land. Þann dag var blítt veður og leysing mikil; fáum dögum síðar var allur snjór horfinn.

Frá mér til Sigurðar voru rúmar þrjár mílur, til Englendinganna lítið lengra, til Skúla um 6 mílur, og til annara mannabygða talsvert lengra. Til verzlunar, ef verzlunarstað skyldi kalla, voru um 20 mílur; þar var járnsmiður og þangað varð maður að fara, ef eitthvað þurfti að gera fyrir mann í smiðju; þar var líka hinn næsti póstafgreiðslustaður.

Hér var eg þá kominn á þessa eyðimörk, með konu og tvö ung börn, og fáeina dauðvona gripi, rúm 100 pund af mjöli og lítið eða ekkert annað af matbjörg, 3 dollara í peningum, áhöld til jarðyrkju eða búskapar engin, nema sleða ræflana, sem eg kom á og höfðu verið heimatilbúnir, og einn plógræfil.

Skömmu eftir að eg settist að, bar kýr, og þó hún væri dauðlega horuð, gerði hún talsvert betur en fæða kálfinn. Þegar mjölið var þrotið, lagði eg af stað til Millford, en svo hét næsti verzlunarstaðurinn við Souris-ána. Þegar þangað kom, var þar ekki mjöl eða annað matarkyns að fá. Gufubátar munu ekki hafa verið byrjaðir svo snemma vors að ganga eftir Assiniboine ánni; með þeim voru vörur fluttar til Millford; á leiðinni heim fékk eg þó hjá bónda 50 pund af mjöli; það kostaði $2.50.

Um sumarið bættust fáeinar íslenzkar fjölskyldur við í bygðina, og annara þjóða menn fóru líka að byggja, svo um haustið sá eg nokkur hús frá heimili mínu, þó lítið styttust leiðir til næstu nábúa. Tíminn leið tilbreytingalítið, okkur leið bærilega, við liðum aldrei hungur; alt, sem

kaupa þurfti, var afar dýrt, t. d. kaffipund 40 cent, rúsínur 25 cent pd., púðursykur 8 pund fyrir dollar, svínakjötssíður 18 cent pundið. En svo var vel borgað fyrir það, sem bóndi hafði að selja. Verkalaun voru há: fyrir að brjóta ekruna $3.50 til $5.00. — Næsta vor (1882) gat eg af mínum eigin efnum keypt útsæði í 18 ekrur, sem eg hafði búið undir yrkingu. Gripir höfðu ofurlítið fjölgað og voru í bezta standi, og kýr gjörðu gott gagn.

Seinnipart vetrarins 1882 fór fólkið að tínast inn til að reisa sér bygðir og bú; þó ekki væru höfðinglegar viðtökurnar hjá okkur, gjörðum við það litla, sem við gátum, fyrir þá, í að skjóta skjóli yfir fólk og gripi; í mínum litla íbúðarkofa, sem var 13 feta langur og 11 feta breiður, loftlaus, voru t.d. eina nótt 28 manns; svo voru fjós viðlíka vel skipuð sumar nætur, og til vildi það, að maður varð að láta út sína gripi til að geta hýst hesta eða akneyti ferðamanna, þó vont væri veður.

Þegar við fórum að hafa hveiti til að selja, urðum við að flytja það um 40 mílur til markaðar. Þær ferðir gengu heldur seint með uxum, eins og flestir höfðu. Eg eignaðist þó par af hestum í marzmánuði 1883; það kostaði 450 dollara; þau hross veiktust og drápust bæði árið 1886 ásamt þriðja hrossi, sem eg keypti það ár.

Fyrir miklum skaða hefi eg stundum orðið af eldi, mist til dauðs í hann búpening og verkfæri og fleira brunnið.

Sumarið 1886 var bygð járnbraut til Glenboro, þá var landið að mestu leyti upptekið og allþétt bygð; eg gat þá séð og talið undir eða um 200 bændabýli frá mínu heimili. Barnaskólar voru líka komnir upp allvíða um bygðina. Árið 1889 komum við upp kirkju Íslendingar, og þá um sumarið var fimta ársþing kirkjufélagsins haldið hjá okkur. Framfarir í bygðinni jukust árlega."

Skapti Arason kvæntist í Kjalvík í Nýja Íslandi 20. júlí 1877, Önnu Jóhannsdóttur bónda á Ísólfsstöðum á Tjörnesi og konu hans, Guðrúnar Þórðardóttur bónda í Hvammi undir Eyjafjöllum, og konu hans Guðrúnar Grímsdóttur. Anna var fædd 28. október 1849. Börn Skapta og hennar: 1. Tryggvi, bóndi að Cypress River, kvæntur Ólöfu Sigurgeirsdóttur Þórðarsonar. Hann fæddist í Kjalvík 27. apr. 1878. 2. Guðrún, fædd í Kjalvík 20. maí 1880, er kona P. G. Magnúss, verzlunarmanns í Glenboro. 3. Óli, bóndi að Glenboro, kvæntur Olgu Olgeirsdóttur Friðrikssonar; Óli er fæddur 1882, var fyrsta íslenzkt barn, sem fæddist í Ar-

gyle-bygð. 4. Hermann, fæddur 1. febrúar 1884. látinn 2. febrúar 1920. 5. Ágúst, býr að Gleneboro, kvæntur Áróru Olgeirsdóttur Friðrikssonar, fæddur 1886. 6. Guðný, kona Jóns Baldwins, fasteignasala í Glenboro, fædd 1888.

Skapti Arason andaðist 24. júní 1903, hafði þá búið í Argyle 22 ár. Hann var mjög merkur maður, hygginn vel í öllum fyrirtækjum, var góður búmaður og átti líka blómlegt bú þegar hann lézt, var sjálfstæður og athugull í skoðunum sínum. Hann, sem einn af elztu og merkustu landnámsmönnum, fyrst í Nýja Íslandi og svo í Argyle, reisti sér minnisvarða með miklu og góðu starfi á æfi sinni.

---

## Saga Magnúsar Stefánssonar frá Fjöllum í Kelduhverfi, eftir hans eigin handriti.

Eg er fæddur á Fjöllum í Kelduhverfi 1. desember 1853. Faðir minn var Stefán Ólafsson Gottskálkssonar, og var Ólafur bróðir Erlendar í Garði í sömu sveit. Stefán faðir minn var bróðir Ólafs Ólafssonar á Espihóli. Móðir mín var Anna Guðmundsdóttir, Sveinssonar frá Hallbjarnarstöðum á Tjörnesi. Eg átti fjögur systkini; tvö dóu ung; Ólafur Tryggvi bróðir minn dó í Nýja Íslandi haustið 1877, en það fjórða, systir, sem Guðbjörg heitir, er kona Gunnars Pálssonar á Sauðárkróki í Skagafirði.

Móðir mín dó þegar eg var átta ára, og var eg með föður mínum þar til hann dó. Hann var vinnumaður, fyrst hjá Erlendi í Garði, svo hjá Ólafi bróður sínum og seinast hjá séra Hjörleifi á Tjörn; þar dó hann. Eftir lát hans var eg á Kjarna hjá Páli Magnússyni, þar til eg fór til Ameríku árið 1873, með barkskipinu "Emma" (seglskipi) frá Akureyri, seint í ágústmánuði. Við vorum fjórtán, sem urðum eftir af skipinu "Queen", er fór 4. ágúst með vesturfara frá Akureyri. — Við komum til Hull á Englandi seint í september, fórum þaðan til Liverpool á leið til Quebec, hvar við lentum 6. október.

Eg fór til Rosseau í Muskoka, Ontario; hugði að finna þar Ólaf föðurbróður minn, sem siglt hafði frá Akureyri með "Queen". En þá var hann kominn til Milwaukee. — Í Muskoka var eg um veturinn, fékk þar vinnu við matreiðslu á timburvinnustöð (lumber camp). Um vorið fór eg til Milwaukee og var þar eitt og hálft ár, fór svo til Nýja Íslands haustið 1875; þar var eg til vorsins 1878.

Mér eru í minni mörg æfintýri er eg lenti í í N. Íslandi og yrði það of langt mál, að skrifa um þau öll. Eg var túlkur bóluveturinn, kom inn í hvert hús í öllu Nýja Íslandi og sá margt hryllilegt, er fólkið leið, en sem eg reyni ekki að lýsa. Menn, sem ekki sáu það eymdarástand, hafa ekki hugmynd um, hvernig það var. Eftir því sem mér var unt, reyndi eg að hjálpa fólkinu í neyð þess.

Eitt sinn, bóluveturinn, fór eg með Dr. Baldwin austur yfir vatn til Sandy River. Keyrðum við á hundasleða og var John Ramsay, Indíaninn alkunni, fylgdarmaður okkar. Við Sandy River var stórt þorp, bæði tjöld og hús. Ekki var



*Elisabet Anderson, Elisabet Robinson, Erlingur Bergmann og Amy Halldórsson.*

þar nokkur manneskja lifandi, um 200 dáið. Við kveiktum í öllu, og brann það til kaldra kola; sennilegt er, að einhverjar menjar sjáist enn af því sem eldurinn ekki brendi til ösku. Þar brann meðal annars mikið af skinna vöru (furs) af öllum tegundum tilheyrandi Hudsonsflóafélaginu, sem það var ekki búið að fyltja burtu áður en bólan kom.

Á leiðinni heim skall á sá versti hríðarbylur, sem eg hefi verið úti í. Ramsay kom hundunum ekkert, svo við máttum til að halda undan veðrinu. En svo komum við

að sprungu í ísnum, sem var um þrjú til fjögur fet á hæð; þar var gott skjól, og Ramsay sagðist lifa eða deyja þar til þess birti. Við hlúðum að lækninum sem hvítvoðungi, eftir því sem efni leyfðu, og sögðum honum að lesa bænir sínar, en vorum sjálfir á stjái þar til birti upp. Eftir 8—10 klukkutíma náðum við seint um kvöld til Mikleyjar, til Sigurðar á Borðeyri.

Einn dag, þegar eg var á Dvergasteini hjá Jóni Bergmann, sem seinna varð tengdafaðir minn, kom John Taylor þangað og segir við mig: "Fólkið þarf að fá fisk, eða það deyr.. Það er hvítfiskur langt norður á vatni, Indíánar segja mér það. Þú verður að fara. Eg hefi engan til að senda, nema þig." — Eg lofaði karli að fara eftir tvo eða þrjá daga. Eg hafði náð mér í þrjá duglega hunda, og Jón Bergmann smíðaði sleða, 10 feta langan og 2½ fet á breidd. Eg fékk þrjá menn til að fara með mér, og svo lögðum við af stað norður. Þetta var seint í nóvember 1877. Höfðum við fimm hunda, tvo sleða, skinntjald, te hveitimjöl og kæfu (pemikan); við héldum áfram norður í tvo daga, lögðum net að kvöldi og bjuggum um okkur til næturhvíldar. Um morguninn í dögun fórum við að vitja um, og fengum 12 hvítfiska. Þá var glatt á hjalla yfir veiðinni. Svo bjuggum við um okkur þarna sem bezt við gátum; urðum matarlausir eftir viku og lifðum á fiski í tvær vikur. Til baka komum við á jóladaginn með 600 fiska. Þá var Taylor búinn að fá menn til að leita að okkur, allir töldu okkur frá. Frosnir vorum við á andliti, og einn okkar varð eftir; hann treysti sér ekki heim. Svo lögðu menn af stað norður til fiskiveiða, svo fólk fór að fá nógan fisk. Beztur var aflinn hjá Hverfisteinsnesi (Big Grindstone Point.)

**8 Landkönnunarferð í Norður Dakota.**

Það var um veturinn 1878, að nokkrir menn komu saman á Dvergasteini til að ráðfæra sig við séra Pál Þorláksson, sem þar var til heimilis, hvert menn ættu að fara til að fá betra land en væri í Nýja Íslandi, og var það afráðið, að eg og Sigurður Jósúa Björnsson færum með séra Páli til Minnesota, þar væri hægt að fá land.

Á laugardaginn fyrstan í sumri (27. apríl) lögðum við af stað og tókum okkur far með gufubátnum "Lady Ellen" til Winnipeg. Í förinni voru margar stúlkur, sem ætluðu sér að fá vistir í Winnpeg, sem eg tók að mér að útvega þeim þegar þangað kæmi. Ferðin gekk vel til Winnipeg,

og komum við þar snemma á sunnudagsmorgun. Eg setti upp spjald á mánudaginn með auglýsingu: "Vinnukonur fást hér." Alt gekk vel, mátti heita að væri ös hjá mér í þrjá til fjóra daga. Stúlkurnar voru þá allar komnar í vist nema ein. Kemur þá maður að húsinu, sem eg bjó í, og spyr mig: "Hefir þú vinnukonu handa mér?" — "Ein er eftir." — "Get eg fengið hana?" — "Það má vel vera, að við förum með þér." — Þegar til hans kom, leizt okkur vel á alt. Svo gekk eg með manninum inn í bæinn og komum við þar að húsi. Hann stanzar og segir: "Hér er skrifstofa mín, komdu inn; eg heiti Hunter og er ritstjóri 'Winnipeg Standard.' Mig vantar fréttir frá Nýja Íslandi." — Eg sagði honum fréttir, sem gerðu efni í langa grein. — "En hvað ert þú að fara?" spyr hann mig svo.— "Til Minnesota, að taka þar land fyrir alla, sem nú eru í Nýja Íslandi." — "Fara með þá alla þaðan burtu? Viltu gefa mér fáar mínútur til að tala við þig?" — "Já, já." — "Þú ættir ekki að fara til Minnesota, þar er ekkert land, sem eg þekki til, fyrir svo marga, nema norðast, austan við Rauðá, og er það ekkert betra en Nýja Ísland; farðu til Pembina, þar er gott og mikið land." — Eg afréði strax í huganum hvað eg skyldi gera og kvaðst fallast á það, sem hann ráðlegði mér. — "Er það þá víst, að þú farir þangað?" — 'Já, já." — "Bíddu við, eg skrifa með þér tvö bréf; viltu bíða, eða koma á morgun eftir þeim?" — "Eg bíð, því báturinn fer í nótt kl. 2." — "Það er gott", svarar Hunter og skrifar bréfin, annað til N. E. Nelson, hitt til Billy Goodfellow. Þeir voru í fyrri daga þektir af Íslendingum, sem til Pembina komu. — "Nú, ekkert hik á þér," segir Hunter við mig. "Þú ferð til Pembina. Eg sendi þér 'Standard' þangað. Svo kemst eg að því hjá stúlkunni, hvort þú hefir efnt loforð þitt. Þú skrifar henni, eg er viss um það. Vertu nú sæll."

Þegar eg um kvöldið sagði séra Páli og Sigurði Jósúa hvar komið væri, fanst þeim ekki rétt af mér að slíta félagsskap við þá í landskoðunarferðinni til Minnesota, en það varð svo að vera, eg lét ekki undan, og það fór svo að Sigurður fór með mér til Pembina. Við afhentum mönnunum bréfin, þeir tóku okkur vel og töluðu lengi við okkur um hvar hentugast væri land fyrir Íslendinga í Pembina sýslu (County). Komumst við að þeirri niðurstöðu, að það væri fyrir vestan Cavalier, því að fara að taka land úti á sléttunum væri ekki gott fyrir fátækt fólk, en þar sögðu

þeir að væri betra land. Svo lögðum við af stað vestur til Cavalier og óðum elginn nokkuð djúpt víða. John Betchel, sem settist að í Cavalier 1875 og Íslendingum var ávalt góður, tók okkur sem faðir; við höfðum bréf til hans frá Nelson og Billie. Næsta dag flutti hann okkur vestur til Butler Olson, norsks manns, sem nú býr í Morden-bygð í Manitoba. Hann hafði verið hermaður í þrælastríðinu 1861 —65; til Canada flutti hann sig árið 1887.

Hjá Olson héldum við Sigurður til í viku og á þeim tíma ók hann með okkur vestur og suður í land og svo til Pembina. Okkur kom saman um, að þar sem við hefðum skoðað land, væri gott pláss fyrir Íslendinga. Í Pembina mættum við séra Páli, Jóhanni Hallssyni og sonum hans, og Árna Þorlákssyni frá Nýhaga í Gimli-bygð. Réðist það þá af, að við fórum allir til baka með Olson og fengum kynblending, sem Amab Loosehét og bjó þar sem Stígur Þorvaldsson síðar bjó, til að flytja okkur út um landið hringinn í kring. Loose hafði 5 smáhesta (ponies) og tvo litla vagna (Red River Cart). Sumir óku og sumir riðu; vorum við í þeirri ferð fjóra daga, höfðum brauð og smjör frá Olson, en Loose skaut endur og steiktum við þær, og suðum egg. Við fórum suður að Garðar-læk og skoðuðum líka landið í kring um Mountain og Hallson. Eg vildi byrja að taka lönd þar sem Crystal er nú og halda svo vestur með læknum, en fékk því ekki ráðið fyrir hinum. Þar sem Mountain og Hallson eru, leizt þeim bezt á landið, og þar á-nefndu þeir sér lönd. Svo að lokinni landaskoðun var haldið ofan til Pembina og aftur norður til Nýja Íslands að sækja fjölskyldurnar. Upp frá því fór fólkið að koma suður. Landnám Íslendinga í Norður Dakota byrjaði það sumar, árið 1878.

Í Pembina var eg fyrsta veturinn minn í Dakota, vann á gistihúsi fyrir 5 doll. um mánuðinn. Fór í jan. til Winnipeg gangandi, að mæta Jóni Bergmann mági mínum, sem var þá að flytja suður. Hann hafði einn uxa fyrir sleða og þungt æki. Sex daga vorum við frá Winnipeg til Pembina. Snjór var mikill og að öllu leyti vondur vegur; var það ofdirfska af okkur að leggja út í þá ferð. — Margar fleiri harðsóttar ferðir fór eg í Dakota með hægfara ökudýrin (uxa), bæði til Pembina að sækja fólk, og svo til Walhalla nokkrum sinnum, í vegleysu og vondum veðrum, með korn til mölunar fyrir ýmsa, sem ekki gátu borgað manni sökum fátæktar, og var Þorsteinn Þorláksson, bróðir séra Páls

stundum með mér. Getur það sannast á mér sem fleirum: að ef ekkert hefði verið stríðið um æfina, þá hefði enginn verið sigurinn."

Magnús Stephansson nam land í Akra bygð, rúmar þrjár mílur fyrir vestan bæinn Cavalier, skamt fyrir austan þar sem Butler Olson norski bjó, sá er áður var nefndur. Svo flutti Magnús eftir fá ár lengra suður í Íslendingabygðina, var tvö ár póstafgreiðslumaður á Mountain (1886 til 1888). Í Cavalier vann hann við harðvöruverzlun árin 1891—92, var þar lögregluþjónn (Deputy Sheriff), var svo við verzlun í Crystal í 10 ár. Til Climax í Saskatchewan flutti hann árið 1914.

Magnús giftist 21. nóvember 1879, Valgerði Jónsdóttur Bergmann, systur séra Friðriks J. Bergmanns. Hún dó í október 1883. Áttu þau tvö börn, Friðrik, er dó tveggja mánaða; Amy, er giftist Halldóri syni Björns Halldórssonar frá Úlfsstöðum í Loðmundarfirði. Bæði eru þau hjón nú dáin.

Seinni kona Magnúsar er Ólöf, dóttir Sigfúsar Ólafssonar, föðurbróður séra Carls Olsons. Börn þeirra eru: Jón Bergmann, húsbyggingameistari í Moose Jaw, Sask.; Magnús Valgard, póstafgreiðslumaður í Climax; Elías, símritari (telegraph operator) í Judit Gap, Montana, og Elín til heimilis í Winnipeg.

Magnúsi voru gefnir góðir hæfileikar, og reyndist hann ávalt skarpur og harðgjör í framsókninni í frumbýlingabaráttunni.

———o———

## Saga Jóns Jónssonar á Mæri eftir hans eigin handriti.

Hann er fæddur á Felli í Kollafirði í Strandasýslu 3. ágúst 1844. Foreldrar hans voru Jón Þórðarson og Magndís Magnúsdóttir; Jón var sonur Þórðar, er lengi bjó á Gróustöðum í Geiradal í Barðastrandarsýslu, Magnússonar, Benediktssonar, Einarssonar. Móðir Einars var Helga Þorsteinsdóttir prests í Tröllatungu; hann var sjöundi liður frá Birni Jórsalafara. Móðir Jóns Þórðarsonar, Elín, var dóttir Jóns, er bjó á Kleifum í Gilsfirði, Þorleifssonar; bróðir hennar var Sakarías, afi Gísla Guðmundssonar í Gull Lake, Sask., og Guðbjargar Snowfield á Pembinafjöllum, norður af af Langdon, N. D.; voru þau Sakarías og Elín hálfsystkin séra Halldórs í Tröllatungu. Móð-

ir Elínar var Guðrún Ólafsdóttir, systir Einars föður Sturlaugs í Rauðseyjum. Magnús, faðir Magndísar móður Jóns á Mæri, var Magnússon, ættaður úr Dalasýslu; hann druknaði í Hvammsfirði 1821, áður en hún fæddist. Móðir Magndísar var Guðrún Sigurðardóttir frá Broddanesi við Kollafjörð, — gekk síðar að eiga Sakarías son séra Jóhanns í Garpsdal, og áttu þau mörg börn nafnkunn. — Systur Jóns Þórðarsonar voru tvær: Guðrún skáldkona á Valshamri, föðurmóður Jóns Víum kaupmanns í Foam Lake, Sask.; hún andaðist í Akrabygð í Norður Dakota fáum árum fyrir aldamótin; — og Þrúður, móðir Veturliða í Foam Lake bygð, Sask. Þrúður var velgefið barn og efnilegt, en þegar hún var þriggja ára týndist hún kvöld eitt í




*Jón Jónsson á Mæri og Ragnhildur Jósepsdóttir.*

köldu veðri, og fanst ekki fyr en næsta dag, sitjandi þá á steini uppi á fjalli náði hún sér aldrei til fulls vits eftir það. Hálfbróðir þessara systkina var Einar, er lengi bjó í Snartartungu í Bitrufirði.

Jón Þórðarson var skáldmæltur sem Guðrún systir hans. Hann ólst að nokkru leyti upp hjá móðurföður sínum, Jóni á Kleifum. Í æsku kyntist hann mikið hinum nafnfræga lærdómsmanni Guðbrandi Vigfússyni, og gerðist innileg vinátta með þeim. Að svo hafi verið, sýnir ljóðabréf, er Jón orti og sendi Guðbrandi til Kaupmannahafnar árið 1860, og var hinn síðarnefndi þá nýkominn til Kaupmannahafnar frá Þýzkalandi, hafði ferðast þar um víða. — Ljóðabréfið er prentað hér á eftir;

1. Síð og árla sæll vertu,
sögu skrúða hlynur,
eðla mögur Minervu,
minn og aldavinur.

2. Eftir venju, eins og ber,
—ei sú reglan þrotni—
ætla eg fyrst að óska þér
allra heilla af drotni.

3. Aðstoð veri hans ástarhönd
æfileiðar þinnar;
um þig hefjist hjálmabönd
hamingjusólarinnar.

4. Út af kaldri Íslands strönd,
yfir regin drafnir,
seðil þér eg sendi á hönd
suður í Dana hafnir.

5. Þín svo penna þekki för,
þrátt sem trygðir verma,
lakkaðan vildi eg leturs-knör
ljóðum til þín ferma.

6 Þakkarorð mér bæri brýn
beztu þér að sníða;
finst mér trygðin fágæt þín
finn eg hana ei víða.

7. Feginleiki fór um mig,
floktuðu Óðins hrafnar,
nær mér kominn kyntir þig
Kaupmanna til hafnar.

8. Firðar sunnan færðu mér,
fljótt og óvænt gefið,
nærri miðjum nóvember
norður frá þér bréfið.

9. Sá eg þá, þú mundir mig,
mjög að fornum trygðum.
Ókominn eg þenkti þig
Þýzkalands úr bygðum.

10. *Apropos*, eg ætlaði
ekki því að týna:
Hvernig þar til hagaði?
Hnýsni fyltu mína.

11. Kallast München mikil borg?
Má þar fagurt heita?
Eygist þaðan Upsatorg,
eða hèröð sveita?

12. Hvernig féll þér loft og lóð?
leizt á bjargarvegi?
Eru þar væn og falleg fljóð
og firðar mannvænlegir?

13. Sástu skatna skilmingar
og skemtun dansleikanna?
Hverri trúnni þjónar þar
þorri bæjarmanna?

14. Sástu fræði fornalda,
feðrakyn sem nefni?
Mætti þér engin *membrana*,
mikilvæg að efni?

15. Fékstu skóga og fljótin séð,
frá svo mætti skýra?
Hvað er um hesta, kýr og féð
og kynning fleiri dýra?

16. Alpafjalla eins af slóð
oss til fýsir sagna.
Sástu menn af Svissa þjóð
og sannan forða bragna.

17. Þín mun hafa hækkað brún
og hreyft sig mundin hvíta,
hina gullnu himinrún
helga er fékst að líta.

18. Þér hefir sýnst þar nytsemd (ný,
næsta mörg án efa.
Þó eg spyrji þaula í,
þú munt fyrirgefa.

19. Þolanlega líður mér;
ljúft er alt að bera,
algóð sem að útskiftir
alheimsstjórnar vera.

20. Eg var háður hreyfingum,
hörðu á vori núna:
Flutningsbraski í búferlum
bar oft fætur lúna.

21. Fè úr Kollafirðinum
færði eg dag útvalinn
Bitrufjallið yfir um
ofan í Krossársdalinn.

22. Bæinn þann, sem bót á fann
bygðar fremst í skýli,
ýtar nefna ósjaldan
Einfætings á Gili.

23. Vöknuðu norðan veður stríð,
verða slík í minnum,
snarpari engin snjóa hríð
snarkaði mér á kinnum.

24. Reifaðist Kjalars konan þá
klaka þykkum höklum;
hér var hvergi hey að fá
heldur en uppi á jöklum.

25. Hamaðist Norðri og hélt um sig
helkynjaðri bliku
Sókn hans varði, minnir mig,
mikið á þriðju viku.

26. Allra mest var ótíðin
okkar fjarlæg vana,
rétt um sjálfan sauðburðinn,
samt yfir fardagana.

27. Ofseint gróður eðlis naut,
öll var kali sködduð
upp á fald og ofan í skaut
Yggjarmærin gödduð.

28. Hömdust kindur hvergi á beit,
hungraður sýktist kviður;
þar af beið eg þyngstu smeit,
þær stráféllu niður.

29. Einatt frerar vörðu við
vikur af sumri átta.
Strandahéraðs höldar bið
hyggja á vinnu slátta.

30. Firrst mér líf á fremstu snös,
fleiri það svo meta.
Hitað mjöl og heiðagrös
hef þó enn að éta.

31. Þetta mátti þakka eg
þeim, sem öllum gefur,
því að entum okkar veg
all-jafnt sérhver hefur.

32. Andlitsfölur mjög eg má
mundir og fætur kalda
bera, kvillar hert er þá
brjósts og lifrar valda.

33. Hrella systur harðindin
Húnavatns og Stranda.
Skráfað er víða skorturinn
skapi mönnum vanda.

34. Kom upp dunk í Kötlugjá,
Kyndir brauzt úr höftum,
eins og hlunkar hlymdu frá
herliðs byssukjöftum.

35. Háðir tjóni höldar þá
hermdust elds við losið.
En blöðin segja eftir á
ei hafi skaðað gosið.

36. Ísinn svall um upsasal,
amaði fanga vési,
sjóndeild alla Ægis fal
austur að Langanesi.

37. Sundraðist ís um sumarmál,
svanir hreyfðust banda,
hákarls sóttu afla í ál
innbyggjendur Stranda.

38. Aflabrögðin ýta þar,
eru baga rekin,
búkunum aftur bylt í mar,
bara er lifrin tekin.

39. Blæs upp gust hjá bændunum
það úr stjórnarhöllu.
Tólf skildinga tollinn um
talað er mest af öllu.

40. Heimtaður er af amti sá
út með sakfalls gjöldum,
Hvítár vörð sem kvitta á,
en kúgaður út af höldum.

41. Mikið tála mætti um hér
meira, ef tíminn leyfði.
Núna flýtis mas úr mér
máli þessu hreyfði.

42. Þjóð varðandi fregnir frekt
fæ eg lítt við staðið,
heldur eitthvað heimullegt
hripa vildi á blaðið.

43. Válegt friðar fann eg tap,
fékk ei grannlaus varist
mót lævísi og skelmisskap
skelfing hef þó barist.

44. Vanheilsunnar viður gröndl
veiktist oft minn hugur.
mér fyrir bera höfuð hönd
hlaut þó sárnauðugur.

45. Hérna meinar helzt til þá,
hugurinn kæluborni
Bjarna þess, er flýði eg frá
fjarðar litla úr horni.

46. Eg hefi gegnum óvænt arg,
og tálsnörur vikið,
stefnu, lög og sáttasarg
sótt og unnið mikið.

47. Þú munt vita á þessu skil,
þó nú beri í ræður,
eg hermdi þér áður hér um bil
helztu kringumstæður.

48. Eg vil þar um engu spá,
ósk eða von til bæta,
hvort hann Bjarni eftir á
einni skúr að mæta.

49. Neitt eg vildi nýtt um hér
niður penna stinga.
Beinar fréttir bera þér
blöðin Íslendinga.

50. Mannalátum lítið vér
í ljóðaspjalli hreyfum.
Þess má geta hún Anna er
onduð hér á Kleifum.

51. Eggert syrgir andað víf,
okkar máta vinur,
hans einmana lamað líf
langan soknuð stynur.

52. Sæmdist hrósi, gáfuð, glöð,
greinir dygða knátti,
segjast rós í svanna röð
sölund hringa mátti.

53. Eins hné Guðrún, annra hlíf,
undir bana fálnum,
séra Bjarna vandað víf
var hún Garps í dalnum.

54. Þessar báðar baugsfoldir
burt frá ama húmi
helgra láða líkmoldir
luktu í sama rúmi.

55. Vanheilsan í grafar gang
gerir mörgum þoka,
áður en þeim færir fang
fóstran Garða-Loka.

56. Húnvetningum hrelling sker,
hugkær öllum lýði,
þeirra dáinn Olson er,
efsta héraðs prýði.

57. Daprast ekkju og börnum
brár,
bezti þeirra vinur
nú tvö veikur eftir ár
andvörp hinstu stynur.

58. Mitt er yrki á enda þá,
eg hef nokkuð svona
hinu og þessu hripsað á:
hvers var betra' að vona?

59. Muntu ei fús að feta spor
fram að mastra linna?
Nær hugsarðu að vitja vor,
vina og landa þinna?

60. Heim ef snýrðu, heiðbirta
hægða stýri vindum,
unz Snæfells og Öræfa
yndi skín á tindum.

61. Ef þú kemur, ei hjá mér
ölgar kaffi bára,
en Magndís hlýti að magna
mjöð fjörginar hára. (þér

62. Ártal kemst hér ekki í lag,
en þó máttu vita,
nú í ár eg yrki brag,
en í dag hann rita.

63. Vertu sæll eg vinsemda
varpa orðum brýnum.
Ljósið gæfu og gleðinnar
glansi á vegum þínum.

64. Hér og einnig hljóttu skeð
hót sem trygðir styðja.
kærar óskir kveðju með
konunnar og niðja.

65. Haf um senda þekkir þú
þessa í vinar skyni.
Júlu Dvalins ég veit nú
Jóni af Þórðarsyni.

## Vísur um Braziliufarir orti Jón Þórðarson 1865:

1. Norðurlandi ís er á,
öld kúgandi gjöldum frá.
Fyrir handan firn á sjá
fýsist standi betra ná.

2. Þessir hlýja hyrjar bil
helzt með nýjum vonar yl,
lús að drýgja betri skil.
Braziliu komast til.

3. Svona á bjáti eitthvað er,
ýmsar gátur falla hér:
hvort það fát eða hepni ler,
herma látum tímann vér.

Vísur úr brefi til Gísla Konráðssonar 1865, ortar af Jóni Þórðarsyni:

1. Þú, sem vandar fræðin flest
föðurlandi, mentaslingur,
þig í anda man eg mest,
málprýðandi þjóðsnillingur.

2. Málin fágæt fegurðar
fylla snillibragi þína,
heróiskar hendingar
hágleðjandi hjá þér skína.

3. Málblikandi mistiltein
mjög vel kant' á loft að hefja,
fjörsæll andi og hugmynd hrein
hverri gljár á ending stefja.

4. Vönduð fylla verkin þín
vorrar þjóðar fræðibióma.
Sè eg fósturfoldin mín
fékk þig getið oss til sóma.

5. Þér ef stend eg feti fjær
fjörs á mæddur þráðar enda,
vísuhending, vinur kær,
vil eg þínu leiði senda.

Nú að enduðum þessum ljóðum eftir föður Jóns á Mæri, heldur æfisaga hans áfram, eins og hann segir hana sjálfur:

"Það var árið 1860, að faðir minn flutti að Einfætingsgili í Bitru; þar dó hann 1868, hafði alla tíð verið mjög heilsutæpur. Eftir lát hans var eg tvö ár vinnumaður, annað hjá móður minni. Árið 1870 giftist eg Ragnhildi Jósepsdóttur. Hún var fædd 20. október 1839, d. 28. apríl 1912. Faðir hennar var ættaður úr Dala og Snæfellsnessýslum. Bjuggu foreldrar hennar á Stórakambi í Bervík, sunnan við Snæfellsjökul. Móðir hennar hét Gróa, dóttir Sigurðar, er bjó í Guðlaugsvík við Hrútafjörð. Byrjuðum við búskap á hálfri jörðinni Einfætingsgili, með lítil efni: 1 hross, 13 ær og eina kvígu, er aldrei varð að notum. Stöðugt stundaði eg sjóróðra, og aflaði oft vel. Aldrei ætlaði eg til Ameríku. En veturinn 1875—76 snerist mér hugur og varð þá staðráðinn í að fara. Voru þá heima þeir Sigtryggur Jónasson og Jóhann Straumfjörð; var Jóhann leiðsögumaður fólks, er fara vildi til Nýja Skotlands, og þangað ætlaði eg, því eg var hræddur um, að landferðin til Nýja Íslands yrði of löng fyrir fjölskyldu mína, sem var konan og þrjú börn. Á laugardag 24. júní lögðum við af stað að heiman inn að Borðeyri, og biðum þar þangað til skipið kom. Eftir að við vorum lögð af stað lá skipið einn dag á Akureyri, og fékk þá enginn að fara í land á skipsbátnum. En menn komu úr landi fram og fékk Halldór

Þorgilsson frá Hundadal leigðan bát hjá þeim, og flutti svo fólk fram og aftur allan daginn fyrir ekki neitt. Sýndi hann þá eins og oftar eðallyndi sitt og dugnað.

Til Skotlands hafði fólk sína íslenzku fæðu, og leið þá allvel. Í Glasgow var fólkinu um nótt skift á gistihúsin og gekk nokkuð langur tími í það.

Meðan við dvöldum í Glasgow áttum við gott. Á húsinu, sem eg var á, vildi konan (húsmóðirin) eitt sinn fá okkur karlmennina til að dansa við sig; gekk hún að mér, teymdi mig eða dró fram á gólfið, tók mig danstökum, og stappaði eg einn eða fleiri snúninga. Síðan slepti hún mér og hætti með sýnilegum vonbrigðum, og sagði víst eg kynni ekki að dansa.. Svona fór um sjóferð þá.

Eitt sinn var Björn frá Ási í Kelduhverfi, faðir séra Björns í Winnipeg, að kaupa sér eitthvað þar úti á götu. Bað þá einn, er þar var hjá, hann að lofa sér að skoða 10 króna gullpening, og í grandleysi fékk Björn honum peninginn. En áður hann athugaði, var maðurinn horfinn. Fór Björn þá til Sigtryggs og svo fóru þeir til lögregluþjóns, og spurði hann Björn, hvort hann mundi þekkja manninn, ef honum gæfist tækifæri að sjá hann aftur, og hélt Björn það. Kirkja var þar skamt frá, sem messað var í næsta sunnudag. Lét þá lögregluþjónninn Björn koma með sér þangað og bíða fyrir utan kirkjuna, þar til fólkið fór að koma út. Þekti Björn þá manninn, réði á hann og skelti honum niður. Tók þá lögregluþjónninn piltinn, en fékk Birni jafngildi þess sem hann misti.

Þegar kom á Atlantshafið, brá fólki mjög við fæðið, sem það hafði haft það sem af var ferðinni. Það var brúkað mikið af fiski og hefði nú ekkert verið að því, ef hann hefði ekki verið óætur af salti; og svo voru brauðin ekki sem bezt bökuð. Fóru þá börn óðum að veikjast og sumt af fullorðnum líka. Á hverjum degi var alt fólkið látið fara upp á þilfar og vera þar langa stund. Einn skipsmaður var mjög harðneskjulegur og grimdarlegur, ef einhverjir gegndu honum ekki strax, og sýndi sig líklegan til að berja þá og valdi sér alténd eitthvað fyrir keyri. Eitt sinn hafði hann tekið selskinnstösku, er einhver útflytjandinn átti, til að hafa í keyris stað. Eg vildi sjá, hvar hann legði töskuna. Þegar alt fólk var upp komið, hafði eg valið mér pláss hjá uppgöngunni í skugga og sá, þegar allir voru farnir, að hann lagðist fram á borð á bak við mastrið; gekk eg þá hinu megin þar að, og var hann þá búinn að láta tösk-

una í barm sinn og stóð ólin út úr. Greip eg fljótt í hana og kipti henni til mín. Gerði hann sig strax auðmjúkan. Eftir að eg hafði um tíma leitað að eigandanum, fann eg hann. Var það Jón Þórðarson frá Vatni í Dölum. Í töskunni voru lyklar hans og 13 krónur, og sagði hann það væru allir sínir peningar.

Þegar kom á stórvötnin, tók fólki að líða ver en áður, sem orsakaðist mikið af þrengslum; menn voru óvanir fæðinu og kunnu sér ekki vel hóf með neyzlu á því. Það var t. d. stór brauðhlaði, sem allir gengu í eins og gripir í heystakk.

Er til Winnipeg kom, 8. ágúst, reyndist innflytjendahúsið of lítið fyrir fólkið, svo sumir máttu vera niðri á ánni í flatkössunum, er ætlaðir voru til að flytja farangur fólksins til Gimli; var vont loft í þeim af vatni, sem í þeim var, þó lítið væri; en ekki var hægt að ná því út, og úldnaði það svo í hitanum.

Meðan dvalið var í Winnipeg, var komið þar inn með hóp af kúm handa okkur að kaupa. Ekki vissi eg til, að það væri nema einn maður, sem keypti fleiri en eina kú; það var Sigurgeir frá Svínatungu; hann keypti víst þrjár. Eg keypti kú í félagi við annan mann, Jón frá Svartagili; kostaði hún 30 dollara, og borgaði eg 20 en hann 10; hélt eg hún ætti ekki langt til burðar og hugsuðum við gott til að fá bráðlega mjólk fyrir börnin. Í félagi ætluðum við að vera með búskapinn fyrst um sinn. Tveir menn voru fengnir úr hópnum til að reka kýrnar til Gimli. En mín kýr tapaðist út í skóginn þar niður frá og náðist ekki fyr en í október, þá borin fyrir nokkru og kálfurinn viltur og náðist ekki fyr en með jólaföstu, þá mergfrosinn og drapst hann fljótt.

Þegar til Gimli kom, var ekki mikið liðsinni að fá hjá þeim, sem þar voru fyrir. Karlmenn, er gátu að heiman farið, voru úti í vinnu bæði í Winnipeg og hjá bændum. Fólk var illa öngulsárt eftir síðastliðinn vetur. Varð því flest af nýkomna fólkinu, fyrst um sinn, að liggja undir beru lofti og tjalda rúmfötum yfir sig.

Margir höfðu keypt matreiðslustór og fleira til bús í Winnipeg; þó voru fleiri, er lítið sem ekkert gátu þar keypt og treystu að öllu upp á stjórnarlánið. Fyrsta brauðgerðin hjá öllum var þannig, að gerðar voru flatkökur og steiktar ofan á stóarlokunum. Margir höfðu keypt sér

gott hveitimjöl í Winnipeg, kom það sér vel, því það fyrsta, sem ofan eftir kom af stjórnarlánshveiti, var vont og óholt.

Fljótt fóru menn að hafa sig í burtu frá Gimli, helzt til norðurs í áttina að Fljótinu og til Mikleyjar; hún var ómæld, en þar leizt mönnum vel á og fóru strax margir þangað; reyndist það vel, því þar fiskaðist töluvert á vetrum af hvítfiski. Þangað fóru þeir strax: Halldór Reykjalín, Halldór Þorgilsson, Jón frá Svartagili, Jóhann Straumfjörð, Jón Sigurðsson Reykfjörð og margir fleiri. Var þar mikið af greniviðarskógi, er þeir klufu töluvert af í bráðabyrgðar fjalvið. Fljótt fóru þeir að geta selt hvítfisk á vetrum sér til hjálpar, sem lítið og helzt ekkert af fékst annars staðar í nýlendunni.

Margt varð eftir af fólki á Gimli yfir veturinn, sem ekki treysti sér út í óbygð sökum lasleika eftir ferðina. Sagt var, að tuttugasta manneskjan hefði dáið úr hópnum, þegar hann var kominn að Gimli ; og mun það vera nokkuð rétt, og töluverður manndauði hélzt þar til skömmu áður en bóluveikin skall á.

Ekki sá eg fram á nein úrræði fyrir mig að vera þarna á Gimli á bersvæði, og lagði eg því í nokkurs konar ráðaleysi norður í áttina á eftir Jóni, sem ætlaði að verða félagi minn, til að líta eftir, ef nokkurs staðar yrði skýli að fá. En þá gat eg ekki róið tveimur árum, og varð konan að róa á annað borðið; gekk henni það furðu vel, þó hún hefði ekki gert það fyr. Mátti hún hafa það, frá því við fórum út úr Rauðárósum.

Norður héldum við, til Sigurðar Jakobssonar. Nefndi hann heimili sitt Fagradal. Var þá barn hjá mér svo veikt, að eg lét þar fyrirberast undir vatnsbakkanum. Gaf Sigurður mér einstöku sinnum mjólk og kom það sér vel. Hafði hann kú að hálfu við aðra fjölskyldu, og sumstaðar voru þá þrjár fjölskyldur um eina kú. Lengi vorum við þarna, og fann eg þá hve sárt það var, að hafa mist kúna í skóginn og við öll veik. Þar dó okkar inndæli drengur, þriggja og hálfs árs gamall. Með öðru dró það kjark úr mér að reyna að komast lengra.

Þarna skamt frá var Björn Jósúason úr Dölum. Hafði eg fyrir fáum árum fundið á Borðeyri fyrir hann peningabuddu, er hann týndi þar. Þessa naut eg hjá honum, svo hann bauð mér að koma í kofa sinn, sem var þó lítill og opið á milli allra bjálka á veggjunum, en vatnshelt þakið. Þáði eg boð hans og þótti happ í. Ekki hafði hann þá ann-

að til fæðis en heilt hveitikorn og ofurlítið af fiski. Sigurður sonur hans var í vinnu uppi í Winnipeg. Kofinn var á landi Sigurðar. Björn sparaði ekki að gera okkur alt til þæginda, sem hann gat. Líka vildi hann fara að lækna mig, en helzta meðalið til þess átti að vera seyði af poplarberki. Var það sterkt og hugði hann það mundi hafa sterk og góð áhrif, en eg neytti heldur lítils af því, svo ekki gat það hrifið.

Einn morgun rann á norðanveður og þurftum við þá að fara og bjarga bátnum lengra upp; þar skamt frá sá eg eitthvað vera að veltast í briminu og fór eg þangað; var þetta þá lítil tunna , sem tók á að gizka sex til átta potta, var milli hálfs og fulls af einhverju; og þegar búið var að bjarga bátnum, fór eg með varúð að opna kútinn, og fann strax góða lykt og girnilega; bar eg þetta að vörum mér og saup á, gaf svo Birni og hann saup á. Hafði þetta önnur áhrif en eplið forðum: Þau á Björn, að hann fór að ræða um hvað nauðsynlegt og heilnæmt það væri í þessu Nýja íslandi fyrir menn, að hafa sem mest samtök og bróðurlegan félagsskap, og skaut svo inn í til enn meiri áhrifa fögrustu þjóðrækniserindum að heiman, því þau skildi eg; en því miður vorum við ekki nema tveir þarna. En á mig hafði þetta þau áhrif, að mér fór batnandi heilsan, svo víst hefir þessi mjöður verið úr heilnæmum víngarði.

Seint um haustið kom Sigurður heim og fór að koma sér upp íveruhúsi. Var það 20 fet á lengd og 14 á breidd. Heyvöndlar voru og lagðir í raðir ofan á reftið og svo mjóar renglur á hverja heyröð. Átti svo að koma leirlag þar ofan yfir. En þegar tilbúið var að leggja það, var frosið upp, svo það varð að láta sitja við-bert heylagið yfir veturinn. Svo kom bólan, og varð tvent veikt af henni, Guðrún dóttir mín og drengur, sonur Björns, Björn að nafni. Kom sér nú vel nýmjólkin úr kú minni þó lítil væri, því ekki hafði hún utan síðslæju hey til fóðurs.

Nú leið veturinn og við nýbyggjarnir hlökkuðum til vorsins. En nú kom nýtt fyrir. Fyrsta sunnudag í sumri, 22. apríl, kviknaði af neista í þakinu í heitu veðri, og varð ekki slökt, þó fljótt sæist eldurinn. Eg hafði um veturinn sagað töluvert af fjölum undir hné mínu, og voru þær uppi á bitunum og þar ýmislegt fleira. Fór Björn þar upp og bjargaði því niður. Eg mölvaði hurðina og glugga til að henda þar út og gekk það fljótt. Þegar Björn kom ofan af bitunum, var eldurinn kominn niður hjá rúm-

stæði hans; þar átti hann hlaðna byssu, og um leið og hann kom niður, reið skotið af í gegn um eldstrókinn. Mátti heita, að húsið brynni á svipstundu, því eldurinn var fljótur eftir heyþakinu, og mundi nú á dögum verða hart að fá eldsábyrgð á þannig byggingu á íveruhúsi. Þó varð nú mestu bjargað út. En eldurinn ætlaði að gera það að herfangi sínu, og var hart fyrir hita að koma því á óhultan stað lengra frá.

Nú aðskildist þetta fólk. Sigurður fékk sér tjald. Eg fór í litla opna hústóft, sem eg var búinn að koma upp og hafði ætlað að gera fjós úr. Fjalirnar, sem bjargast höfðu úr eldinum, dugðu í helming þaksins.

Björn átti land þar fyrir vestan ;þar var greniviðarskógur, og gerði hann sér rúm á milli trjánna þar sem millibil var líkt og milli rúmstuðla, frá 4 til 5 fet frá jörðu, og setti þak yfir. Seinna um vorið einn morgun sá Björn ferfættan nafna sinn liggja við fiskiruslshrúgu skamt frá rúminu, og horfði sá er við hrúguna lá á þessi missmíði í trjánum. En sá er í trjánum var, hafði enn hjá sér hlaðna byssu, er hann tók til með hægð. Geispaði þá sá, er við fiskihrúguna lá, en sá er í trjánum var, sætti þá lagi og helti upp í nafna sinn ríflegri inntöku, og lá sá þegar dauður. En það varð til þess, að trjábúinn gat gefið nágrönnum sínum nýnæmi skömmu þar á eftir.

Þegar eg var fluttur í mína litlu tóft, höfðum við ekki önnur eldsgögn en lítinn suðupott heiman af Íslandi, gerðum hlóðir úti og matreiddum þar. Átta faðma netstúf hafði eg, en engan bát, óð því með netið út í vatnið og fiskaði vel til bjargar okkur. Miklar rigningar komu um vorið og mátti eg leggja kubba í gólfið í kofanum til að stikla á.

Um veturinin þennan, 1876—77, hjó eg efni í íveruhús, og fékk sjö eða átta menn að draga með mér trén þangað sem húsið átti að vera, og svo mátti eg hjálpa þeim öllum aftur til að draga efni í þeirra hús. Svona gekk það álment; á meðan menn áttu ekki ökudýr, þá urðu þeir að draga á sjálfum sér og bera heim til sín nauðsynjar sínar. — Heimili mitt í Nýja Íslandi nefndi eg Mæri, eftir Mæri í Norvegi. Land mitt var þrjár mílur fyrir norðan Gimli, nærri landamerkjum.

Um vorið þetta, 1877, vissi eg til þess, að margir fóru að nota lög úr trjám í sykurstað, og lítið var um kaffi fyrsta veturinn. Te fékst frá stjórninni, en lítið af kaffi.

Stó fékk eg seint um sumarið frá stjórninni og líka kú snemma sumars; þótti það mikill fengur.

Annan veturinn, sem eg var í Nýja Íslandi, 1877—78, átti margur við þröngan kost að búa. Stjórnarláni var þá lokið, en ekki höfðu allir ástæður til að fara frá heimilum sínum út í vinnu. Sumir áttu nána að, sem voru í vinnu og hjálpuðu sínum heima af sínu litla kaupi. En þeir, sem enga áttu að, áttu hart með afkomu. Kartöflu uppskeran hafði víst verið allgóð um sumarið, en fiskur entist skamt fram á veturinn. Töluvert veiddu sumir af rabbítum sér til hjálpar. 114 pund hafði eg fyrir þennan vetur af hveitimjöli. en engin tök að bæta þar við; varð því að brúka alt sem hægt var af kartöflum í brauðin. Verzlun var á Gimli, en ekkert lán fengu þeir þar, er engan áttu úti í vinnu, eða ekki gátu neitt að heman farið til að leita sér atvinnu. Vildi mér það þá til happs, að stjórnarlánskýrin, sem eg hafði fengið, var ramvilt. Búist var við hún bæri seint í desember, og þegar að því kom, tryltist hún, mölvaði alt í kring um sig og hálfdrap sig í ósköpunum, svo skera mátti hana strax, og var það gott og óvænt búsílag.

Eftir að tveir fyrstu vetrarnir voru liðnir, fór margt af fötum að heiman að verða útslitið. Voru jafnóðum búnir til úr þeim skór, eða nokkurs konar þrúgur á fætur fólks að vetrinum. Þurfti sífelt að vera að staga í þá, en svo var þetta hlýtt á fótum.

Eftir þann vetur, 1877—78, fóru margir að verða vondaufir um, að kjör þeirra myndu fyrst um sinn batna í Nýja Íslandi. Fundir voru haldnir seint á þeim vetri í Árnesbygð, til að ræða um hvort ekki sæust nein ráð til að bæta hag manna, svo menn gætu haldist við í nýlendunni. Var upp á mörgu stungið, en alt lenti við það sama, ekkert til að bæta kjörin, ekkert til að selja, hvorki fiskur né gripir, enginn markaður fyrir við. Svo niðurstaðan varð helzt, þó mörgum þætti ekki gott, að flytja yrði burtu.

Eins og kunnugt er, var séra Páll Þorláksson hvatamaður að því, að menn flyttu frá Nýja Íslandi til Bandafylkjanna. Hann kom til Winnipeg 18. ágúst 1876, og fylgdist með Austurlandshópnum til nýlendunnar. Eg var við guðsþjónustu, er hann hafði í skóginum fyrir norðan Gimli. Lagði hann mikla áherzlu á, að fólkið læsi í biblíunni; ekki hafði eg heyrt presta heima gera það. Eitt, sem gerði lífið ömurlegt í Nýja Íslandi fyrir mér og öðrum, voru trúmáladeilurnar, sem hófust veturinn annnan

sem eg var þar, 1877—78. Hvar sem menn hittust, lenti í trúmálaþrasi. Rígur varð mikill milli manna í þessari flokkaskiftingu.

Séra Páll útvegaði dálítinn styrk handa söfnuði sínum þennan áminsta vetur, og fór svo suður til Bandafylkjanna um vorið að velja nýlenduplás.

Nú lá stjórnarlánið á mönnum og leit út fyrir að það yrði fjötur, sem héldi þeim, er flytja vildu til Dakota frá Nýja Íslandi, föstum þar, og var oft leitað úrskurðar stjórnarinnar í þá átt; smá-rýmkaði svo á þem höftum þar til það ákvæði kom, að menn gætu farið með því skilyrði, að skilja alt eftir sem óeytt væri af stjórnarláninu en bæta fyrir gripi sem fallnir voru frá; eftir það fór að losna um fólk.

Reyna vildi eg að vera kyr í Nýja Íslandi; fór því norður í Mikley að líta mér eftir landi, en fann ekki það er mér leizt á, enda var alt það bezta upptekið. Í vinnu fór eg tvisvar upp til Winnipeg, og á meðan þurfti eg að koma fjölskyldu minni fyrir hjá öðrum. Um þær mundir, 28. október 1879, fæddist mér sonur minn Jósep, er nú býr á Mæri í Mountain-bygð. Kona hans er Þorbergína Björnsdóttir frá Svold, áður á Seyðisfirði. Hin börn mín eru: Guðrún, gift Elíasi Vatnsdal Eggertssyni, þau búa nálægt Mozart, Sask.; og Elín, ekkja, nú í Montana, og var maður hennar Guðmundur Þórðarson bóndi í Gardarbygð.

Um vorið 1880 lagði eg af stað alfarinn frá Nýja Íslandi, varð samferða Stefáni Eyjólfssyni, sem nú býr í Gardar-bygð. Við fórum gangandi upp til Winnipeg og rákum gripi okkar; átti eg þá tvær kýr, en enga ferðapeninga. Fengum við sífeldan vaðal frá Winnipeg-vatni upp til Nettle lækjar; þar fengum við fyrst þurt fyrir tjald okkar. Daginn eftir fengum við ferju yfir ána og borgaði Stefán ferjutollinn.

Nokkru seinna kom fjölskylda mín á gufubát til Winnipeg, og fékk eg lánað í fargjaldið og fyrir tjald. Tjölduðum við og margir fleiri á sléttunni nálægt gamla ferjustaðnum. Var þá aðal vinnan, er við fengum flestir, að afferma gufubáta, er gengu eftir ánni. Voru allar vörur til bæjarins á þeim dögum fluttar á skipum, því engin járnbraut var komin þangað, — kom ekki til Winnipeg fyr en seint um sumarið það ár, 1880."

Jón á Mæri var fluttur til Dakota árið 1881. Hann

nam land í Mountain-bygð, á hinu fagra sléttlendi fyrir suðaustan Mountain. Hann er vel skýr maður, hefir verið gefið gott minni, sem ekkert virðist vera farið að deyfast. Sterkur hefir hann verið, í gildara lagi og verið eftirmynd hinna hugdjörfu fornaldarhetja.

## Mikley.

Mikley er í Township 23—24—25, Range 6, lítið eitt í R. 5. Lengd eyjarinnar frá suðvestri til norðausturs eru nærri 19 mílur; þar sem hún er breiðust, er hún 6 mílur á breidd, en sumstaðar þrjár og hálf míla.

Landnám í eyjunni hófst 1876. Voru þá nokkuð mörg lönd numin að sunnan og vestanverðu á henni, sem lögðust í eyði, þegar útflutninga tímabilið var í Nýja Íslandi; fluttu þá svo margir burtu af eyjunni, að ekki voru þar eftir nema fjórar fjölskyldur um tíma, þegar útflutningum var lokið. Nokkurra þeirra, sem burtu fluttu þá og seinna, verður hér getið, en sumra þó ekki eins greinilega og maður hefði viljað að væri, sökum skorts á upplýsingum.

**Jóhann Elíasson Straumfjörð,** fæddur að Ámýrum undir Bjarnarhafnarfjalli, 21. janúar 1840, dáinn í Grunnavatnsbygð, Man., 11. október 1914. Foreldrar hans voru Elías Sigurðsson og Halldóra Björnsdóttir. Hann fluttist með foreldrum sínum þriggja ára gamall að Straumfjarðartungu í Miklaholtshreppi. Bjó faðir hans þar til dauðadags og þar var Jóhann til ársins 1868. Þann 30. júní það ár giftist hann Kristbjörgu Jónsdóttur frá Hlíð í Hnappadal. Hún var fædd 1838, dáin 22. október 1916.

Jóhann bjó, eftir að hann giftist, í Hrísdal í Miklaholtshreppi sex ár. Fór til Ameríku árið 1874 einn síns liðs, til að velja sér þar framtíðar dvalarstað, og dvaldi þá á ýmsum stöðum í austurfylkjum Canada árlangt og skoðaði sig um, en fór svo heim 1875. Alfarinn kom hann aftur vestur árið eftir, 1876.

Í nýja Skotlandi er sennilegt að Jóhann hafi ætlað að setjast að, því hann hafði komið þangað og litist vel á landið; en hann eins og fleiri, sem til Nýja Skotlands ætluðu, hefir hætt við það af ástæðum, sem frá er skýrt í broti af landnámssögu Nýja Íslands.

Þegar Jóhann kom vestur í annað sinn 1876, fór hann því til Nýja Íslands og til Mikleyjar, og kom að landi suðaustan á eyjunni við eyri eina; sá hann þar borð upp-

rekið og nefndi því eyrina Borðeyri. Var svo bærinn, sem bygður var þar, nefndur eftir eyrinni.

Skamt fyrir norðan Borðeyri nam Jóhann land og nefndi Barkarstaði, gaf landinu það heiti af því hann þakti hús sitt með berki af birkitrjám, svo það læki ekki. Hér um bil hálf hústóftin sést enn, þótt ellileg sé, og djúp laut í henni miðri, þar sem kjallarinn hefir verið.

Næsta vor, 1877, flutti Jóhann sig frá Barkarstöðum norður á eyjuna, til Gull Harbor, nam þar land og nefndi Höfn. Þar brann hús hans um næturtíma um hávetur, en af því Jóhann var karlmenni og snarráðugur, gat hann bjargað fólki öllu og flestum húsmunum. Varð hann að brjóta glugga á loftinu, er hann vaknaði við eldinn, og fleygði þar út rúmfötum ofan í snjóinn, en konu og börnum þar ofan á. Var þá þekjan öll logandi, er það var búið. Svo náði hann stó og öðrum munum út úr húsinu niðri, meðan loftið var að brenna, og einhverju af kartöflum úr kjallaranum. Hann slapp út rétt áður en húsið féll saman. Elzta son sinn, Jón Elías, þá um 9 ára gamlan, sendi hann til næsta bæjar að fá hjálp. Drengurinn fáklæddur hljóp alt hvað hann gat, tók víst ekki mikið eftir þó nærri lægi að vetrar næturfrostið á Mikley skaðaði hann. Fólkið á bænum, sem hann var sendur til, lét hann fara ofan í hlýtt rúm.

Nú færði Jóhann sig lengra norður á eyjuna, nam sér land í þriðja sinn og nefndi Grund; þar bjó hann til þess hann eftir þriggja ára dvöl í Mikley árið 1879 flutti til Engeyjar, sem er lítil eyja norðvestur af Mikley. Bjó hann sér til fleka úr bjálkum og flutti á honum fólkið og það litið, sem hann átti, yfir í nýju eyjuna. En svo varð honum ekki viðvært þar lengi. Eftir ársdvöl þar flæddi vatnið upp á eyjuna, svo hann varð að flýja þaðan. Fór hann þá suður í Víðirnesbygð og var á Steinsstöðum og Hólmi þar til vatnið lækkaði við Engey. Fór Jóhann þá þangað aftur og bjó nú myndarlega um sig, setti upp vindmylnu og malaði í henni korn sitt. Með eimvél sagaði hann borðvið, eldivið og til ýmislegs fleira notaði hann hana. Vatn leiddi hann inn í fjósið þannig, að það rann sjálfkrafa til allra gripanna, en úti við brunn sást, þegar nægu vatni hafði veitt verið inn.

Þegar fram í tímann sótti hjá fjölskyldunni á Engey, fór eldri sonur Jóhanns, Jón Elías, sem nú er bóndi í Grunnavatns-bygð, að hjálpa föður sínum með því að fara út í vinnu til fiskiveiða og svo upp til Winnipeg. Hér eru

prentuð þrjú bréf, sem Jóhann skrifaði syni sínum á þeim tímum:

Engey, 25. ágúst 1888.

Ástkæri Nonni minn! — Guð gefi þér allar stundir til lukku og blessunar. Eg þakka þér fyrir tvö bréf, sem eg meðtók næstliðið sunnudagskvöld, og þar með fylgdi bréf, líklega til Jóa, og líka kom poki með snærum. En eg veit ekki hvenær annað bréfið til mín hefir verið skrifað, því það var ekki dagsett. — Fréttir eru engar að skrifa þér, alt er hér tíðindalaust og okkur líður öllum bærilega fyrir guðs náð. En mamma þín er nú búin að vera nokkuð lengi kaffilaus og þykir það leiðinlegt. Við erum nú að klára heyskapinn á hólmanum og hugsum nú að fara suður þangað sem eg heyjaði í fyrrasumar, núna eftir helgina. Gras hefir verið allsstaðar lítið á þurlendi í sumar og heyskapur gengið seint hjá okkur. Maður var hér á ferð, sem var að reyna að fá sögunartimbur, og lézt mundi máske setja niður mylnu á Blacks tanganum; en hvort þetta verður nokkuð, er óvíst. Eg hefi í hyggju að fara upp til Winnipeg, þegar eg er búinn að heyja, þó eg hafi ekkert að fara með, því eg er nú fátækur af flestu. Eg ætla að biðja þig að skrifa mér til, það allra fyrsta að þú getur, og láta mig vita hér um bil hvað eg má eiga von á að fá marga dollara hjá þér, því þú veizt nú um tímann sem þú munir verða, nefnilega til friðunartímans, og getur þá ætlast á hvað þú munir fá í það heila; en eg þarf endilega að vita hvað mikið þú ætlar mér, áður en eg fer upp eftir, því eg reyndi þá að fá dálítið lán upp frá upp á það, en það verður líklega ekki hægt, svo eg máske má fara upp eftir aftur á bátnum mínum, þegar þú kemur. Bara dragðu ekki að skrifa mér strax og koma því að Grund.

Það verður enginn tími til fyrir þig að hugsa um lengri vinnu en til friðunartímans, því það tekur mikinn tíma að búa út net og hvað annað fyrir veturinn. Eg ætla að biðja þig að fá fyrir mig nokkuð mikið af snærum, ef þú getur fengið það með góðu verði, og svo sem 200 olíu flam.

Mamma þín og alt fólkið biður kærlega að heilsa þér, og eg kveð þig kærri kveðju og bið guð að annast þig lífs og liðinn. Það mælir þinn faðir.

J. Straumfjörð.

P.S.—Mundu eftir að fá mikið af snærum, því það er sagt að það megi fá þau ókeypis. Eg skrifa þér og læt liggja fyrir þér bréf á Grund, þegar þú kemur að norðan.

Peninga þarftu að fá í kaupið sem allra mesta, en síður vörur. Sami.

Engey, 28. nóvember 1891.

Kæri Nonni minn. Guð gefi þér allar stundir til lukku og blessunar í Jesú nafni.

Eg þakka þér innilega fyrir tilskrifið með Stjána, sem og alt gott mér auðsýnt. Stjáni kom að kvöldi þess 19. þ. m. og þá voru þeir Jói bróðir þinn og Fúsi og Jón á Víðimýri ferðbúnir norður. En næsta dag var ófært veður, svo þeir fóru ekki fyr en þann 21. Ís er orðinn þykkur og hart frost nú í morgun, 47 gráður.

Ekki hefi eg frétt enn neitt af fiskiaflanum norður frá. Jón á Víðimýri kom heim á mánudaginn, var veikur, svo hann varð að fara heim, en þá var ekki búið að leggja neitt af hvítfiskanetum, en það fiskast nokkuð á litla nesinu. Stjáni fór norður með Jóa, enda þó ekki væri um mörg net að gera og sízt að gagni, því tvíbreiðu netin mín, sem þú hafðir fyrir austan í fyrra, eru grautfúin, svo þau eru ekki leggjandi, og eg get ekkert bætt af þessum görmum.

Eg sé um skepnurnar, nema það sem Ásta hjálpar mér til þess, því Rænka liggur, er hún búin að vera veik nærri viku, en er nú skárri. Ef þú kemur fyrir Jólin, þá er áríðandi að þú fáir duglegan mann fyrir þig á meðan. Það væri gott, að þú fengir einn eða tvo vel duglega hunda og kæmir með, ef þú gætir fengið þá fyrir lítið eða ekkert. Eg man ekki hvort eg bað þig að hjálpa mér um tvær tylftir af glösum með töppum, í bréfinu sem eg skrifaði seinast, eða ekki, en mig vantar þau. Við höldum númerin á skónum telpnanna megi vera 5, en það væri bezt að taka það fram þar sem þú kaupir þá, að þú fengir skifti, ef þeir ekki passa. — Eg bið þig að bera kæra kveðju mína og okkar til Jóa og Nonna og Þóru, og segðu Jóa, að eg skrifi honum bráðum, en eg kem því ekki við með þessari ferð. Móðir þín og systkini biðja kærlega að heilsa þér, og að endingu kveð eg þig kærri kveðju og bið góðan guð að annast þig. Það mælir þinn faðir.

J. Straumfjörð.

Engey, 19. marz 1892.

Kæri Nonni minn. Guð gefi þér allar stundir til lukku og blessunar í Jesú nafni. — Eg þakka þér innilega fyrir tilskrifið af 25. febrúar, sem og alt gott. Þakka þér fyrir

sendinguna seinast, n.l. sögina, þó hún sé ekki enn komin til mín, hún er í Bræðrahöfn. — Engar fréttir hefi eg að skrifa þér, nema bærilega líðan okkar allra.

Eg hélt samkomu á afmælisdaginn þinn; hún var fjölsótt eftir því sem hægt var; inngangur kostaði 20 cent og inn komu knappir 12 dollarar, og svo ætla eg að bæta við það, svo að það verði 20 dollarar, og stofna af því sjóð til hjálpar fátækum Mikleyjarbúum. Mér þótti það að skemtisamkomu þessari, að þú gazt ekki verið þar, og í kvöld á hér að verða dálítil danssamkoma, sem Jói hefir boðið til.

Við höfum verið að höggva bjálka að undanförnu, en eg er nú hræddur um, að eg verði of seinn að ná þeim út áður en snjórinn fer.

Það er búist við að mamma þín fari með póstinum þann 29. þ.m. frá Bræðrahöfn, og ef vel gengur ætti hún að koma þann 31. til Winnipeg, en mér er ómögulegt að geta komið fyrir annríki.

Mundu eftir að finna hjólmóðurina sem vantaði og helzt allar úr vagninum, ef þú gætir. Líka bið eg þig að muna að koma með kvitteringu fyrir borguninni fyrir blöðin, og að láta senda mér Heimskringlu beint frá prentsmiðjunni. Einnig ætla eg að biðja þig að láta mér ekki bregðast að útvega mér fingurna í sláttuvélina.

Eg verð nú að hætta, því það er orðið fult af gestum. Alt fólkið biður innilega að heilsa þér. Eg kveð þig svo kærri kveðju , og bið guð að annast þig alla tíma. Það mælir þinn faðir.

Jón Straumfjörð.

P.S.—Jóhann Sólmundsson og systur hans, er búist við að fari upp eftir með sömu ferðinni.

Árið 1902 flæddi vatnið yfir Engey og eyðilagði engi og akra Jóhanns. Varð hann þá að flytja af eyjunni í annað sinn, flutti til Grunnavatns-bygðar, nam land og bjó þar til þess hann lézt.

Börn Jóhanns eru fimm, þrír synir og tvær dætur: Jón Elías, bóndi í Grunnavatnsbygð, kvæntur Ingiríði Jónsdóttur Bjarnasonar og konu hans Þuríðar Helgadóttur, þau bjuggu á Beigalda í Mýrasýslu, fluttu til Vesturheims 1888, voru í Mikley 15 ár, fluttu til Grunnavatnsbygðar 1903; þar dó Þuríður fyrir nokkrum árum, en Jón dvelur hjá tengdasyni sínum.

Til glöggvari skýringar á því, sem hér að framan er



minst á, (það er) um útivinnu Jóns Elíasar frá heimili foreldra hans á æskuárunum, og um bréfin, sem hann fékk frá föður sínum, skal hér skýrt frá hvar hann var þegar hann fékk bréfin: Hann var í vinnu á gufubát hjá fiskifélagi langt norður á Winnipegvatni, þegar hann fékk bréfið 1888, en í Winnipeg, þegar hann fékk þau seinni 1891—92. Var kyndari við vatnsverk bæjarins, vann við það 11 mánuði. Hann vár sá fyrsti íslendingur, sem þar vann.

Hin börn Jóhanns eru: Jóhann, býr í Blaine, Wash., kona hans heitir Björg Kristjánsdóttir; Kristján býr líka vestur við haf, kona hans heitir Karítas Bjarnadóttir; Ástríður, gift Ingimundi Sigurðssyni, búa í Grunnavatnsbygð; Ragnheiður, gift Ágúst Magnússyni, bónda í sömu bygð og sveitarskrifara.

Jóhann Straumfjörð er af þeim, sem þektu hann vel, talinn að hafa verið einn af merkustu íslenzkum frumbyggjum í Ameríku. Var framúrskarandi hagleiksmaður á hvað sem hann vann, áræðinn í öllum fyrirtækjum. Mannkostirnir, öðrum til góðs, virðast hafa sýnt sig í verkum hans, og sannarlega hafa börn hans, þau sem eg hefi kynst, lært af foreldrum sínum að rækta hjá sér og börnum sínum hið fagra og góða, sem allir ættu að ástunda að rækta.

## MINNINGARLJÓÐ

eftir

**Jóhann E. Straumfjörð**, fæddur 21. janúar 1840, dáinn 11. október 1914, og konu hans **Kristbjörgu Jónsdóttur,** fædd 1838, dáin 22. október 1916.

### Jóhann E. Straumfjörð.

Heimilisfaðirinn hugumkæri,
höndin vor og leiðarstjarna,
þó sért horfinn, ítak áttu
enn í hjörtum konu og barna.

Enn þau harmfull heitt þín minnast.
Hvernig ættum vér að gleyma
þér, sem varst oss alt í öllu?
ímynd þína er sælt að geyma.

Svífa, enn fyrir augum vorum
yndis stundir fyrri daga,
meðan þú varst heill á húfi
hjá oss, það er liðin saga.

Eiginmaður og faðir og fóstri,
frábær varstu í öllum greinum.
Vinarleiðsögn, vernd og lyfting
vísa fundum hjá þér einum.

Hugvild þín og hversdags máti
hverfur ei úr vina minni.
Sýndist lífsró hýrleg hjúpa
heimilið í návist þinni.

Gestum veittir vel og hlyntir
við þá ræddir um heima og geima.
Þar sem göfug glaðværð ríkir,
gott er að koma og eiga heima.

Þú varst prúðleiks þokka gæddur
þeim er fólkið að sér dregur.
Augun frán og síung sýndust,
svipurinn hreinn og karlmannlegur.

Þú varst stór í stöðu lárri,
stærstur þó í hættum skæðum.
Höfðinginn í hreysi smáu.
Herramaður í bóndaklæðum.

Listamaður í felum falinn.
Félítill með ríkum anda.
Verkaþjónn með aðals eðli.
Yfirmaður þá bar að vanda.

Fyr á tíð þú alloft áttir
örðugleika við að berjast.
Vatn og ís og eldur voru
óvinir, sem þurfti að verjast.

En þú lézt ei yfirbugast,
andstæð mögn þó veittu skaða,
við hvert áhlaup hugann herti
hetjulundin fornættaða.

Öllum vel í vanda reyndist,
vildir ei af hólmi renna.
Ekki sízt þá aðrir brugðust,
einkenni það er göfugmenna.

Hégómleikans hrófatildur
—haugagullið manndómsvana-

virtir lítt, því mattir meira
manninn heldur en peningana.

Hugur þinn var frjáls og fleygur,
framgjörn lundin viljasterka,
hjartað fúst til hluttekningar,
höndin fljót til líknarverka.

Þú varst drengur þrauta bezti,
þín voru jafnan rífleg býti.
Varnarlausum vinur og bróðir.
Vanmáttugum "Samaríti".

Kærleiksboðorð meistarans mikla,
—mjög sem oft er troðið fótum—
geymdir vel, þó "Herra, herra"
hrópaðir ei á gatnamótum.

Er ei von að ástmenn gráti
elskaðan föður, vininn trúa,
Leiðtogann glögga, göfugmennið,
góðs til öllu er vildi snúa?

Hver mun ei, þá skjólið skortir
skammdegis í hríðargaddi,
sakna blíða sumardagsins,
sem að lýsti, vermdi og gladdi?

Hún, sem blítt og heitt þér unni
—hrygg og veik á beði stynur—
með sér ber í minningunni
myndina þína, hjartans vinur.

Barna þinna í framtíð faldri
fækka skjóls og gleðistaðir.
Guð einn veit hvað mikið mistum
með þér, elsku—dáni faðir!

Þegar gröfin hollvin hylur,
hugsól myrkvast sorgarbarna.
Þá er aðeins eina ljósið
ódauðleikans vonarstjarna.

Gegn um sortann blítt hún bendir,
brosir á móti hjartans þráin,
þetta eina þýðir merki.
Þú ert brott, en ekki dáinn.

Þín skal mæta minning vaka
með oss fram að hinsta kveldi.
Heill og sæll, vor heittelskaði,
hafinn upp í stærra veldi.

**Undir nafni ekkju og barna.**

Eftir Þorskabít.

**Kristbjörg Jónsdóttir.**

Dáin, horfin, helbönd tungu reyra,
hjartað kalt og lokað yfir brá.
Ó, hve sárt er orðin þau að heyra
ástvinarins dánarbeði hjá.
Þegar, móðir! þig ei sáum lengur,
þá var líkt og sólu byrgði ský.
Svo við brá, sem blíður væri strengur
brostinn sundur hjörtum vorum í.

Þín er minnumst, hrynja tárin höfug,
—herrans forsjá þó við lútum hljóð,—
þú, sem varst svo góð og mild og göfug,
glaðvær, ástrík, blíð og þolinmóð.
Hjartað það, sem hefir slíka kosti,
húsið vermir,—gerir hlýtt og rótt.
Ytra þó sé alt í snjó og frosti,
innra þar er sólskin dag og nótt.

Upp þar sprettur ánægjunnar gróður,
ást og mildi kringum halda vörð.
Allir þeir, sem eiga slíka móður,
eiga dýrstu himingjöf á jörð.
Ó, sú nautn, að njóta hennar gæða.
—Náðarmeðul fyrir börnin hreld,
lífs þá vetrarvindar kaldir næða,
verma sig við móðurkærleiks-eld.

Þinnar stöðu og stéttar varstu prýði,
Stoð þíns manns, og barna þinna hlíf.
Fyrirmyndar framgangsmátinn blíði
færði vott um göfugt sálarlíf.
Einstæðingum vildir systir vera,
vinalausum,—snauðum heilladís.
Þeim, sem böl og þrautir urðu að bera,
þín var ætíð hluttekningin vís.

Þitt var eðli öllum gott að sýna,
engan móðga stygt með kuldasvar.
Alla menn að meta bræður þína.
Málstað taka þess, er dæmdur var.
Ætíð reyna annars hrygð að sefa.
Aldrei breyzkum leggja neitt til hnjóðs.
Alt að bæta. — Alt að fyrirgefa.
Alstaðar að koma fram til góðs.

Hugrökk varstu, hvað sem öndvert mætti.
Hetja', er aldrei veik af réttri braut.
Trú þín föst, að guð að öllu gætti,
gaf þér styrk í hverri raun og þraut.
Þreytt og sorgfull, samt þig skar ei kvíði,
sjúk og blind þú leiðst, en vonglöð þó.
Síðast líka' í sjálfu dauðastríði
sama var þín hjartansfriðar-ró.

Hjartkær móðir! oss það hindrar eigi
eðlishreinu kosti þína' að dá,
þó að lofsorð, sumir hverjir segi
sómi lítt um dána menn að tjá.
Er ei manndygð öllum listum fegri,
—endurminning dýrust sérhvers manns?
Er til nokkur arfur dásamlegri
eftirlátinn hjarta syrgjandans?

Gott er fyrir gamlan mann að deyja
góðri breytni' er skreytti lífið sitt,
og að heyra' í huga drottin segja:
"Hvíl þig, barn, við föðurbrjóstið mitt.
—Þjáður var eg,—þá mér hjúkra léztu.
Þyrstur var eg,—svölun barstu mér.
Nakinn gekk eg,—gafst mér klæðin beztu.
Gestur var eg, — hýsing fékk hjá þér.

Það, sem veitt er minstu bræðrum mínum,
mér um leið er sjálfum þetta gert.
Við nú taktu verkalaunum þínum.
Velkomin til föðurhúsa sért.
Góða sál! er gættir minna boða,
gakk nú inn í bústað þann, hjá mér,
sem að mitt í sælumorgunroða
sálu þinni fyrirbúinn er."

Arnljótur B. Olson

Horfna móðir! Heimvon áttir bjarta
heims úr útlegð, gefið nú er þér
dýrðlegt skjól við drottins náðarhjarta,
dygðugt líf því fagran ávöxt ber.
Ástvininn, sem önd þín sárast þreyði,
afturfundinn leiðir nú við hlið.
Björt og hrein og blíð, sem vorsins heiði
brosir eilíf framtíð ykkur við.

Elsku móðir! móðirin kærleiksríka,
munarklökk við signum legstað þinn.
Öll við, börn þín, —börnin okkar líka—
blessum þig með tárum vota kinn.
Úti' er tími samverunnar sætur,
sorgblítt þig í anda kveðjum nú.
Fósturdóttir fóstru sína grætur.
Fóstra engin betri var en þú.

**Undir nafni barnanna.**

Í fyrstu landnámstíð á Mikley voru á Borðeyri samtímis þrír búendur, sem fluttu til Vesturheims árið 1876. Elztur þeirra var **Sveinn Þorsteinsson** frá Egilsstöðum í Fljótsdal. Hann dó á Borðeyri bóluveturinn; átti margt barna, var þrekmaður og víst að mörgu leyti merkur maður. — Annar búandinn hét **Sigurður Jónsson,** átti Pálínu dóttur Sveins; var líka úr Fljótsdal; flutti til Dakota, nam land skamt fyrir vestan Pembina, færði sig svo þaðan suðvestur í Íslendingabygðina og dó þar; Pálína ekkja hans er gift Aðalmundi Guðmundssyni bónda í Garðar-bygð, Norður Dakota.

Þriðji bóndinn á Borðeyri var **Jón Bergvinsson,** sonur Bergvins Þorbergssonar prests á Eiðum í Suður-Múlasýslu og á Valþjófsstað, og síðast á Skeggjastað á Ströndum, hvar hann lézt. Móðir Jóns, kona séra Bergvins, var Sigríður Þorláksdóttir prests á Skinnastað og Svalbarði Hallgrímssonar. Móðir hans var Sigríður dóttir Þorláks prófasts Þórarinssonar skáldsins, sem orti Þorlákskver. Hann var fæddur 23. desember 1711, druknaði í Hörgá 9. júlí 1773. Hann var merkisskáld sinnar tíðar, en þótti heldur berorður í ljóðakveri sínu (Þorlákskverinu) um aldarháttinn á Íslandi á 18. öld í hans tíð.

Bróðir Jóns Bergvinssonar var Þorlákur, bóndi í nokkur ár á Hreimsstöðum í Hjaltastaðaþinghá. Kona

hans hét Vilborg Vilhjálmsdóttir frá Hjartastöðum í Eiðaþinghá. Á meðal barna þeirra eru: Bergvin og Hóseas í Seattle, Wash., og Guðný, kona Friðriks Guðmundssonar bónda í Minnesota.

Kona Jóns hét Vilborg; um ætt hennar er þeim, sem þetta ritar, ekki kunnugt. Af börnum hans eru á lífi: Bergvin, sem var prentari Framfara með Jónasi Jónassyni, er nú í Winklerman, Arizona; Gunnlaugur, skrifstofustjóri suður í Bandaríkjum; Rósa, kona Tryggva Jónssonar í Leslie, Sask.; dáin eru: Sigríður, kona Friðbjörns Friðrikssonar í Glenboro, Halldór, Stefán Kaupmaður í Winnipeg og Gunnlaugur; hann druknaði á Seyðisfirði.

Jón Bergvinsson var vel greindur maður, eins og hann átti kyn til. Hann var bygðarstjóri í Mikley, en dvaldi þar ekki lengi, var fluttur til Fljótsbygðar fyrir lok ársins 1878. Hann andaðist á Ósi við Íslendingafljót að áliðnum vetri árið 1881.

**Jón Jónsson,** fæddur á Skallhóli í Miðdölum í Dalasýslu, 29. apríl 1840, dáinn 7. janúar 1908. Foreldrar hans voru Jón Jónsson bóndi á Skallhóli og kona hans Guðrún Jósepsdóttir.

Jón ólst upp hjá foreldrum sínum á Skallhóli, og var hjá þeim til þess hann fór í vinnumensku til annara. Hann kvæntist 1874, Þorbjörgu (fædd 15. okt. 1844) Guðmundsdóttur bónda á Rifgirðingum í Breiðafirði, bjó um tíma í Öxney í sömu sveit og dó þar. Faðir hans var Guðmundur bóndi á Hóli í Hvammssveit. Móðir Þorbjargar, kona Guðmundar á Rifgirðingum, Björg Guðlaugsdóttir bónda í Stórholti í Saurbæ og konu hans Þorbjargar Jóhannsdóttur prests á Brjánslæk.

Jón og Þorbjörg fluttu til Vesturheims 1885, settust að í Mikley. Setti Jón heimilisrétt á Borðeyri og var þar 11 ár. Flæddi þá vatnið á land upp, svo ekki var fært að búa lengur á Borðeyri. Fór Jón þá til Selkirk og var þar tvö ár, fór að þeim liðnum út í Grunnavatnsbygð og dó þar hjá tengdasyni sínum, J. H. Johnson, sem nú er fiskikaupmaður í Amaranth.

Börn þeirra hjóna eru fimm: 1. Jóhann býr á Oak Point, Man., kona hans er Ingibjörg Sveinssína Árnadóttir; 2. Björg, kona J. H. Johnson áðurnefnds; 3. Guðjón, bóndi að Gunton P.O., Man., giftur Stefaníu systur J. H.;

4. Guðmundur, býr að Medicine Hat, Sask.; 5. Ólafur Valdimar.

**Eiríkur Sigurðsson**, fæddur í Heiðarseli í Hróarstungu í Norðurmúlasýslu 1826, dáinn 1914. Foreldrar hans voru Sigurður, bóndi í Heiðarseli, og kona hans Ingibjörg Jónsdóttir bónda í Bót í Hróarstungu, Jónssonar prests í Vallanesi, Stefánssonar prests sama staðar, Pálssonar prests á Valþjófsstað Högnasonar, og Þóru dóttur Stefáns prófasts í Vallanesi skáldsins, Ólafssonar prófasts á Kirkjubæ, Einarssonar prófasts í Heydölum Sigurðarsonar.



*Eiríkur Sigurðsson.*

Jón prestur Stefánsson í Vallanesi var lengi búinn að vera sinnisveikur, þegar hann lézt, og var haldið að illur andi væri valdur að því sem að honum gekk, og var mér sagt í æsku, að séra Þorsteinn á Skorrastað í Norðfirði, langafi séra Þorsteins, sem var í Berufirði, hefði reynt með kröftugri ræðu í prédkunarstóli að særa hinn óhreina anda frá séra Jóni, og var nærri búinn að því, en þá kom eitthvað fyrir, sem olli því að presti batnaði ekki.

Kona séra Jóns í Vallanesi, móðir Jóns í Bót, var Gróa dóttir Eiríks prests á Kolfreyjustað, Einarsonar á Hafursá, en kona Jóns í Bót, móðir Ingibjargar konu Sigurðar í Heiðarseli, var Þórunn dóttir Eiríks á Stórasteinsvaði Hallssonar og konu hans Ingibjargar Sigurðardóttur frá Víðivöllum í Fljótsdal, Einarssonar á Hafursá. Sigurður á Víðivöllum var bróðir séra Eiríks á Kolfreyjustað (áður nefnds), en kona Sigurðar á Víðivöllum var Þórunn Bjarnadóttir frá Búlandi.

Sigurður í Heiðarseli var sonur Benidikts bónda á Rangá í Hróarstungu, Grímssonar prests á Hjaltastað, Bessasonar. Séra Grímur var samtíða Hans Víum sýslumanni. Hann reyndi með sýslumanni að komast eftir hvaða vera í hulinshjálmi var að sveima um Hjaltastaðabæ um tíma á dögum séra Jóns Oddssonar, sem þá var prestur á

Hjaltastað. En tilraun prests og sýslumanns varð árangurslaus.

Móðir Sigurðar í Heiðarseli, kona Benidikts á Rangá, var Ingibjörg Guðmundsdóttir bónda á Ásgrímsstöðum í Hjaltastaðaþinghá, og konu hans Þórunnar Sigfúsdóttur bónda á Litlasteinsvaði Jónssonar stúdents á Skjöldólfsstöðum, Gunnlaugsonar prets í Möðrudal.

Kona Eríks Sigurðssonar hét Ingunn, dóttir Bjarna Bjarnasonar bónda á Freyshólum í Skógum í Suðurmúlasýslu og víðar, og konu hans Guðfinnu Einarsdóttur bónda á Setbergi í Fellum og Margrétar Pétursdóttur bónda í Bót, Jónssonar á Skjöldólfsstöðum.

Eiríkur bjó eftir að hann giftist nokkur ár í Heiðarseli; flutti þaðan til Vesturheims 1876, settist að í Breiðuvíkinni (Hnausabygð), nam land og nefndi Eiríksstaði, er nú kallast Fitjar. Þaðan flutti hann vorið 1881 lengra suður með vatninu, að bæ, sem nefndist Eyrarbakki; setti heimilisrétt á það land; þar er ekki búið nú, en landið á Rögnvaldur Sigurðsson á Fitjum.

Á Eyrarbakka var frumbyggjari og nafngefandi að landinu, Pétur Matúsalem Bjarnason, bróðir Ingunnar konu Eiríks Sigurðssonar. Pétur flutti frá Stóra Sandfelli í Skriðdal í Suðurmúlasýslu til Ameríku 1875, fór til Nýja Íslands með fyrsta hópnum, sem þangað flutti. Hann flutti suður til Dakota vorið 1881, nam land í Cavalier bygð og bjó þar til þess er hann flutti vestur að Kyrrahafi 1901. Kona hans var Sigþrúður Þorkelsdóttir Schevings frá Stóra Sandfelli; þau áttu margt barna, öll látin nema það yngsta, sonur, sem Gestur heitir.

Eiríkur bjó á Eyrarbakka 5 ár, flutti árið 1886 út í Mikley, nam þar annað heimilisréttarland vestan á eyjunni og nefndi Voga; þar bjó hann 27 ár; þar dó kona hans 1893.

Tvisvar brann hús Eiríks meðan hann var í Vogum, en hann bygði hús aftur á stuttum tíma, því í Vogum langaði hann til að dvelja til æfiloka. Hann flutti þaðan 1913 yfir að Unalandi í Fljótsbygð og lézt þar ári seinna hjá Guðfinnu dóttur sinni.

Börn Eiríks og Ingunnar voru sex; það elzta dó ungt, en til fullorðinsára komust 5: Þórunn Björg, kona Kristjóns Finnssonar, sem síðar verður getið; Guðfinna, ekkja eftir Gunnstein Eyjólfsson á Unalandi; Oddur, látinn fyrir mörgum árum; Bjarni, er heima á Íslandi, ólzt upp á Hreiðarstöðum í Fellum hjá Oddi móðurbróður sínum, lærði búfræði

og var um tíma verzlunarþjónn á Eskifirði; Guðrún Ingibjörg ógift, dóttir Eiríks og Guðrúnar Magnúsdóttur, ættaðrar af Suðurlandi; Ingunn María, gift Kristjáni syni Kristjáns Ólafssonar lífsábyrgðar umboðsmanns, þau búa í Winnipeg. Fóstursonur Eiríks er Kristján Jakob Jónasson, bóndi í Víðirbygð.

**Kristjón Finnsson**, fæddur í Klettbúð í Keflavík undir Snæfellsjökli 14. febrúar 1853. Foreldrar hans voru Finnur Jónsson og Kristín Tómasdóttir bónda í Keflavík Ólafsonar.

Kristjón misti föður sinn árið 1865. Fór hann þá yfir í Miðdali í Dalasýslu og var hjá Sigurði Stefánssyni bónda a Fellsenda ellefu ár, og reri oft á þeim tíma í vertíðum úti fyrir Suðurlandi. Hann fluttist vestur um haf 1876. Fór til Mikleyjar og var til heimilis á Reykjanesi, sem nefnt var, hjá Halldóri Friðrikssyni Reykjalín, tvö ár. Hann kvæntist í marzmánuði 1878, Sigríði dóttur Halldórs, misti hana eftir fárra ára samveru, þau eignuðust tvö börn, er annað þeirra Sigríður kona Gunnlaugs bónda á Laugalandi í Hnausabygð, sonar Guðmundar Marteinssonar í Garði í Fljótsbygð; hitt er Sigurður bóndi í Víðirbygð, kvæntur Hildi Sigfúsdóttur Péturssonar.

Eftir lát konu sinnar kom Kristjón börnum sínum í fóstur hjá Halldóri Reykjalín tengdaföður sínum, sem þá var fluttur suður til Dakota. En sjálfur fór hann yfir að Íslendingafljóti og fékk þar vinnu hjá Sigtryggi Jónassyni og Friðjóni Friðrikssyni við sögunarmylnu þerra. Unnið hafði hann áður við sögunarmylnu í Mikley. Hann vann í sjö ár við mylnu þeirra félaga, fyrst við Íslendingafljót í fjögur ár, og svo fyrir austan vatn í þrjú ár við Bad Throat River.

Kristjón kvæntist í annað sinn 7. júlí 1885, Þórunni Björgu Eiríksdóttur frá Heiðarseli. Tók hann þá til sín börn sín og fyrri konunnar, flutti út í Mikley og nam land skamt frá Vogum og nefndi Tjörnes; þar bjó hann til þess að hann fluttist aftur yfir að Íslendingafljóti árið 1893. Keypti hann þá af Friðsteini Sigurðssyni verzlun hans og tók að verzla að austan verðu við Fljótið, hafði líka sögunarmylnu og starfrækti hvorutvegja í 10 ár. Sögunarmylnu hafði hann þar til hann seldi hana 1907. Hann misti konu sína 27. júní 1911, flutti þá vestur í Víðirbygð og tók þar annað heimilisréttarland, seldi það eftir níu ára dvöl á því og flutti til Árborgar.

Börn Kristjóns og seinni konu hans eru 8: 1. Ingunn Guðfinna, átti Ásgeir Fjeldsted verzlunarmann í Árborg; hann dó 1916, var um tíma í herþjónustu. 2. Kristín, kona Jóns Baldvinssonar á Kirkjubæ í Hnausabygð. 3. Sigurrós, 4. Kristjón, 5. Friðjón Victor. 5. Vilfred Laurence. 7. Sigríður og 8. Guðrún.

**Nöfn bæja á Mikley,**

þeirra, sem nú er búið á, eru talin hér á eftir: Skógarnes, Kirkjuból, Flugumýri, Sandnes, Skjaldartröð, Þingvellir, Helgavatn, Helgastaðir (tveir bæir með því nafni), Sunnuhvoll, Birkiland, Bjarg, Hóll, Melstaður, Breiðabólsstaður, Lundur, Höfði, Reynistaður, Mylnuvík, Ingólfsvík, Ölduland, Sandar, Brekka, Steinnes, Skógar, Hlíðarhús, Hlíðarendi, Straumnes, Jónsnes, Grund.

Allir bæirnir eru austan á eyjunni. Skógarnes er syðsti bær, Grund sá norðasti.



*Kristín Örnólfsdóttir og börn hennar.*

**Taldir landnámsmenn og getið æfiatriða þeirra.**

**Kristín Örnólfsdóttir**, fædd á Kirkjubóli í Önundarfirði í Ísafjarðarsýslu 24. júní 1859, dáin. 11. maí 1920.

Foreldrar hennar voru Örnólfur Magnússon bóndi á Kirkjubóli og kona hans Sigríður Sigurðardóttir.

Kristín misti föður sinn 5 ára gömul; ólst hún eftir það upp hjá vandalausum. Hún giftist 1886 Daníel Eggertssyni, ættuðum af Vesturlandi. Hann druknaði eftir hálfs annars árs samveru; þau áttu einn son, sem heitir Þorleifur Sigurður, býr á Skógarnesi, landnámsjörð móður sinnar, kvæntur Guðrúnu Vilhelmínu, dóttur Helga Ásbjörnssonar á Helgastöðum.

Árið 1891 fór Kristín til Ólafs bónda Ólafssonar á Grundum í Bolungarvík, og gerðist bústýra hjá honum.



*Þorleifur á Skógarnesi, kona hans og barn þeirra.*

Fluttu þau til Vesturheims 1893, settust að í Mikley og nam Ólafur land vestan á eyjunni og nefndi Öldubæ; þar bjuggu þau sex ár, urðu þá að flytja þaðan, af því vatnið flóði á land upp og lagði Öldubæ í eyði. Nam þá Kristín land og nefndi Skógarnes. Eftir tíu ára dvöl þar andaðist Ólafur 73 ára gamall; var vel kyntur maður, stundaði sjávaratvinnu á Íslandi í mörg ár, sem formaður og háseti, og gekk hvorutveggja vel.

Ólafur og Kristín áttu 4 börn: 1. Sesselja Margrét, kona Hjartar Ámundasonar á Helgavatni; 2. Ólöf Jóhanna,

kona Victors Lúters Jósepssonar, búa í Wynyard, Sask.; 3. Elínborg Sigbjört, 4. Daníel Sveinn.

Land, sem nú er ekki búið á, milli Skógarness og Kirkjubóls, var numið 1876. Bærinn þar var nefndur Hvammur. Landnámsmaðurinn var **Jón Magnússon Nordal**, fæddur á Svartagili í Norðurárdal í Mýrasýslu 14. september 1842. Faðir hans var Magnús bóndi á Svartagili, Guðmundsson, bónda á Háafelli í Hvítársíðu, Hjálmssonar bónda á Hafþórsstöðum í Norðurárdal. Móðir Jóns Nordals hét Guðrún Jónsdóttir, bónda á Kaðalsstöðum í Stafholtstungum.

Jón misti föður sinn 11 ára gamall; var hjá móður sinni til þess er hann var 14 ára, fór þá til Daníels hreppstjóra Jónssonar á Traðarstöðum í Hvítársíðu, var þar þrjú ár; 1859 fór hann aftur að Svartagili og tók þar við bústjórn með móður sinni, sem hafði hætt að búa, þegar maður hennar dó, en byrjaði nú aftur, þegar sonur hennar fór til hennar. Hann kvæntist 17. október 1872 Sigríði Þorvaldsdóttur bónda á Skipaskaga á Akranesi, Gíslasonar.

Jón flutti frá Svartagili til Ameríku 1876, fór til Mikleyjar og var fyrsta veturinn þar á Kirkjubóli hjá Halldóri Þorgilssyni. Hann kom með fjögur börn til Nýja Íslands, misti eitt um haustið, stuttu eftir að hann var kominn þangað, og svo annað úr bólunni. Þau tvö, sem lifðu, fengu líka bóluna.

Jón nam land, sem áður er minst, skamt fyrir sunnan Kirkjuból, og nefndi Hvamm, flutti þangað vorið 1877 og var þar þrjú ár. Hann flutti suður að Vogum árið 1880, þar hafði búið Þórður Magnússon hálfbróðir hans, en var fluttur þaðan suður til Dakota.

Ekki gat dvöl Jóns orðið löng á Vogum, því sem oftar flæddi vatnið á land upp, svo hann varð að fara burtu stuttu eftir veturnætur 1880. Fór hann þá til Eyjólfs Kristjánssonar frá Breiðavaði í Eiðaþinghá í Suðurmúlasýslu, sem hafði sezt að skamt fyrir norðan Voga, og var þar fimm mánuði; í marzmánuði það ár fór hann yfir að Íslendingafljót og fékk þar skógarhöggsvinnu hjá Sigtryggi Jónassyni. Svo snemma í apríl flutti hann til Winnipeg, keypti lághýsi (shanty) af Hudsonsfléa félaginu á Rauðárbakkasléttunni, var þar tvö ár, vann við húsabyggingar og fleira, en flutti til Argyle 1883, var kominn þangað 1. apríl; land nam hann fyrir norðaustan Bru P.O. og bjó þar til 1907; þá flutti hann til Glenboro.

Jón misti konu sína árið 1904. Börn þeirra voru 8 og lifa þrjú: Ingibjörg, kona Halldórs Sveinssonar bónda við Cypress River; Guðrún, kona Guðmundar Símonarsonar bónda að Glenboro, og Magnús, er býr á landi föður síns við Cypress River P. O.

Jón kvæntist í annað sinn 10. desember 1906 Steinunni Jóhannsdóttur bónda á Litla Ósi á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu og konu hans Óskar Þorkelsdóttur. Börn þeirra eru tvö: Sigurjón og Þórdís Emilía.

**Halldór Þorgilsson,** frumbyggi á Kirkjubóli, fæddur í Hundadal í Dalasýslu 3. nóvember 1830, dáinn 11. október 1919. Faðir hans var Þorgils bóndi í Hundadal, Halldórsson bónda á Hvoli í Saurbæjarhreppi, Jónssonar. Voru þeir langfeðgar komnir af Agli Skallagrímssyni. Kona Þorgilsar í Hundadal, móðir Halldórs, var Solveig Helgadóttir bónda í Hvammssveit.



*Halldór Þorgilsson*

Halldór Þorgilsson flutti vestur um haf til Nýja Íslands 1876, settist að í Mikley. Sagt er mér, að hann hafi ætlað að byggja kirkju á landi sínu og hafi því nefnt bæ sinn Kirkjuból. Líka var gjör grafreitur á landinu og þar grafnir þeir, sem dóu á eyjunni úr bólunni, nær 30 manns. Óljóst er mér hvaða ár Halldór flutti í burtu frá Mikley. En til Dakota var hann kominn 1882. Hann nam land í Mountain-bygð og bjó þar til þess er hann lézt.

Halldór var tvígiftur; fyrri kona hans var Málmfríður Tómasdóttir bónda á Ketilsstöðum í Hörðadal í Dalasýslu. Börn þeirra eru: 1. Þorgils bóndi að Mountain, kvæntur Kristínu Jónsdóttur, ættaðri úr Mývatnssveit; 2. Tómas, bóndi í Mountainbygð, kvæntur Þórvöru Jónasdóttur Kortssonar; 3. Kristján, kona hans heitir María Rögnvaldsdóttir, þau búa í Mountain-bygð.

Seinni kona Halldórs var Ólöf Kjartansdóttir, ættuð úr Skagafirði; þeirra son, Friðrik Theódór, býr í Mountain-

bygð, kvæntur Gunnell Bjarnadóttur (Bjarnasonar, er lengi bjó fyrir vestan Mountain) og konu hans Gróu Jónsdóttur smiðs Níelssonar, sem lengi bjó á Hrollaugsstöðum í Hjaltastaðaþinghá í Norðurmúlasýslu.

Halldór Þorgilsson var afarmenni að afli og svo snar í átökum, einkum þegar honum hitnaði í skapi, að vart mun sá hafa fundist, sem stóð honum þar framar. Hann var kærleiksríkur maður; að svo var, sýndi sig í því, að hann mátti aldrei sjá sýnt ranglæti þeim, sem lítilsmáttar voru og veikbygðir; ofbeldi beitt við þá þoldi hann ekki að væri gert, og lenti þess vegna stundum í áflog við ýmsa.

Eitt sinn var hann staddur í Reykjavík; lá þá franskt skip þar á höfninni og voru nokkrir skipverjar í landi, inni á vínsöluhúsi, og höfðu fengið sér í meira lagi í staupi. Þegar þeir voru á leiðinni til baka út að skipinu, réðist einn þeirra á dreng og tók af honum poka með smáfiskum í (kollúrum), sem þóttu sælgæti að eta. Halldór var þar nærstaddur, brá skjótt við, hljóp að þorparanum, kastaði honum til jarðar, tók pokann af honum og fékk drengnum. Þegar þeir frönsku sáu þetta, réðust þeir allir að Halldóri og bjuggust við að sannast mundi hið forna máltæki, að enginn mætti við margnum. Það sló í harðan bardaga og barst leikurinn út á bryggjuna; ýmist hratt Halldór piltunum út af bryggjunni í sjóinn eða tók þá á loft og kastaði þeim út. Þetta sást af skipinu, og voru menn sendir á bát að bjarga mönnunum, sem svömluðu þarna og syntu í sjónum, og dýrt máttu þeir borga hið ósvífnislega tiltæki félaga þeirra.

Eitt sinn var Halldór í þreskivinnu í Dakota, og hefir þá verið kominn yfir sextugt. Íslenzkur drengur var í vinnunni, sem var ófyrirleitinn í orðum og hafði gaman af að stríða innlendu verkamönnunum á kvöldin, þegar þeir voru lagstir til hvílu á heylofti í hestafjósi, og gerði hann þá einu sinni svo reiða, að þeir sýndu sig líklega til að leggja hendur á hann. En Halldór sagði þeim að láta hann vera. Svarar einn honum með því algenga enska orðtæki: "Mind your own business" og sló til Halldórs, sem þá sagði honum að hann mætti slá aftur ef hann vildi, þreif til kauða og hafði á honum endaskifti og lét hann falla á höfuðið ofan um eina opnuna á loftinu; á sama hátt kastaði hann þremur eða fjórum öðrum niður, sem vildu hefna félaga síns. Næsta morgun voru þeir í daufu skapi, og báðu verkstjórann að

reka þennan mann úr vinnunni. Það sagðist hann ekki gjöra, að reka duglegasta manninn.

Það má telja það víst, að nafn Halldórs Þorgilssonar verður í ókominni tíð lengi uppi, sem eins af hinum allra fræknustu og vöskustu Íslendingum, sem til Vesturheims hafa flutt.

**Kristmundur Jónsson** á Kirkjubóli, fæddur á Keiksbakka á Skógarströnd í Snæfellsnessýslu 26. september 1857. Foreldrar hans voru Jón Guðmundsson bóndi á Keiksbakka



*Kristjana Þorsteinsdóttir og börn hennar.*

og kona hans Kristín Jónsdóttir, bónda í Gvöndareyjum.

Kona Kristmundar, Kristjana Þorsteinsdóttir bónda á Giljalandi í Haukadal, seinna í Ingólfsvík í Mikley, og konu hans Guðbjargar Einarsdóttur ættaðrar úr Hvammssveit. Kristjana var fædd 11. ágúst 1865.

Börn Kristmundar og konu hans voru fimm: 1. Sigurður Guðmundur, 2. Kristín, kona Gunnars Helgasonar á Reynistað, 3. Þorsteinn Valdimar, 4. Guðbjörg Kristjana og 5. Guðfríður Lilja, dáin 17. febrúar 1920.

Kristmundur flutti frá Klettakoti á Skógarströnd til Vesturheims 1893, og settist að í Mikley, var fyrsta vet-

urinn í Ingólfsvík hjá Þorsteini tengdaföður sínum, fór næsta vor (1894) að Kirkjubóli og hefir búið þar síðan.

**Albert Jóhannesson** á Flugumýri, fæddur á Geitafelli á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu 15. júlí 1847. Foreldrar hans voru Jóhannes Sveinsson bóndi á Geitafelli og kona hans Herdís Bergþórsdóttir, ættuð af Vatnsnesi.



*Albert Jóhannesson*

Albert var hjá foreldrum sínum til þess hann var 11 ára gamall, og svo hjá ýmsum til þess er hann var 19 ára. Þá fór hann til Sigurðar bónda Gíslasonar á Bæ í Steingrímsfirði í Strandasýslu, var hjá honum til þess er Sigurður fór til Ameríku árið 1883. Ári seinna (1884) fór Albert vestur um haf, var í Norður Dakota þrjú ár hjá ýmsum. Fór norður til Canada 1886, vann um tíma í Winnipeg, fór þaðan vestur í Klettafjöll og vann þar járnbrautarvinnu sumarlangt, fór svo vestur að hafi og vann þar um tíma járnbrautarvinnu. Með honum var í félagi með vinnuútvegun annar Íslendingur, og höfðu þeir ásett sér að skilja ekki, en þó varð það. Þeir voru tældir út á hvalaveiðaskp (sinn á hvort skip) og sáust ekki upp frá því.

Albert vann á skipinu, sem hann var á, níu mánuði. Hann kom á land í West India eyjunum og sá þar mjög vilta menn. Lentu skipverjar í illu við þá og varð það dýrt keypt að sleppa ómeiddir frá þeim.

Er Albert var sloppinn úr þessari ánauð fékk hann daglaunavinnu í San Francisco og vann þar eitt ár, fór svo norður til Canada, austur til Winnipeg og suður til Dakota; þar vann hann nærri tvö ár, fór svo norður til Nýja Íslands, nam land í Mikley og nefndi Flugumýri. Hefir hann búið þar síðan.

**Helgi Sigurðsson** á Sandnesi, fæddur á Kúskerpi í Engihlíðarhreppi í Húnavatnssýslu 12. febrúar 1844. Faðir Helga var Sigurður Vigfússon bóndi á Kúskerpi; voru þeir

Sigurður og Helgi, föðurfaðir séra Jóhanns Bjarnasonar, bræður. Móðir Helga á Sandnesi, kona Sigurðar á Kúskerpi, var Guðrún Ólafsdóttir, ættuð af Skagaströnd.

Kona Helga er Valgerður Brynjólfsdóttir bónda á Hreðavatni í Norðurárdal í Mýrasýslu. Hún var fædd á Hreðavatni 4. ágúst 1853. Brynjólfur faðir hennar var Einarsson hreppstjóra á Hreðavatni Bjarnasonar, og konu hans Valgerðar Brynjólfsdóttur bónda á Sámsstöðum í Hvítársíðu. Móðir Valgerðar, kona Brynjólfs á Hreðavatni, var Guðrún Hannesdóttir bónda á Balaskarði í



*Helgi Sigurðsson og Valgerður Brynjólfsdóttir.*

Húnavatnssýslu, Jónssonar, og konu hans Guðrúnar Ólafsdóttur.

Helgi var tekinn í fóstur á þriðja ári af hjónunum Jóni Jónssyni og Guðbjörgu Halldórsdóttur á Tungu í Gönguskörðum í Skagafjarðarsýslu, var þar 15 ár, fór 1862 að Þingeyrum til ekkju Magnúsar Olsens klausturhaldara og var þar tvö ár, og svo á ýmsum bæjum þar til hann kvæntist árið 1873. Hann flutti frá Kirkjubæ í Húnavatnssýslu til Vesturheims árið 1893, fór til Mikleyjar, nam þar land og nefndi Sandnes.

Af þrettán börnum þeirra hjóna lifa þrjú: 1. Þor-

steinn Brynjólfur; kona hans, sem er látin, hét Guðríður Jóhannesdóttir, ættuð af Skaganum í Húnavatnssýslu. 2. Anna Sigríður, gift Þorbergi Brynjólfssyni á Birkilandi. 3. Guðbergur Ástínus. 4. Sigríður, dóttir Helga, stjúpdóttir konunnar, kona Péturs Bjarnasonar á Melstað í Mikley.

**Tómas Ásbjörnsson** á Þingvöllum, fæddur í Hermundarfellsseli í Þistilfirði 29. desember 1855. Ásbjörn faðir hans bjó á ýmsum bæjum í Þistilfirði; hann var Tómasson,



*Tómas Ásbjörnsson og Karólína Ólafsdóttir.*

Jónssonar, Bessasonar, og var sú ætt úr Reykjadal og Eyjafirði. Tómas bjó í Hermundarfellsseli og víðar, síðast á Smirlafelli á Langanesströnd. Hann var þrígiftur; fyrsta kona hans hét Helga Bessadóttir Helgasonar, ættuð úr Eyjafirði, og áttu þau fimm börn, þrjá syni og tvær dætur. Bessi bóndi á Grímsstöðum í Þistilfirði flutti vestur um haf til Mikleyjar, bjó um tíma í Ingólfsvík; annar sonurinn hét Jón, þriðji Ásbjörn, faðir Tómasar á Þingvöllum. Kona hans, móðir Tómasar, hét Rósa Vilhjálmsdóttir, ættuð af Langanesströnd.

Tómas ólst upp á Langanesströndum og í Þistilfirði. Hann bjó á Hrollaugsstöðum á Langanesi átta ár, flutti þaðan til Vesturheims árið 1887, settist að í Mikley og nam land er hann nefndi Þingvelli. Hann er tvígiftur; hét fyrri kona hans Kristveig Jónsdóttir, dáin 1880; hún var systir E. H. Johnson í Spanish Fork, Utah, og Guðmundar, sem líka er í Utah. Seinni kona Tómasar er Karolína Ólafsdóttir, fædd á Skjaldartröð í Snæfellsnessýslu 30. júní 1862; þau giftust fyrsta sunnudag eftir páska, 13. apríl 1890; áttu tvær dætur, hét sú eldri Lydia Ásta, er dó 5 ára gömul, skarp gáfað barn; sú yngri dó nýfædd.

**Helgi Ásbjörnsson** á Helgastöðum, bróðir Tómasar á Þingvöllum, fæddur á Hvappi í Þistilfirði 20. marz 1861. Hann var tekinn til fóstur missirisgamall af Bessa Tómassyni föðurbróður sínum á Grímsstöðum í Þistilfirði; þar var hann 25 ár. Hann kvæntist 7. desember 1885 Margrétu Stefánsdóttur bónda á Brekknakoti í Þistilfirði, Gíslasonar. Hún var fædd á Kérastöðum í Þistilfirði 7. marz 1860. Stefán faðir hennar dó í Leith á Skotlandi á leið til Ameríku árið 1904. Hann var bróðir Gunnars Gíslasonar, nafnkends fræðimanns.



*Helgi Ásbjörnsson*

Helgi flutti frá Brekknakoti vestur um haf til Mikleyjar árið 1887, var fyrsta veturinn þar á Reynistað hjá Helga Tómassyni föðurbróður sínum, nam svo land næsta vor (1888) og nefndi Helgastaði. Þar hefir hann búið síðan.

Börn þeirra hjóna voru sjö og lifa fjögur: Ólafur, býr á Skjaldartröð, og er kona hans Kristín Guðmundsdóttir, ættuð af Vestfjörðum; Guðrún Vilhelmína, kona Þorleifs á Skógarnesi; Járnbrá Júlíana, gift Ingólfi Eiríkssyni, og búa þau á Helgastöðum; Stefán, hann fór í stríðið, var í sjó- og landhernum og kom heim í lok ágústmánaðar 1919.

Helgi Ásbjörnsson hefr tekið mikinn og góðan þátt í safnaðarmálum Mikleyjarbúa, hefir styrkt þann félagsskap alt hvað hann hefir getað.



*Margrét Stefánsdóttir og dætur hennar.*

**Vilhjálmur Ásbjörnsson** á Helgastöðum, bróðir Tómasar og Helga Ásbjörnssona, fæddur á Dalhúsum á Langanesströnd 16. nóvember 1854. Hann var hjá foreldrum sínum til þess hann var 14 ára, fór þá til séra Gunnars Gunnarssonar og frú Valgerðar konu hans, dóttur séra Þorsteins Pálssonar á Hálsi, og var hjá þeim á Sauðanesi og Svalbarði í 5 ár; þá var séra Gunnari veitt Lundarbrekku prestakall í Bárðardal. En á leiðinni þangað veiktist hann og dó á Ljósavatni. En ekkjan flutti á prestssetrið Halldórsstaði og þar var Vilhjálmur hjá henni þrjú ár. Að þeim liðnum fór hann til Bessa föðurbróður síns að Grímsstöðum í Þistilfirði og var þar 3 ár. Hann kvæntist árið 1878 Sigfríði Tómasdóttur, er dó 25. marz 1907. Árið 1879 fluttu



Vilhjálmur Ásbjörnsson

þau að Hrollaugsstöðum á Langanesi og bjuggu þar til þess er þau fluttu vestur um haf til Mikleyjar 1887. Fyrsta veturinn var hann á Reynistað hjá Helga föðurbróður sínum, setti heimilisrétt á Helgastaða landið vorið 1888 og hefir búið þar síðan. Af fimm börnum hans lifa tvær dætur, giftar þar í Mikley: Sigríður, kona Eggerts Ó. Þórðarsonar á Höfða, og Helga, kona Ingólfs Pálssonar á Hóli.

**Eggert Sigurgeirsson** á Sunnuhvoli, fæddur á Grund í Eyjafirði 9. desember 1861. Faðir hans var séra Sigurgeir, prestur til Grundar og Möðruvalla sóknar, dáinn 1887. Jakobsson, umboðsmanns á Breiðumýri í Reykjadal í Þingeyjarsýslu, Péturssonar.

Þeir feðgar, Pétur og Jakob, voru hagorðir, og orti sá fyrrnefndi eitt sinn vísu á ferð yfir Hvammsheiði:

Heiði Hvamms af hófum dengd,
— hestar af mæði skjálfa,—
átta sinnum er á lengd
við eilífðina sjálfa.

Þrjár vísur orti Jakob á ferð yfir Axarfjarðarheiði:

Axarfjarðar heiði há
höldum varð að mæði,
brekkur harðar fæla frá
fákum gjarða næði.

Hraun úr götum hrufar hóf,
hregg með jötun órum,
kastar flötum gróf úr gróf
grimdar hvötu jórum.

Yfir þjóta eldingar,
undir grjótið skelfur.
Mýrar rótast mórauðar,
margar fljóta elfur.

Móðir séra Sigurgeirs á Grund, kona Jakobs á Breiðumýri, hét Þuríður Jónsdóttir bónda á Einarsstöðum í Reykjadal.

Móðir Eggerts á Sunnuhvoli, ekkja eftir séra Sigurgeir, heitir Ingibjörg, fædd í Garði í Fnjóskadal 20. maí 1838. Foreldrar hennar voru Jón Árnason bóndi á Naustum í Eyjafirði, og kona hans Þórunn Jónsdóttir bónda á



Botni í Eyjafirði. Árni faðir Jóns á Naustum bjó á Búrfelli í Svarfaðardal.

Eggert fluttist til Vesturheims árið 1888, var fyrst í Winnipeg 16 mánuði og svo á Gimli til þess hann flutti sig til Mikleyjar árið 1892, nam þá land og nefndi Sunnuhvol, hefir síðan búið félagsbúi með móður sinni og systkinum. Hann er skýr og vel greindur maður, svo sem móðir hans og systkini.

Á Birkilandi var frumbyggjari **Friðbjörn Stefánsson,** norðlenzkur maður. Flutti frá Bakkagerði í Jökulsárhlíð í Norðurmúlasýslu til Vesturheims 1876. Sonur hans, Stefán kom með föður sínum vestur, var nokkur ár í Winnipeg og flutti svo vestur að hafi. Hvaða ár eða hvar Friðbjörn faðir hans dó, er mér ekki ljóst.

**Guðmundur Guðmundsson,** frumbyggjari á Bjargi, var fæddur á Útibleiksstöðum í Miðfirði í Húnavatnssýslu 9. júní árið 1847. Faðir hans var Guðmundur, síðast bóndi á Reykjum í Miðfirði, Björnsson, bónda í Dalkoti á Vatnsnesi, og konu hans Oddnýjar Guðmundsdóttur. Móðir Guðmundar á Bjargi, kona Guðmundar á Reykjum, Kristín Einarsdóttir bónda í Gröf á Vatnsnesi og konu hans Ingibjargar Guðmundsdóttur.

Guðmundur fór frá foreldrum sínum 12 ára gamall, vann fyrir sér hjá ýmsum til þess hann var 21 árs gamall; þá fór hann að Hnausakoti í Húnavatnssýslu til Halldórs Friðrikssonar Reykjalíns, og var vinnumaður hjá honum eitt ár. Hann kvæntist sumarið 1872 Guðrúnu Magnúsdóttur ættaðri úr Miðfirði; hún var fædd 1845, dáin 25. júní 1891. Af sjö börnum þeirra eru tveir synir á lífi: Ólafur, fæddur á Hnausakoti 2. september 1875, og Halldór, fæddur á Bjargi í Mikley 19. febrúar 1878.

Guðmundur bjó, eftir að hann giftist, á Hnausakoti 4 ár. Flutti til Vesturheims 1876, fór til Mikleyjar og var á Reykjanestanganum suðvestan á eyjunni fyrsta veturinn. Næsta vor, 1877, nam hann land og nefndi Bjarg. Þaðan flutti hann til Dakota, var fyrsta veturinn þar hjá Halldóri Reykjalín, sem þá var búinn að nema land í Mountainbygð. En vorið 1881 nam hann næsta land við Halldór og nefndi Bjarg, eftir heimili sínu í Mikley.

**Hildur Kristjana Jakobsdóttir** á Bjargi, fædd í Unaðsdal á Snæfjallaströnd á pálmasunnudag 4. apríl 1852. Faðir hennar var Jakob, síðast bóndi á Skarði á Snæfjallaströnd,



*Hildur Kristjana Jakobsdóttir*

dáinn 1870, Þorsteinsson bónda í sömu sveit, Halldórssonar. Þessir langfeðgar er sagt að hafi verið þektir að því að vera mörgum framar með aðgæzlu á sjó, bæði að stýra skipum og við alla varkárni, sem á sjó þarf að hafa. Móðir Jakobs, föður Hildar, hét Guðrún Sigurðardóttir, ættuð af Snæfjallaströnd. Móðir Hildar, kona Jakobs, hét Guðrún Hjaltadóttir, prests Þorlákssonar. Hún dó í Steinnesi í Mikley hjá Páli syni sínum árið 1900.

Hildur fór frá foreldrum sínum 10 ára gömul til frændkonu sinnar Ragnhildar Jakobsdóttur í Æðey, konu Rósenkrans Árnasonar, nafnkends bónda þar, og var þar þrjú ár, fór svo vestur í Dýrafjörð og var þar sjö ár, en þaðan norður að Arnardal við Ísafjörð og var þar 20 ár, Hún giftist 24 ára gömul Guðjóni Jónssyni bónda í Arnardal. Hann dó árið 1890. Þau áttu níu börn, af hverjum fjögur lifa: 1. Jón, býr á Hlíðarenda í Mikley, kvæntur Guðrúnu Þorvaldsdóttur ættaðri úr Mýrasýslu; 2. Jóhann Kristján, býr með móður sinni; 3. Jakobína Guðrún, gift skozkum manni vestur við haf; 4. Jens, býr skamt frá móður sinni. Bær hans er nefndur Ytra Bjarg, en bær móður hans Syðra Bjarg. Kona Jensar heitir Bjarngerður Eyjólfsdóttir, ættuð af Suðurlandi.

Hildur flutti tveimur árum eftir lát manns síns frá Arnardal til Vesturheims 1892, með sjö börnum sínum, sem hún þá átti á lífi; þrjú hafa dáið hér í landi. Hún fór strax til Mikleyjar, þegar vestur kom. Henni er í minni, að báturinn, sem hún fékk far á frá Selkirk til Gimli, var nærri ónýtur, en komst þó alla leið með farþegja slysalaust.

Hildur var á Steinnesi hjá Páli bróður sínum fyrsta veturinn í Mikley, en flutti þaðan að Bjargi næsta vor (1893) og hefir búið þar síðan.

**Hjálmar Hjálmarsson** kom frá Íslandi 1876, settist að í Mikley, nam land og nefndi Hól. Hann kól á fótum bóluveturinn, flutti frá Mikley til Winnipeg og þaðan eftir nokkur ár til Þingvallanýlendunnar í Saskatchewan.

**Brynjólfur Jónsson**, fæddur í Þórisdal í Lóni í Skaptafellssýslu 17. ágúst 1848, dáinn í Ingólfsvík í Mikley 26. desember 1917. Foreldrar hans voru þau Jón Brynjólfsson og Ingibjörg Ketilsdóttir. Brynjólfur og Guðbrandur Erlendsson í Hallson-bygð í Norður Dakota, voru systkinasynir. Kona Brynjólfs, sem lifir mann sinn, er Katrín Magnúsdóttir bónda á Stórulág í Nesjum í Austur Skaptafellssýslu, og konu hans Guðrúnar Þórðardóttur. Katrín er komin af Hjalta Skeggjasyni í 29. lið. Börn Brynjólfs og hennar voru tólf, en eru nú sex á lífi: 1. Guðrún, gift enskum manni, McRobertson, búa í Winnipeg; 2. Guðný, gift Hannesi Thompson, búa í Winnipeg; 3. Jórunn, gift enskum manni í Austur-Selkirk; 4. Þorbergur, býr á Birkilandi, og er kona hans Anna Sigríður Helgadóttir bónda á Sandnesi; 5. Magnússína, gift E. Perry, enskum manni vestur við haf; 6. Márus, býr með móður sinni í Ingólfsvík.

Brynjólfur flutti til Ameríku 1884, var kominn til Mikleyjar 10. ágúst. Setti hann heimilisrétt á landið Hól og bjó þar í 15 ár, flutti að þeim tíma liðnum að Ingólfsvík og bjó þar til þess hann lézt.

Frumbyggi á Melstað var **Halldór Friðriksson Reykjalín,**. Kom frá Íslandi til Mikleyjar 1876, flutti þaðan til Dakota, nam þar land í Mountain-bygð, en er nú látinn fyrir mörgum árum.

**Egill Guðbrandsson,** ættaður af Vesturlandi, kom frá Íslandi til Mikleyjar 1876; hann bygði á Melstaða landi bæ og nefndi Egilsstaði; til Winnpieg flutti hann 1882, settist að á Rauðárbakka sléttunni syðst og austast í bænum, er látinn fyrir ekki mörgum árum. Hann var valmenni, léði mönnum húsaskjól þó lítið pláss hefði, gaf svöngum að eta og hjálpaði þeim, sem bágt áttu, af sönnum kærleika.

**Benedikt Pétursson,** úr Norðurmúlasýslu. Hann lærði skósmíði á Íslandi, stundaði þá iðn á Seyðisfirði um tíma, flutti þaðan til Ameríku 1876. Hann fór til Mikleyjar, nam land og nefndi Lund. Sambýlismaður hans þar var **Kristján Jónsson** frá Geitareyjum. Þeir bjuggu í Lundi veturinn 1877—78 og höfðu þá komið sér upp stóru og all-reisulegu húsi, því Kristján var afbragðs smiður.

Benedikt var fluttur frá Mikley í maí 1879 austur fyrir vatn til Bad Throat River, og svo flutti hann þaðan eftir lítinn tíma til Winnipeg, og eftir nokkurra ára dvöl þar til Dakota og bjó í Akra-bygð eitthvað um þrjú ár. Þá stundaði hann iðn sína á Gimli um tíma og seinast að

Garðar í Norður Dakota, þar sem hann lézt. Kona Benedikts hét Sigurbjörg Sigurðardóttir, föðursystir Sigtryggs Jónassonar og þeirra systkina, mjög mikilhæf og góð kona, sem hún átti kyn til. Hún er nú dáin fyrir allmörgum árum. Benedikt var gáfumaður og vel kyntur. Hann og séra Einar Jónsson á Hofi í Vopnafirði voru systrasynir. — Börn þeirra Benedikts og Sigurbjargar voru tvö: Ingibjörg, er giftist Sveinbirni Guðmundssyni úr Mountain-bygð í Norður-Dakota, dáin fyrir mörgum árum; og Tryggvi, kvæntur í Winnipeg en dáinn að Garðar, N.D., hjá foreldrum sínum fyrir allmörgum árum.

**Helgi Sigurður Tómasson á** Reynistað, fæddur í Hermundarfellsseli í Þistilfirði 26. desember 1847, dáinn 27. júlí 1909. Hann var föðurbróðir Tómasar og Helga og Vil-



*Helgi Tómasson og Margrét Þórarinsdóttir.*

hjálms Ásbjarnarsona, sem getið er hér að framan. Móðir hans, önnur kona Tómasar, hét Kristín Bessadóttir, var systir Helgu fyrstu konu hans.

Helgi giftist á Svalbarði í Þistilfirði 25. júní 1876, Margrétu Þórarinsdóttur bónda á Vestaralandi í Axarfirði (d. 1859) Einarssonar bónda í Klifshaga í sömu sveit.

Kona Þórarins, móðir Margrétar, hét Rósa Vigfúsdóttir bónda á Birgi í Kelduhverfi. Margrét var fædd á Vestaralandi 9. ágúst 1841. Enginn nema hún í Mikley er á lífi af þeim, sem settust þar að 1876. Hún er á Reynistað hjá Kristjáni syni sínum.

Helgi og Margrét fluttu til Ameríku 1876, fóru strax til Mikleyjar, urðu Sigurði Erlendssyni samferða þangað. Fyrsta veturinn þar voru þau á Helgavatni, fluttu að Helgastöðum næsta vor; ætlaði Helgi að setja á það land heimilisrétt, en hætti við. Næstu árin voru þau á ýmsum bæjum: Söndum, Steinnesi, Skógum. Fluttu á landið, sem Helgi setti heimilisrétt á, miðvikudaginn síðastan í vetri (18. apr.) 1883 og nefndu Reynistað, eftir reyniviðarhríslu, sem Margrét fann og þótti mjög falleg.

Börn Helga og Margrétar voru fjögur: Kristín Þóra, kona Vilhjálms Sigurgeirssonar í Mylnuvík, látin; Rósa Elínborg, dó á fjórða ári. Á lífi eru: Kristján, kaupmaður og póstmeistari á Reynistað, giftur Sigþóru Þorláksdóttur, ættaðri úr Axarfirði; og Gunnar, býr á Reynistað, og er kona hans Kristín Kristmundsdóttir bónda á Kirkjubóli.

Helgi var maður vel að sér. Hann vann trúlega að öllum félagsmálum eyjarbúa. Póstafgreiðslu hafði hann frá því pósthús fékst á eyjuna þar til hann lézt.

**Vilhjálmur Sigurgeirsson** í Mylnuvík, fæddur á Grund í Eyjafirði 15. október 1863. Foreldrar hans voru séra





*Vilhjálmur Sigurgeirsson og Kristín Þóra Helgadóttir.*

Sigurgeir Jakobsson og kona hans Ingibjörg Jónsdóttir. (Sjá ætt þeirra hér að framan í þætti Eggerts á Sunnuhvoli, bróður Vilhjálms.)

Vilhjálmur ólst upp hjá foreldrum sínum á Grund og fór þaðan til Ameríku 1888. Var fyrstu árin hér í landi á Gimli, fór þaðan til Mikleyjar og nam þar land, sem nú er nefnt Mylnuvík. Kona Vilhjálms var Kristín Þóra Helgadóttir frá Reynistað, áður nefnd, d. í feb. 1907. Börn þeirra voru níu, sjö eru á lífi: 1. Sigurgeir Rósberg, kvæntur Kristbjörgu Márusdóttur Doll, búa í Ísafoldarbygð; 2. Helgi, 3. Theodór, 4. Guðleif, 5. Kristinn, 6. Ingibjörg, 7. Þórður.

**Magnús Hallgrímsson,** fæddur á Syðritjörnum í Staðarbygð í Eyjafjarðarsýslu 1834, dáinn 1890. Faðir hans var Hallgrímur Sigurðsson bóndi á Brekku í Kaupangssveit og síðar á Mýrarlóni í Lögmannshlíðarsókn í Glæsibæjarhrepp, látinn á Hesjuvöllum í sömu sveit hjá Sigurbirni syni sínum 1872. Sigurður faðir Hallgríms bjó á Arnarstöðum í Eyjafirði. Kona hans hét Þorgerður Markúsdóttir bónda á Hlöðum í Möðruvallasókn, Markússonar líka bónda á Hlöðum, kallaður stóri Markús. Sagt var við hann stundum í spaugi, að hann væri tröllakyns. Móðir Magnúsar, kona Hallgríms, hét Guðrún Þorsteinsdóttir bónda í Myrkárdal í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu.

Magnús bjó á ýmsum bæjum í Eyjafjarðarsýslu, var í nokkur ár póstur á milli Akureyrar og Reykjavíkur, bjó þá á Akureyri. Þaðan flutti hann til Ameríku 1874, var eitt ár í Ontario , fór þaðan til Nýja Íslands 1875, var fyrsta veturinn þar á Gimli; vorið 1876 nam hann land í Mikley og nefndi Ingólfsvík, eftir syni sínum Ingólfi, sem heitinn er eftir Ingólfi landnámsmanni, af því hann var fæddur á þjóðhátíðardaginn 1874.

Magnús bjó í Ingólfsvík til þess er hann flutti yfir að Íslendingafljóti og nam þar land er hann nefndi Nes; þar bjó hann til dauðadags. Kona Magnúsar hét Sesselja, dáin 1912, þá 79 ára gömul. Af fimm börnum þeirra lifa tveir synir: Ingólfur, býr í Selkirk, kvæntur Önnu Kristínu Jónsdóttur, ættaðri úr Húnavatnssýslu; Ármann, býr í Víðirbygð, kvæntur Ásgerði Jóhannesdóttur Jónassonar.

**Þorsteinn Kristjánsson,** fæddur í Skriðukoti í Haukadal 1827, dáinn 1897. Faðir hans, Kristján Kristjánsson, bjó í Dölunum. Móðir Þorsteins hét Steinunn.



Þorsteinn flutti frá Skallhóli í Miðdölum til Ameríku 1878, fór til Mikleyjar, og var á ýmsum bæjum þar til þess er hann árið 1883 settist að í Ingólfsvík og bjó þar til þess hann dó. Hann var tvígiftur, hét fyrri kona hans Guðbjörg; þau áttu sjö börn og eru nú þrjú af þeim á lífi: Kristjana, kona Kristmundar á Kirkjubóli, og tvö heima á Íslandi. Seinni kona Þorsteins var Valgerður Sveinsdóttir, ættuð úr Dalasýslu. Þau giftust 1877 og áttu fimm börn, lifa þrjú: Jón, býr í Selkirk, kvæntur Rósu Gunnarsdóttur; Júlíana, gift Benjamín Guðmundssyni í Árborg, Man. Hermann býr með móður sinni í Riverton.

**Páll Jakobsson** á Steinnesi, fæddur á Snæfjöllum á Snæfjallaströnd 12. maí 1857. Páll er bróðir Hildar á Bjargi og er ætt þeirra systkina rakin í þætti Hildar.

Páll fluttist frá Berjadalsá á Snæfjallaströnd til Ameríku 1887, kom til Winnipeg 2. ágúst, fór til Mikleyjar, nam land og nefndi Steinnes. Börn Páls og Guðrúnar Jensdóttur eru fjögur: Gestur, býr á Öldulandi, kvæntur Önnu Bogadóttur Sigurgeirssonar prests á Grund; Bergþór Gerald, Þosteinn Jens, Matthildur Elísabet.

Dóttir Páls, sem Jóhanna hét, druknaði af skipinu "Princess", þegar það sökk á Winnipeg-vatni árið 1906. Hún var matreiðslukona á skipinu. Fleiri druknuðu, en sumum varð bjargað.

**Halldór Halldórsson,** fæddur í Stórugröf í Stafholtstungum 3. febrúar 1832, dáinn 24. ágúst 1910. Hann flutti frá Bjargarsteini í Stafholtstungum til Ameríku árið 1878, settist að í Mikley, nam land sem nefnt var Hlíðarhús af Jóni Jónssyni frá Svarfhóli í Stafholtstungum, er nam það fyrst, en slepti því og gaf Halldóri eftir rétt sinn til þess.

Kona Halldórs hét Guðrún Guðmundsdóttir, ættuð úr Borgarfjarðarsýslu. Hún dó árið 1880; þau áttu sex börn, eru þrjú í Mikley: Jóhannes, býr í Hlíðarhúsum, kvæntur Margrétu Magnúsdóttur frá Hróarstöðum í Axafirði; Sigríður, kona Bjarna Stefánssonar á Grund í Mikley; Sigurlín, kona Jóns Sigurgeirssonar á Söndum. Hin þrjú systkinin eru: Þorsteinn, býr í Toronto, á enska konu; Elín, ekkja eftir danskan mann í Moose Jaw, Sask.; og Guðrún.

**Jón Sigurðsson,** fæddur á Oddastöðum í Kolbeinsstaðahrepp í Hnappadalssýslu 1843. Foreldrar hans voru Sig-

urður Sigurðsson, bóndi á Oddastöðum, og Brynhildur Þorsteinsdóttir Erlendssonar prests í Hellnaþingum í Snæfellsnessýslu.

Jón var kvæntur nokkurum árum áður en hann fór til Ameríku, Guðbjörgu Guðbrandsdóttur Magnússonar bónda á Hólmlátri á Skógaströnd og konu hans Kristínar Guðmundsdóttur. Guðbjörg var fædd 29. júní 1834, er þrígift; fyrsti maður hennar hét Teitur Stefánsson, bjó á Ytra-Leyti á Skógaströnd, og áttu þau tvö börn: Stefán, er dó í Winnipeg, og Kristínu, konu Bárðar Sigurðssonar frá Æsustöðum í Eyjafirði; þau búa í Winnipeg; áður var Kristín gift Jóni Stefánssyni frá Klettakoti á Skógarströnd. Hann varð fyrir járnbrautarvögnum og beið bana af 29. desember 1897. Annar maður Guðbjargar hét Helgi Helgason.

Jón og Guðbjörg bjuggu á Ytra-Leyti nokkur ár, en fluttu þaðan til Ameríku 1876 og settust að í Mikley. Fyrsta veturinn voru þau í sama húsi og Kristján frá Geitareyjum. Næsta vor (1877) nam Jón land og nefndi Jónsnes. Hafði búið þar eitt ár, þegar hann á annan í páskum (22. apríl 1878) fór fyrir nágranna sinn, sem var veikur, að vitja um net hans í íssprungu, en ísinn var veikur og brotnaði, og druknaði Jón þar. Hann lét eftir sig ekkjuna og tvö stjúpbörn og tvö fósturbörn. En börn Jóns og Guðbjargar voru fimm, dóu tvö í Mikley úr bólunni, en tvö á Íslandi. Sonur þeirra, sem Jón Teitur heitir, býr í Winnipeg, kvæntur enskri konu.

Guðbjörg flutti fjórum árum eftir að maður hennar druknaði frá Mikley til Winnipeg, er nú þar hjá dóttur sinni Kristínu og manni hennar Bárði Sigurðssyni.

**Stefán Jónsson,** fæddur á Einarsstöðum í Reykjadal 28. júní 1831, dáinn 10. febrúar 1910. Foreldrar hans voru Jón, bóndi á Einarsstöðum, Jónsson bónda á Breiðumýri í sömu sveit, og kona hans Guðbjörg Markúsdóttir bónda í Kræklingahlíð í Eyjafirði.

Stefán ólst upp hjá foreldrum sínum. Hann kvæntist 30. júní 1851, Björgu Kristjánsdóttur, bónda á Sigríðarstöðum í Ljósavatnsskarði, Arngrímssonar, bónda á sama bæ. Móðir Bjargar, konu Kristjáns, hét Helga Skúladóttir prests í Múla í Aðal-Reykjadal, Tómassonar og konu hans Þórvarar Sigfúsdóttur prófasts í Höfða í Höfðahverfi.

Stefán bjó á Hólum í Reykjadal 13 ár, svo í Flatey á Skjálfandaflóa 9 ár. Hánn ætlaði til Ameríku 1873, en af því varð ekki. Bjó hann eftir það í Garði í Aðaldal fimm ár, en flutti vestur um haf 1878, settist að í Mikley, og var tvö ár á Borðeyri; þaðan flutti hann upp til Austur Selkirk, var þar tvö ár og hálft, fór að þeim tíma liðnum aftur til Mikleyjar, setti heimilisrétt á Jónsnes og bjó þar til þess er hann árið 1906 flutti að Ingólfsvík, hvar hann andaðist fjórum árum síðar.

Börn Stefáns og Bjargar voru fimm: 1. Helga, maður hennar er Eiríkur Davíðsson frá Flatey á Skjálfandaflóa, og er sonur þeirra Stefán, tinsmiður í Selkirk; 2. Kristjana, hún var tvígift, hét fyrri maður hennar Kristján og dó á Íslandi, seinni maðurinn var enskur, bjó í Austur Selkirk, bæði nú látin; 3. Jónína Guðbjörg, líka látin, var gift enskum manni í Duluth; 4. Þuríður Sigurlaug, látin, átti enskan mann, bjuggu í Winnipeg; 5. Kjartan Ísfeld, hann var skipstjóri á gufubátum á Winnipegvatni, druknaði fyrir 13 árum, var kvæntur Vilhjálmínu dóttur séra Odds Gíslasonar.

Björg, ekkja Stefáns, er fædd 11. maí 1830; hún er hjá Helgu dóttur sinni í Winnipeg.

**Jón Jónsson**, fæddur á Svarfhóli í Stafholtstungum í Mýrasýslu 1. febrúar 1846. Faðir hans var Jón Halldórsson, bóndi á Svarfhóli, en móðir Helga Jónsdóttir bónda í Stafholti, Oddssonar.

Jón ólst upp hjá foreldrum sínum á Svarfhóli, kvæntist 1871 Sigríði Jónsdóttur bónda á Hömrum í Hraunhreppi í Mýrasýslu og konu hans Þorbjargar Ólafsdóttur. Sigríður er fædd 1. febrúar 1844.

Jón bjó sex ár á Hofsstöðum í Stafholtstungum og eitt ár á Uppsölum í Norðurárdal. Þaðan flutti hann vestur um haf árið 1878, var kominn til Mikleyjar 26. ágúst; var fyrsta veturinn þar á bæ, sem Fjörubrekka nefndist, nam land vorið 1877 og nefndi Hlíðarhús og bjó þar tvö ár, gaf eftir rétt sinn til landsins Halldóri Halldórssyni frá Bjargarsteini í Stafholtstungum, sem áður hefir verið getið. Að Grund flutti hann 1879 og bjó þar til þess hann árið 1905 flutti til Grunnavatnsbygðarinnar, nam land og bjó þar til þess hann árið 1913 flutti til Loni Beach við norðurenda Gimlibæjar og býr þar nú. Þau hjón eiga fjögur börn á lífi: Jón H. Johnson, fiskikaupmann að Amaranth, Man.;

Arnljotur B. Olson

Þorbjörg, kona Jóhannesar Sigurðssonar kaupmanns á Gimli; 3. Stefanía; 4. Ólavía.

**Eftirmáli .**

Það sem fyrst verður séð um kirkjulega starfsemi á eyjunni, er það, að séra Jón Bjarnason kemur þangað 22. nóvember 1877, þá nýfluttur til Nýja Íslands. Hann heldur guðsþjónustu í húsi Benedikts Péturssonar á Lundi þann 25. (á sunnudag). Var þar saman komið um 50 manns. Í guðsþjónustulok voru börn spurð, og að því loknu var haldinn fundur til að tala um safnaðarmál.

Næsta vetur, á laugardag 16. febrúar 1878, kom kandídat Halldór Briem út í eyjuna. Hann prédikaði í Lundi á sunnudaginn. Fjöldi fólks var við messu. Að lokinni messu yfirheyrði hann börn, og þótti þau fremur vel að sér. —Þá voru á eyjunni tuttugu og fimm búendur, en fækkuðu stuttu þar á eftir á útflutningaárunum, svo safnaðarlíf er í dái í nokkur ár.

Í febrúarmánuði 1886 kom séra Jón Bjarnason út í Mikley, eftir beiðni nokkurra bænda þar. Hann hélt guðsþjónustu og gerði ýms prestsverk. Hvatti hann menn þá til að fara að hugsa frekar um safnaðarmál, og þar af leiddi að fundur var haldinn 14. febrúar til að ræða um safnaðarmál, prestsþjónustu og fleira. Á þeim fundi skrifuðu sig nokkrir í söfnuð, sem stæði í sambandi við hið þá fyrir ári síðan stofnaða kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi, og voru menn þá kosnir til að semja safnaðarlög o. s. frv. Svo var haldinn fundur 22. marz og voru þá safnaðarlögin samþykt og undirskrifuð af flestum eyjarbúum. Safnaðarfulltrúar voru kosnir: Jóhannes Helgason, Jón Jónsson, Sigurgeir Stefánsson, Ragnheiður Þorláksdóttir (féhirðir), meðhjálpari og skrifari Lárus Helgason, aðstoðar meðhjálpari Stefán Friðbjörnsson. Tala safnaðarlima var þá 26 fullorðnir. Söfnuðurinn, í sambandi við utansafnaðarmenn, keypti samkomuhús úr söguðum við, 24 fet á lengd og 18 á breidd.

Hið næsta sem sést um safnaðarmál á eyjunni er, að fundur er haldinn 27. janúar 1888 og safnaðarlög samþykt. Fulltrúar eru þá Helgi Tómasson, Jóhannes Helgason og Stefán Friðbjörnsson.

Kirkja Mikleyjarsafnaðar var vígð 14. september 1902. Búið var þá að stofna sunnudagsskóla og þeim

haldið við á sumrum, á vetrum að eins fermingarbörn uppfrædd á sunnudögum á tveggja vikna millibili.

Barnaskóli er á eyjunni í þrjá mánuði veturinn 1885—86. Kennarinn heitir Þorfinnur Þorsteinsson, lipur maður og vel að sér, hefir í kaup um mánuðinn 9 dollara auk fæðis. Skólanum var haldið uppi af fríum samskotum; nutu kenslu við hann um 20 börn.

Barnaskóli var haldinn á Reynistað vetrarlangt áður en skólahérað var stofnað; það er búið að stofna það árið 1891. Fyrsti kennari var Jón skáld Runólfsson.

Bændur á Mikley voru 30 árið 1886. Sendu þeir þá bænarskrá til póststjórnarinnar um að fá pósthús, og fékst það. Pósthús er fengið á Reynistað næsta ár, 1887.

Kvenfélag, sem heitir Undina, var stofnað á eyjunni 4. marz 1886. Stofnendur voru: Jakobína Sigurðardóttir, Jóhanna Jónsdóttir, Björg Kristjánsdóttir, Margrét Tómasson, Margrét Jónsdóttir, Sigríður Þorsteinsdóttir, Elínborg Elíasdóttir, Guðrún Kristjánsdóttir, Hólmfríður Jósepsdóttir, Þorbjörg Guðmundsdóttir, Valgerður Sveinsdóttir, Sesselja Friðbjörnsdóttir, Guðný Sigmundsdóttir, Sigríður Jónsdóttir.

Á fundi, sem kvenfélagið hélt 15. október árið 1895, voru kosnar fimm konur í nefnd til að kaupa bækur til fróðleiks, með þeirri hugmynd að stofna lestrarfélag; í nefndinni voru Mrs. Oddfríður Jónsson, Mrs. Kristjana Þórðarson, Mrs. Margrét Tómasson, Mrs. Sigríður Jónsson.

Á fundi 6. febrúar 1896 var ákveðið, að lestrarfélagið skyldi verða almenningseign og látið heita "Morgunstjarnan". Bókavörður var Mrs. Kristjana Þórðarson. Á þeim fundi voru lög félagsins samin.

Í tilliti til að fá atvinnu og fá sagaðan við til húsabyggingar, sýndist það vera hagur fyrir frumbyggja Miklejar, að sögunarmylna var þar þegar þeir settust þar að árið 1876, en það var öðru nær. Mylnueigendur reyndust eyjarbúum hið versta, sviku suma er unnu hjá þeim um verkalaun, og hjuggu niður tré hjá húsum manna, er bændur ætluðu að láta standa og jafnvel hótuðu að taka tré, er landeigendur sjálfir voru búnir að fella og höfðu fullan rétt til. Snemma í desember árið 1878 tóku þeir með valdi 200 viðarbjálka, er eyjarmenn höfðu felt og bútað til kirkjubyggingar, og svo jókst ofbeldi mylnueigenda, að í janúar 1879 var álitið að menn gætu ekki lengur búið undir slíku, ef þeir næðu ekki rétti sínum.

Aðal atvinnuvegur Mikleyjarbúa hefir hingað til verið fiskiveiði. Byrjað er nú að rækta korn þar, þó ekki sé í stórum stíl enn. Það sem ræktað hefir verið, hefir hepnast vel, því jarðvegur er feitur.

Fagra og slétta velli hafa menn þar út frá heimilum sínum, er gefa af sér gott og mikið hey.

**Björn ólafur Björnsson.**

Hann var fæddur á Álftatungu í Álftaneshreppi í Mýrasýslu 26. júní 1866. Foreldrar hans voru Björn Björnsson og Guðrún ólafsdóttir, bónda í Álftatungu, Brandssonar bónda á Saurum í Hraunhreppi og konu hans Guðrúnar Sveinsdóttur bónda í Álftatungu.



*Björn Ólafur Björnsson og Jensína Bjarnadóttir.*

Björn var ekki fæddur, þegar faðir hans dó. Móðir hans giftist fáum árum síðar Sveini Sveinssyni bónda í Álftatungu í 30 ár. Þeirra sonur, Ásgeir Júlíus, býr í Winnipeg, stundar kalkarahandverksiðn, kvæntur Valgerði Jónsdóttur Einarssonar bónda í Skildinganesi við Reykjavík og konu hans Ástu Sigurðardóttur.

Björn ólafur ólst upp í Álftatungu hjá móður sinni og stjúpa. Hann kvæntist 25. október 1888 Jensínu Bjarna-

dóttur bónda á Bauluhúsum í Arnarfirði, Símonarsonar og konu hans Sigríðar Markúsdóttur prests á Álftamýri Þórðarsonar. Móðir Sigríðar, kona séra Markúsar, hét Þorbjörg Sveinsdóttir. Sonarsonur séra Markúsar var Mattías Þórðarson, er lengi bjó í Selkirk, nú látinn. Bróðir Jensínu var Markús Bjarnason stofnandi stýrimannaskólans á Íslandi.

Vestur um haf fluttu þau Björn og Jensína árið 1899. Þau voru í Winnipeg þar til þau árið 1904 fluttu til Mikleyjar. Árið 1906 tók Björn að sér póstflutninga á milli meginlands og Mikleyjar, og Bad Throat River fyrir austan vatn. Var búin að hafa það starf á hendi í fjögur ár, þegar æfi hans var úti. Hann druknaði 22. nóvember 1910. Kom sunnan frá Hnausum með netjaefni, sem hann var að sækja fyrir nágranna sinn. Ók eftir landveginum á eyjunni þar til hann kom að Sandnesi, fór þar út á vatnið og ætlaði að fara eftir því það sem eftir var af leiðinni að Breiðabólsstað, þar sem hann bjó. Þegar hann var nærri kominn á móts við Bjarg, breytti hann stefnunni lítið eitt inn til lands; brast þá ísinn, djúpið greip hann sínum heltökum. Líkinu var náð upp næsta morgun.

Björn var vel gefinn maður, fjörmaður, ósérhlífinn, hjálpsamur mjög, og kom fúsleiki hans til að hjálpa öðrum einatt í ljós á póstferðum hans. Hann var gleðimaður, skemtinn í framkomu, var hneigður fyrir söng og hafði fagra söngrödd.

**Draumur.**

Konu nokkra í Ísafoldarbygð, Katrínu að nafni, sem hafði kynst Birni, dreymdi hann skömmu eftir að hann druknaði. Henni sýndist hún sjá hann í hvítum klæðum; bað hún hann að syngja eitthvað fyrir sig, og þótti henni hann syngja samstundis vers, sem hún lærði í svefninum:

Eg hefi íklæðst þér á skírnar degi,
sá skrúði skýlir mér, skaðar synd eigi,
í skærum skrúða þeim skal eg fram ganga
þá drottinn dæmir heim á degi stranga.

Þau Björn og Jensína eignuðust sjö börn, eru sex á lífi: Sigríður Þorbjörg, gift Sigurjóni Markússyni sýslumanni í Suðurmúlasýslu; Bjarni, leikari og leiktjaldamálari; Sveinsína Guðrún, Ólafur Guðni, bankaritari á Royal Bank í Winnipeg; Salóme, gift kona á Íslandi; Jensína, vestur við haf.

## Viðauki við Fljótsbygðar landnámssögu.

**Friðsteinn Sigurðsson**, fæddur á Harðbak á Melrakkasléttu í Norður-Þingeyjarsýslu sunnudaginn í 18. viku sumars (24. ágúst) 1856. Faðir hans var Sigurður Steinsson, Hákonarsonar bónda á Grjótnesi. Móðir Sigurðar hét Sesselja Sigurðardóttir, ættuð úr Vopnafirði. Móðir Friðsteins, kona Sigurðar, hét Friðný Friðriksdóttir Árnasonar, frá Núpi í Axarfirði.

Friðsteinn kvæntist 1875 Sesselju Guðnýju Sigurbjörnsdóttur. Fluttist ásamt foreldrum sínum vestur um haf til Nýja Íslands 1879, var á Gimli fyrsta veturinn. Fyrri part næsta sumars (1880) vann hann á Canada Kyrrahafs járnbrautinni fyrir austan Rat Portage; part af vetrinum 1880—81 vann hann við heybinding í Winnipeg hjá James Penrose, sem mörgum Íslendingum var kunnugur, eins og félagi hans, George Kingsbury, sem þá bjó fyrir norðan Nettle læk, en seinna í Clandeboye. Kaupgjald var 30 dollarar um mánuðinn. Svo vann Friðsteinn um tíma daglaunavinnu í Winnipeg um vorið 1881. En ári seinna, 1882, flutti hann norður að Íslendingafljóti og settist þar að, fékk vinnu hjá Sigtryggi Jónassyni og Friðjóni Friðrikssyni, sem þá voru búnir að kaupa sögunarmylnu, sem sett var upp á landi Sigtryggs, og var byrjað að saga í september 1882. En Friðsteinn vann í skógi veturinn 1882—83, byrjaði um vorið að vinna við mylnuna, en fyrsta daginn, sem hann vann þar, sagaði hann sig í hendina, og hefir hún verið honum ónýt síðan. Frá verkum var hann þangað til í ágúst, að hann gat tekið að sér vökumannsverkið við mylnuna. Tímarnir voru þó erfiðir. Kona hans ól barn tveim dögum eftir að hann slasaðist, heilsaðist þó báðum vel. Svo bætti það mikið úr bágum kringumstæðum, að tveir vinir hans, Þorvaldur Þórarinsson og Guðmundur Finnsson, gengust fyrir samskotum handa honum, sem numdu töluverðri upphæð; svo gaf faðir hans honum eins mánaðar kaup sitt, 40 dollara. Velgjörða þessara manna minnist hann með innilegu þakklæti.

Það sumar (1883) tók Friðsteinn heimilisrétt á Fagranesi, þar sem nú býr Sigfús Björnsson, er tók heimilisréttarland þar skamt frá, en keypti Fagranes.

Friðsteinn flutti að Fagranesi haustið 1883 og var þar til þess um vorið 1886 að hann flutti á land Sigtryggs Jónassonar. Á meðan hann var þar byrjaði hann að verzla, en af því efnin voru ekki nógu mikil til að byrja með, varð

hann að taka vörurnar til láns og lána þær svo aftur fyrir tíma til manna, sem höfðu lítið annað en egg, smjör og kjöt, er alt seldist illa á þeim árum. Sá hann sér því ekki annað fært en hætta við verzlunina, seldi landið, sem hann var búinn að fá eignarrétt á, fyrir 150 dollara og flutti um vorið 1889 til Argyle-bygðar, keypti land og bjó þar til þess að hann flutti aftur til Nýja Íslands 1899. Honum fanst hann kunna þar bezt við sig. Hann seldi land sitt í Argyle, en keypti land Sigtryggs Jónassonar við Íslendingafljót og bjó þar þangað til hann flutti aftur til Argyle árið 1908, þremur árum eftir lát konu sinnar. Hún andaðist í september 1905. Börn þeirra eru: Sigurður, Vilberg Hermann, Árni og Clara; hún er ekkja og á einn son.

Að Friðsteinn flutti úr Fljótsbygðinni til Argyle í annað sinn, var af því, að hans aldurhnignu foreldrar voru þar til heimilis. Og þegar þau voru látin, flutti hann á ný til Nýja Íslands og settist að í þorpinu Riverton; býr hann þar með börnum sínum og systur, sem Stefanía heitir; önnur systir Friðsteins er Guðný, ekkja eftir Friðjón sáluga Friðriksson.

Eg kyntist Friðsteini Sigurðssyni í Winnipeg veturinn 1880—81, þegar hann vann hjá James Penrose við heybindinguna, sem áður er getið. Eg vann þar þá líka. Kom mér hann þá fyrir sjónir sem prúðmenni, vandaður og gætinn í breytni og hegðan. Þessir mannkostir sýnast mér tilheyra honum á efri árum hans.

**Magnús Jónasson**, bóndi á Grenimörk í austurparti Fljótsbygðar frá 1882 til 1903, er fæddur á Höskuldsstaðaseli í Breiðdal í Suðurmúlasýslu 21. janúar 1849. Faðir hans var Jónas Magnússon bónda í Höskuldsstaðaseli, ættaður úr Eyjafirði. Móðir hans hét Hildur. Jónas var hagleiksmaður á alt sem hann lagði hönd að. Kona hans, móðir Magnúsar á Grenimörk, hét Ragnheiður Þorvarðsdóttir bónda á Höskuldsstöðum, Gíslasonar bónda í Njarðvík, Halldórssonar prests á Desjarmýri, Gíslasonar. Kona Þorvarðar, móðir Ragnheiðar, hét Vilborg Eiríksdóttir bónda á Stórasteinsvaði í Hjaltastaðaþinghá, Hallssonar bónda í Njarðvík Einarssonar. Móðir Vilborgar, kona Eiríks á Stórasteinsvaði, hét Ingibjörg Sigurðardóttir bónda á Víðivöllum í Fljótsdal, Einarssonar og Þórunnar Bjarnadóttur frá Búlandi. Systir Magnúsar Jónassonar var Hildur kona Jóns Finnbogasonar, nafnkunns hjúkrun-

armanns. Hann bjó í Breiðdal. Þeirra dóttir er Ragnheiður kona Halldórs Halldórssonar frá Firði í Seyðisfirði; þau búa í Vestur-Selkirk. Áður var Ragnheiður gift Guðmundi Ásmundssyni frá Setbergi í Borgarfirði eystra.

Magnús Jónasson misti föður sinn sex ára gamall. Var hann eftir það hjá móður sinni í Höskuldsstaðaseli, til þess hann kvæntist 5. júní 1873 Guðbjörgu Marteinsdóttur bónda á Skriðustekk í Breiðdal og konu hans Sigríðar Einarsdóttur, bónda á Stórasteinsvaði, Gíslasonar. Einar var bróðir Þorvarðar á Höskuldsstöðum. . Kona hans var Guðlaug Eiríksdóttir, systir Vilborgar konu Þorvarðar.





*Magnús Jónasson og Guðbjörg Marteinsdóttir*

Guðbjörg var fædd 16. september 1852. Hún er systir Guðmundar í Garði í Fljótsbygð, og systir hennar var Helga kona Einars Eiríkssonar frá Þorgrímsstöðum í Breiðdal.

Magnús bjó fimm ár eftir að hann giftist í Höskuldsstaðaseli. Flutti þaðan vestur um haf til Nýja Íslands 1878, settist að í austurparti Fljótsbygðar, nam þar fyrst land sem nú er eign Galizíumanns, og nefndi það Skrúðsmýri. Það var mýri skamt frá þar sem hann bygði, er fögur sóleyjublóm uxu í; sumarskrúða þeirra þótti landnemanum fagurt yfir að horfa og valdi því heimili sínu þetta nafn.

Á Skrúðsmýri bjó Magnús tvö ár. Þaðan flutti hann til Winnipeg 1880, var þar tvö ár, flutti svo til Nýja Íslands 1882, settist þá að á Grenimörk og setti heimilisrétt á landið.

Frumbyggi á Grenimörk var **Hans Nielsson**, móðurbróðir séra Páls Þorlákssonar og systkina hans, var líka móðurbróðir séra Hans B. Thorgrímsens í Grand Forks, N D. Hans kom til Nýja íslands í fyrsta hópnum, sem þangað flutti 1875. Hann var að byggja á landi sínu seint á sumri 1878; um þann tíma var séra Páll systursonur hans á kynnisferð í Nýja íslandi og kom til frænda síns, og bað Hans hann að velja bæ sínum nafn. Séra Páll virti fyrir sér skóginn, sá mörg grenitré og nefndi bæinn Grenimörk. —Hans Níelsson flutti til Dakota frá Grenimörk. Áður en hann kvaddi Canada, sagði hann Magnúsi að nota kofa sína til að búa í þeim ef hann hvirfi aftur til Fljótsbygðar. Hans andaðist fjörgamall að aldri fyrir nokkrum árum síðan í Víðirbygð hjá Friðriki syni sínum, sem þar býr.

Frá Grenimörk flutti Magnús vestur í Víðirbygð árið 1905, tók þar annað heimilisréttarland, sem hann býr nú á. Þau hjónin hafa eignast fimm börn, af þeim eru á lífi tveir synir: Jónas, fæddur 28. september 1874, kvæntur Stefaníu Lárusdóttur bónda á ósi í Fljótsbygð, þau búa á ósi; annar sonurinn er Marteinn verzlunarstjóri í Árborg, kvæntur Þorbjörgu Finnbogadóttur, bónda á Finnbogastöðum í Árnesbygð. Fósturdóttir hjónanna, sem hefir verið hjá þeim síðan hún var þriggja vikna gömul, heitir Sigríður Lárusdóttir bónda í Víðirbygð, Sölvasonar, og konu hans Lilju Einarsdóttur. Sigríður er gift Þorsteini Ingvari Kristjánssyni, ættuðum úr Borgarfirði syðra; þau búa á heimili fósturforeldra hennar.

Magnús hefir tekið mikinn og góðan þátt í safnaðarmálum bygðar sinnar, kent á sunnudagsskólum og haldið þeim lifandi. Hann og kona hans eru enn ung og hress í anda. Veitir það manni ánægju að tala við þau.

**Jóhannes Jónasson**, bóndi á Jaðri í austurparti Fljótsbygðar frá 1885 til 1904, var fæddur á Harrastöðum í Miðdölum í Dalasýslu 2. ágúst 1854, dáinn 1904. Faðir hans var Jónas bóndi á Harrastöðum, dáinn 1873, Jóhannesson, bónda á Saurum í Laxárdal og konu hans Sigríðar Þorsteinsdóttur. Kona Jónasar, móðir Jóhannesar á Jaðri, hét Guðný Einarsdóttir, bónda á Kolsstöðum í Miðdölum, og konu hans Þuríðar Magnúsdóttur.

Jóhannes var bróðir Einars læknis Jónassonar á Gimli og Kristínar konu Jósefs Schram bónda í Geysirbygð.

Jóhannes ólst upp hjá foreldrum sínum á Harrastöð-

um og fór þaðan til Ameríku 1876; var á Hvítanesi í Árnesbygð hjá Einari bróður sínum bóluveturinn, en nam land vorið 1877 (næsta land fyrir sunnan Hvítanes) og nefndi Akur; þar var hann eitt ár, fór svo til Mikleyjar, nam land sunnan á eyjunni og nefndi Jaðar. Hann kvæntist 24. marz 1879 Höllu Jónsdóttur bónda á Brennistöðum í Borgarhreppi í Mýrasýslu, Þorkelssonar. Móðir Höllu, kona Jóns á Brennistöðum, hét Guðrún Hermannsdóttir, bónda á Höll í Þverárhlíð.

Jóhannes bjó tvö ár í Mikley, varð að fara þaðan árið 1880 af því vatnið flóði upp að heimili hans og inn í húsið. Fór hann þá yfir að Íslendingafljóti og var um tíma í



*Halla Jónasson og tvö dótturbörn hennar.*

Straumnesi, fór svo upp til Winnipeg og var þar til þess hann árið 1885 flutti aftur til Nýja Íslands, settist að á Jaðri og setti heimilisrétt á landið.

Frumbyggi á Jaðri var **Pétur Pálsson** frá Árnastöðum í Loðmundarfirði, sem áður hefir verið getið í Broti af landnámssögu Nýja Íslands.

Jóhannes bjó á Jaðri til þess hann lézt. Hann snöggdó á Hvoli í Fljótsbygð. Börn hans og Höllu voru þrettán, og eru tíu á lífi: 1. Ólafur, til heimilis hjá móður sinni í

Víðirbygð; hann var í herþjónustu, í sjálfboðaliði, þrjú ár, kom heim 27. maí 1919. 2. Þuríður, kona Björns Ólafssonar, bónda í Fagraskógi, og konu hans Kristbjargar Antóníusdóttur; Björn býr í Víðirbygð. 3. Kristín, 4. Jónas, 5. Ásgerður, kona Ármanns Magnússonar bónda í Víðirbygð. 6. Hermann, 7. Einar, hann fór í herþjónustu, var kominn á leið til Síberíu, þegar vopnahléð kom, var í Vancouver veturinn 1918—19 við heræfingar, kom heim í apríl 1919. 8. Hjörtur, 9. Guðrún, 10. Ingigerður. Dótturbörn Höllu tvö eru í fóstri hjá henni (börn Guðrúnar dóttur hennar, sem var annað barnið í aldursröðinni af þeim þrettán; maður hennar var Tryggvi Halldórsson bóndi í Víðirbygð; Guðrún dó árið 1914.)

Jóhannes Jónasson var hversdags stiltur maður, gat verið spaugsamur og skemtinn í tali, var mikið gefinn fyrir bækur og skilningsgóður.

**Antóníus Eiríksson** sem getið er í Landnámssögu Fljótsbygðar í æfisöguágripi Ólafs Oddssonar í Fagraskógi, tengdasonar hans, var fæddur á Hærukollsnesi í Geythellnahreppi í Suðurmúlasýslu 1822. Kona hans, Ingveldur, dóttir Jóhannesar skálds Árnasonar, ólst upp í Berufirði hjá séra Pétri Jónssyni og konu hans Önnu Björnsdóttur.

Ingveldur var vel gáfuð og skrifaði hún föður sínum bréf níu ára gömul, sem hefir verið í bundnu máli, að álykta má af ljóðabréfi, sem faðir hennar sendi henni aftur. Í bréfinu lýsir Jóhannes fyrst ánægju sinni yfir því, ef dóttir hans gæti orðið skáld, og svo koma blessunaróskir og heilræði. Bréfið frá föðurnum til dótturinnar er hér ritað:

Ljóðasmíð eg þakka þér,
þýljan ægisglóða,
síðaster þú sendir mér
í seðlinum þínum góða.
Þó mig bresti sónar sáld,
sveit að firra amann,
ef þú gætir orðið skáld,
af því hefði eg gaman.
Æ, það gleður ætíð mig
af þér gott að heyra,
sem mér flytja frónsum stig
fljóð og runnar geira.

Af öllu hjarta óska eg þér,
Ægirsljóma Nanna,
hljóttu blessun hvar þú fer,
hylli Guðs og manna.
Í mentun dafni og mannviti,
menjaskorðin bjarta,
ótti Guðs og elska sé
inst í þínu hjarta.
Fóstur þínum foreldrum
fremst þó skaltu unna,
sem þig æsku á árunum
efla góðs til kunna.

Þú skalt festa þeirra trygð
þér í hjarta og sinni,
og þeim sýna aftur dygð
eftir skyldu þinni.
Veldu þá til vina þér,
sem vanda sitt framferði,
en ástunda, þá aumja sér,
hvað angur þeirra skerði.

Vertu þínum vinum holl
vel, með tryggu sinni,
flýðu illra siða soll
samt í veröldinni.
Sértu æ af Guði glödd,
gædd hans vinskap klárum,
Af föður þínum kyst og
kvödd
kærleikans með tárum.

Eins og áður hefir verið getið, orti Jóhannes Árnason stundum gamanvísur, sem voru ávalt mjög meinlausar, en kröftugar. Tvær orti hann út af því, að hreppstjóranum í sveit hans var ekki um að hann giftist, þótti hann of fátækur til þess.

Gott til ráða ekki er
ulli fyrir brjóta:
Hreppstjórinn því hamlar mér
hjónabands að njóta.

Djarft um tala má sá mann,
mengi rétt eg segi:
jarðnæði því hefir hann
hrept á nótt og degi.

Antóníus Eiríksson bjó á Steinaborg á Berufjarðarströnd, flutti þaðan vestur um haf til Nýja Íslands 1879, nam land í austurparti Fljótsbygðar og nefndi Þykkvabæ. Hann var vel efnaður, þegar hann kom vestur, svo hann gat keypt sér meiri bústofn en vanalegt var að nýbyggjar gátu gjört á þeim dögum. Auk þess var hann hjálpsamur og kunni líka að meta það, sem gert var fyrir hann. Hans er getið í Framfara, 2. árg. 1879, 32. tölublaði, og er greinin um hann hér prentuð:

"**Þarfur maður í bygð.** Antóníus Eiríksson frá Steinaborg við Berufjörð á Austurlandi á Íslandi, er kom að heiman í sumar, hefir keypt 8 kýr af ýmsum mönnum hér í bygð fyrir 26—33 dollara, og sumpart lánað út aftur fátækum mönnum. Þetta hefir sérstaklega komið sér vel þeim sem seldu, í þeirri peningaeklu sem hér er. Auk þess hefir sami maður lánað ýmsum bygðarbúum um 350 dollara, svo þannig eru frá honum í veltunni hér í bygð undir 600 dollarar. — Á safnaðarfundi hér á Lundi 21. þ.m. gaf hann nokkur bushel af kalki til guðsþjónustuhúss safnaðarins."

Í sama tölublaði og þessi grein er, vottar Antóníus þakklæti sitt manninum, sem tók á móti honum þegar hann kom að heiman og léði honum húsaskjól um tíma:

"**Þakkarávarp.**—Eg vil geta þess opinberlega, að þegar eg kom að heiman frá Íslandi í sumar með fólki mínu

samtals 6 manns, var sem oss bæri að beztu bróðurhúsum, þar sem við komum til Þorsteins Antóníussonar á Ási hér í bygð. Auk þess sem hann tók sem alúðlegast á móti mér og mínum, er voru svo mjög þurfandi og eftir sig af ferðalaginu, hefir hann síðan veitt oss hinn bezta viðurgjörning og atlæti í öllu tilliti, enda sézt það á því, að enginn af mínu fólki hefir veikst, en svo margir aðrir þeirra er að heiman komu í sumar, sýkst meira og minna. Fyrir þetta votta eg honum mitt innilegasta þakklæti og bið honum allrar blessunar og heilla."

Antóníus var heppinn veiðimaður á meðan fjör hans og þrek entist. Hann andaðist 95 ára gamall 1917. Ingveldur kona hans var dáin tíu árum áður, 3. janúar 1907. Þau eignuðust fimm dætur, þrjár dóu ungar, en á lífi eru: Kristbjörg, kona Ólafs í Fagraskógi, og Jóhanna, kona Björns Sigurðssonar bónda í Grunnavatnsbygð.

**Hnausabygð (Breiðuvíkin)**
er í Township 22, R. 4.

Bæjanöfn.

Keldhólar, Hof, Ekra, Gunnarsstaðir, Fitjar, Kirkjubær, Laugaland, Litligarður, Ásgarður, Ljósaland, Reykhólar, Lundur, Hnausar, Vellir, Gíslastaðir, Bjarmaland, Eyjólfsstaðir, Teigur, Mýrar, Breiðumýri, Víðirhóll.

**Landnámsmenn í Hnausabygð.**

Landnám í Hnausabygð byrjaði 1876. En nærri allir fyrstu landnámsmenn fluttu burt á útflutningaárunum, sem voru aðallega frá 1878 til 1881. En svo á þeim árum flytja inn nýir innflytjendur og landnám byrjar í annað sinn.

**Einar Guðmundsson**, fæddur á Stórasteinsvaði í Hjaltastaðaþingharhreppi en Kirkjubæjar prestakalli 10. marz 1820, dáinn 3. febrúar 1901. Foreldrar hans voru Guðmundur bóndi á Stórasteinsvaði, Þorsteinsson bónda á Melum í Fljótsdal og kona hans, Guðlaug Eiríksdóttir, bónda á Stórasteinsvaði Hallssonar. Guðlaug var áður gift Einari Gíslasyni frá Njarðvík, Halldórssonar. Þau bjuggu á Stórasteinsvaði og áttu fjórar dætur og einn son, sem Halldór hét, er bjó á Egilsstöðum á Völlum. En alsystir Einars Guðmundssonar hét Margrét, fædd 1819, merkiskona, gift Eiríki Einarssyni bónda á Þorgrímsstöðum í

Breiðdal, og áttu þau mörg börn. Einn af sonum þeirra var Gísli, síðast bóndi í Alberta. Dætur voru: Guðlaug, kona Guðmundar Finnbogasonar, nú í Manitoba; Ingibjörg var kona Jósefs Einarssonar í Henselbygð í Norður Dakota. Seinni maður Margrétar hét Ólafur Björnsson, bjó á Þorgrímsstöðum, og er þeirra son Björn bóndi í Hensel-bygð.

Einar Guðmundsson misti móður sína þegar hann var á barnsaldri. Faðir hans giftist aftur Guðlaugu Kolbeinsdóttur frá Dölum í Hjaltastaðaþinghá, en dó fáum árum þar á eftir. Ólst Margrét systir Einars upp hjá stjúpu sinni, sem giftist aftur Þórarni Einarssyni í Víðivallagerði í Fljótsdal. En Einar ólst upp í Bót í Hróarstungu hjá móðursystur sinni, Þórunni og manni hennar Jóni Jónssyni: Kona Einars hét Jarðþrúður Guðmundsdóttir, Finnssonar, bróðurdóttir séra Sigfúsar Finnssonar í Hofteigi. Börn þeirra voru: Jón, látinn fyrir mörgum árum; Halldór, líka látinn við Otto, Man,, átti Vilborgu Gunnlaugsdóttur frá Flögu í Breiðdal; Anna Kristín, átti Gísla Eiríksson frá Þorgrímsstöðum, sem áður er nefndur; Þórunn, átti Gísla Eyjólfsson, Kristjánssonar, frá Breiðavaði í Eiðaþinghá; þau bjuggu í Hensel-bygð, N. D.; og Guðlaug, kona Jóns Hildibrandssonar á Kolstöðum í Fljótsbygð.

Einar bjó í Egilsseli í Fellum í Norðurmúlasýslu. Flutti þaðan vestur um haf til Nýja Íslands 1876, nam land í Hnausabygð og Nefndi Reykja. Þaðan flutti hann til Dakota 1881 og nam land í Hensel-bygð. Var, eftir að hann hætti að búa, hjá Þórunni dóttur sinni og manni hennar Gísla Eyjólfssyni og andaðist hjá þeim.

Einar var vel greindur maður, kjarkmaður og einbeittur í allri framkomu.

**Marteinn Jónsson**, fæddur á Keldhólum á Völlum í Suðurmálasýslu 20. júlí 1832, dáinn 23. september 1920. Faðir hans var Jón bóndi á Keldhólum, Marteinsson bónda á sama bæ, Bjarnasonar, og konu hans Málfríðar Sigurðardóttur. Systkini hennar voru: Jón, bjó á Skjöldólfsstöðum á Jökuldal, faðir Sveins á Kóreksstöðum í Hjaltastaðaþinghá og Torfa á Sandbrekku í sömu sveit; Elín, móðir Kjartans hreppstjóra á Sandbrekku og Magnúsar í Húsey í Hróarstungu og fleiri sona; Sigríður, móðir Björns Ólafssonar, sem bjó síðast í Ytri Hlíð í Vopnafirði, vel hagorður maður. Móðir Marteins, kona Jóns á Keldhólum, hét Ragnhildur Finnbogadóttir. Börn þeirra, auk Marteins, voru:

Halldór bóndi á Keldhólum og Málfríður kona Benedikts Rafnssonar bónda á Kolstöðum á Völlum.

Marteinn var á Keldhólum hjá foreldrum sínum til fullorðinsára. Hann var tvo vetur á Breiðumýri í Vopnafirði að læra gullsmíði. Var í Kaupmannahöfn veturinn 1857—58 að fullkomna sig í þeirri iðn. Fékk hann sveinsbréf um vorið. Hann kvæntist 31. júlí 1862 Guðrúnu Jónsdóttur prests á Hofi í Álftafirði í Suðurmúlasýslu. Hann dó 16. ágúst 1843, var sonur séra Bergs, prests á Stafafelli, Magnússonar, en bróðir séra Magnúsar í Eydölum, föður



*Marteinn Jónsson og Guðrún Jónsdóttir.*

meistara Eiríks í Cambridge. Móðir Guðrúnar, kona séra Jóns á Hofi, var Rósa Brynjólfsdóttir þórófasts í Eydölum, dáinn 1825, Gíslasonar prests á sama stað, dáinn 1799, Sigurðarsonar prests líka í Eydölum, dáinn 1758, Sveinssonar bónda í Svínafelli Jónssonar. Móðir Brynjólfs prófasts, kona séra Gísla í Eydölum, hét Ingibjörg Brynjólfsdóttir frá Sandfelli, Halldórssonar prests í Eydölum, dáinn 1707, Eiríkssonar prests á Kirkjubæ í Hróarstungu, dáinn 1690, Ólafssonar prófasts á Kirkjubæ, dáinn 1652, og konu hans Kristínar Stefánsdóttur Gíslasonar biskups í Skálholti, Jónssonar. Faðir séra Ólafs var Einar prófast-

ur Sigurðarson í Eydölum, fæddur 1539, dáinn á laugardag 15. júlí 1626. Hann prestvígðist 18 ára gamall, var tvítugur, þegar Oddur sonur hans fæddist, sem varð biskup í Skálholti.

Séra Einar var meira hneigður fyrir skáldskap en búskap, orti mikið af sálmum og ýmsislegt alvarlegs efnis. Skömmu áður en hann dó, orti hann þessa vísu:

Vetur sjö, vil eg það játa,
vel glögglega telja,
nú í dag níunda tugár
af náð guðs er eg á láði.

Kona Brynjólfs prófasts í Eydölum hét Kristín Nikulásdóttir, prests í Berufirði, Magnússonar og Rósu Snorradóttur prests á Helgafelli, Jónssonar sýslumanns Magnússonar, bróður Árna Assessors. Synir séra Brynjólfs og Kristínar voru: séra Snorri, prestur í Eydölum, og Doktor Gísli, prestur á Hólmum í Reyðarfirði. Hann druknaði undan Hólmum 1828.

Eftir að Marteinn giftist bjó hann á Stafafelli í Lóni fimm ár, í Gilsárteigi í Eiðaþinghá 13 ár, og á Eyvindará í sömu sveit 2 ár. Þaðan flutti hann til Ameríku 1883, var í Winnipeg eitt ár, bjó í húsi, sem Eyjólfur Eyjólfsson frá Dagverðargerði í Hróarstungu átti; flutti til Nýja Íslands 1884, setti heimilisrétt á Reykja, breytti bæjarnafninu og nefndi Keldhóla; þar bjó hann í 22 ár, var að þeim tíma liðnum á Mæri og á Gimli 4 ár, en í Winnipeg 10. Andaðist þar hjá séra Rúnólfi syni sínum. Kona hans dó í nóvember 1916. Þau áttu sjö börn, dóu fimm ung, en á lífi eru: Bjarni bóndi á Hofi í Hnausabygð, kvæntur Helgu Guðmundsdóttur Marteinssonar frá Flögu í Breiðdal, og séra Rúnólfur, fyrrum prestur í Nýja Íslandi, nú skólastjóri Jóns Bjarnasonar skóla í Winnipeg, kvæntur Ingunni Sigurgeirsdóttur Bardal.

Marteinn var vel gefinn maður, bæði að andlegu og líkamlegu atgjörvi.

**Ólafur Árnason** frá Ekkjufellsseli í Norðurmúlasýslu. Flutti til Ameríku 1867, nam land í Hnausabygð og nefndi Ekra. Hann flutti til Dakota árið 1880, nam land í Henselbygð. Er látinn fyrir nokkrum árum.

**Sigurður Björnsson,** fæddur á Borg í Skriðdal í Suðurmúlasýslu 1834, dáinn 1892. Foreldrar hans voru Björn Ásmundsson bóndi á Borg og víðar, og kona hans Margrét

Eyjólfsdóttir bónda á Ásunnarstöðum í Breiðdal, Þórðarsonar, bónda á Finnsstöðum í Eiðaþinghá. Sigurður var bróðir Jóns, sem nam landið Grund í Fljótsbygð (sjá í landnámssögu Fljótsbygðar í Broti af landnámssögu Nýja Íslands). Líka var hann bróðir Björns föður Gunnars B. Björnssonar, ritstjóra blaðsins Minneota Mascot í Minneota í Minnesota ríki. Hálfsystir Sigurðar og þeirra bræðra (samfeðra) var Ingibjörg, kona Sveins á Kirkjubóli í Fáskrúðsfirði, og voru þau foreldrar Árna Sveinssonar bónda í Argyle, Man. Móðir Ingibjargar hét Anna, dóttir Hallgríms bónda í Stóra Sandfelli í Skriðdal.

Sigurður bjó á Hryggstekk í Skriðdal. Flutti þaðan vestur um haf til Nýja Íslands árið 1883, settist að á Ekru. Hann fór heim til Íslands 1890, kom til baka næsta ár og andaðist á Ekru ári seinna. Kona hans var Guðfinna Oddsdóttir, bónda á Borg í Reyðarfirði, og konu hans Helgu Jóhannesdóttur frá Fjallsseli í Fellum í Norðurmúlasýslu. Guðfinna andaðist 27. febrúar 1920. Börn Sigurðar og hennar voru sjö og eru fimm á lífi: 1. Björn, bóndi í Grunnavatnsbygð, kvæntur Jóhönnu Antóníusdóttur frá Steinaborg (sjá hér að framan); 2. Helga, tvíburi við Björn, gift Ásmundi B. Austmann bónda í Víðirbygð; 3. Jón, bóndi í Víðirbygð, er sveitaroddviti þar og póstafgreiðslumaður; kona hans hét Kristín Jónsdóttir, ættuð úr Bárðardal, dáin 1909; Jón kvæntist í annað sinn næstliðið haust, og heitir kona hans Sigrún; 4. María, gift enskum manni í Winnipeg; 5. Anna, gift Jóni Halldórssyni, þau búa í Riverton.

**Gunnar Helgason** á Gunnarsstöðum, fæddur á Steinkirkju í Fnjóskadal í Suður Þingeyjarsýslu 12. nóvember 1858. Faðir hans, Helgi Guðlaugsson bóndi á Hólsseli á Fjöllum og víðar í Þingeyjarsýslu, er, ef á lífi er, á Haugsstöðum í Vopnafirði til heimilis; var á lífi næstliðið sumar. Guðlaugur faðir hans bjó á Steinkirkju. Kona hans, móðir Helga, hét Rósa Jónsdóttir. Móðir Gunnars hét Guðrún Gunnarsdóttir bónda og hreppstjóra í Grímsey.

Gunnar ólst upp hjá foreldrum sínum til þess hann var 16 ára. Fór þá í vinnumensku til annara. Hann var tvö ár á Möðruvallaskólanum. Á Barnafelli í Kinn var hann tvö ár. Hann kvæntist 14. nóvember 1884 Benidiktu Maríu Helgadóttur, bónda á Barnafelli, Benediktssonar, og konu hans Sigurlaugar Kristjánsdóttur.

Gunnar bjó tvö ár í Svínadal í Kelduhverfi. Flutti til Vesturheims 1887, kom til Winnipeg 16. júlí, fór til Nýja Íslands og var fyrsta veturinn þar til heimilis hjá tengdabróður sínum Sigurbirni Jónssyni, sem nú býr í Selkirk. Næsta vor, 1888, tók hann heimilisréttarland og nefndi





*Gunnar Helgason og Benedikta María Helgason.*

Gunnarsstaði. Hafði það land áður verið nefnt Aðalból af frumbyggjanum þar, Gísla Benjamínssyni frá Jökuldal í Norðurmúlasýslu.

Börn Gunnars og konu hans eru fjögur: Helgi, Guðlaugur Benidikt, Haraldur Herbert, Sigurlaug Guðrún.

**Sigurður Jónsson Víðdal** á Fitjum, fæddur í Kambhól í Víðidal í Húnavatnssýslu 6. maí 1853. Foreldrar hans voru: Jón Jónsson og Sigríður Illugadóttir, sem lengi bjuggu á Kambhól. Sigurður er í móðurætt kominn af hinni svo kölluðu Snæbjarnarætt, sem talin er frá séra Snæbirni Halldórssyni í Grímstungum.

Kona Sigurðar heitir Kristín Grímsdóttir, fædd á Refsteinsstöðum í Víðidal 28. nóvember 1855. Foreldrar hennar voru Grímur Magnússon og Anna Bjarnadóttir. Kristján Ásgeir ættfræðingur rekur ætt hennar til Vatnsfjarðar Kristínar o. s. frv.

Sigurður ólst upp í Kambhól og var þar lengst af þangað til hann fór til þessa lands. Hann var eitt ár vinnumaður hjá séra Þorvaldi Bjarnarsyni á Melstað, og bjó fáein ár á Torfastöðum í Núpsdal.

Vestur um haf til Nýja Íslands fluttu Sigurður og Kristín sumarið 1887, settust að í Breiðuvíkinni (Hnausabygð), voru komin þangað í september. Fyrstu tvö árin voru þau á Eyrarbakka, sem Eiríkur Sigurðsson þá átti, en sem hafði flutt til Mikleyjar þá um vorið. Haustið 1889 fluttu þau á land, sem Siguður tók heimilisrétt á og nefndi Fitja; var áður nefnt Eiríksstaðir af frumbyggjanum þar, Eiríki Sigurðssyni, sem getið er um hér að framan. Börn þeirra hjóna voru níu, og lifa fimm: Sigurrós, Sigvaldi, Rögnvaldur, Steinunn og Gestur.

**Benidikt Jónasson**, frumbyggi á Kirkjubæ, fæddur á Krossi í Ljósavatnsskarði 3. maí 1850, dáinn 1. september





*Benedikt Jónasson og Anna Una Torfadóttir.*

1907. Faðirhans var Jónas bóndi á Krossi, fæddur á Yztafelli í Köldukinn 2. nóvember 1820, dáinn í Ramsay County, Norður Dakota, 12. júlí 1904. Faðir hans hét Jónas Jónsson, hreppstjóri og bóndi á Yztafelli. Kona hans hét Bergljót. Móðir Benidikts, kona Jónasar á Krossi, hét Guðný Jónsdóttir frá Mjóadal í Bárðardal. Hún dó í Wynyard-bygð í Saskatchewan hjá Þorláki syni sínum 1. september 1908, 85 ára gömul.

Bræður Benidikts voru: Jón, hann druknaði í Rauðá á skipalendingarstöðinni í Winnipeg sumarið 1882; Jónas Bergmann (kapteinn og stýrimaður lengi á gufubátum á Winnipegvatni), og Kristján og Þorlákur, er báðir búa í Saskatchewan. Systir Benedikts hét Hólmfríður, átti

Arnljotur B. Olson

Hjálmar Arngrímsson ættaðan úr Vopnafirði. Þau fluttu vestur að hafi, og eru bæði látin.

Benidikt Jónasson flutti til Vesturheims 1874, var eitt ari í Ontario, fór til Nýja Íslands 1875, nam land í Breiðuvík. Áformað var að byggja kirkju á landi hans, og nefndi hann því bæinn Kirkjubæ; þar var hann þrjú ár, fór til Dakota að áliðnum vetri 1879, og nam land í Garðarbygð; þaðan flutti hann eftir nokkurra ára dvöl til Alberta, og þaðan eftir fá ár aftur til Nýja Íslands. Keypti hann þá landið Akur við suðurenda Gimlibæjar, en þar var frumbyggi Jón Jónsson frá Munka-Þverá. Benidikt bjó þar til þess er hann lézt. Kona hans, Anna Una Torfadóttir, bónda á Sandbrekku í Hjaltastaðaþinghá Jónssonar og konu hans Maríu Bjarnadóttur. Börn Benidikts og Önnu voru sjö, og eru fjögur á lífi: 1. María Torfhildur, gift Sigurjóni Eiríkssyni Ísfeld, búa á Gimli; 2. Alexander Frímann, býr á Gimli, stundar þar trésmíði, kvæntur Þuríði Helgu Bjarnadóttur Péturssonar, bónda á Grenivöllum í Árnesbygð; 3. Karl Emíl, býr í Yorkton, Sask., stundar þar rakaraiðn, kvæntur Konkordíu Gísladóttu frá Edmonton, Alberta; 4. Guðrún Ethel.

Benidikt Jónasson var vel greindur maður. Hann var hneigður fyrir söngfræði og hafði fagra söngrödd; var tilfinninganæmur maður, tryggur vinur vina sinna. Eg minnist hans sem góðs vinar á fyrstu árum mínum hér í landi.

**Baldvin Jónsson** á Kirkjubæ, fæddur í Svartárkoti í Bárðardal 13. maí 1851. Faðir hans, Jón Einarsson, var ættaður úr Mývatnssveit, bjó á Svartárkoti, fór til Brazilíu og dó þar, var einn af þeim fjórum, sem þangað fóru 1865. Kona hans, móðir Baldvins, hét Steinunn Jónsdóttir bónda á Stórutungu í Bárðardal. Kona hans hét Vilborg.

Baldvin var 13 ára, þegar faðir hans fór til Brazilíu. Var hann eftir það hjá frændfólki sínu, þar til hann 13. maí 1873 giftist Arnfríði Jónsdóttur Árnasonar, bónda á Finnsstöðum í Köldukinn.

Frá Ytragili í Eyjafirði fluttu þau hjónin vestur um haf til Nýja Íslands 1878. Þau settust að á Kirkjubæ um veturnætur, 26. október, og tók Baldvin að sér stjórnarlánsskuld frumbyggjans. Húsið, sem þau voru í þar fyrsta veturinn, vara bjálkakofi, 12 fet á lengd og 12 á

breidd. En nú er á Kirkjubæ mjög fallegt og vel bygt hús og í því talsími.

Kirkja Breiðuvíkursafnaðar er á landi Baldvins (var bygð 1906). Hafði, eins og áður er getið, verið áformað í fyrstu landnámstíð að byggja kirkju þar.

Ekki hafa þau Baldvin og Arnfríður faríð varhluta af sárri reynslu. Þau mistu þrjá syni sína á þremur sólarhringum 1884. Á lífi eiga þau fjögur börn: Jón, býr á Kirkjubæ, kvæntur Kristínu Kristjónsdóttur Finnssonar; Sigrún, kona Einars Guðmundssonar Marteinssonar, bónda í Litlagarði; Laufey, kona Eiríks Jónssonar Austmanns, þau búa í Elfros-bygð, Sask.; Eygerður, heima hjá foreldrum sínum.

Aldurhnignu hjónin á Kirkjubæ, að afloknu góðu þrjátíu og tveggja ára starfi þar, fengu Jóni syni sínum í hendur bú sitt árið 1910, og hafa dvalið hjá honum síðan.

**Job Sigurðsson,** ættaður af Vestfjörðum, var frumbyggi í Ásgarði. Flutti til Dakota og verður hér ekki meira sagt um hann, því upplýsingar skortir.

**Stefán Þórarinsson,** fæddur á Hofi í Mjóafirði í Suðurmúlasýslu 7. desember 1842, dáinn í Ásgarði 10. júní 1919. Foreldrar hans voru Þórarinn Kristjánsson og Kristín Jónsdóttir; þau bjuggu lengi í Mjóafirði en fluttu á efri árum sínum upp á Úthérað og voru á Víðastöðum og Dratthalastöðum í Hjaltastaðaþinghá mörg ár. Jón hét sonur þeirra og bjó á Víðastöðum, átti Kristínu dóttur Björns bónda þar, og voru þeirra synir Björn og Guðmundur; Björn er vestur við haf, bjó áður í Grunnavatnsbygð, en Guðmundur býr nú í þeirri bygð. Jórunn heitir systir þeirra, gift Torfa Jónssyni frá Ásgrímsstöðum í Hjaltastaðaþinghá. Þau búa í Foam Lake bygð, Sask.



*Stefán Þórarinsson.*

Stefán ólst upp hjá foreldrum sínum. Vorið 1857 var hann á Dratthalastöðum, varð hann þá fyrir því slysi, að partur af bæj-

arvegg féll á hann, svo hann fótbrotnaði. Faðir hans, sem var kjarkmaður, vafði um fótinn og hjúkraði syni sínum þar til hann var gróinn, og þótti vel takast.

Stefán var tvígiftur. Fyrri kona hans hét Þóranna Magnúsdóttir og misti hann hana eftir fárra ára samveru; af þremur börnum þeirra varð fullorðin dóttir, sem Stefanía hét, dáin 1902, átti enskan mann; seinni kona Stefáns hét Þuríður Jónsdóttir frá Bót í Hróarstungu, dáin 1896, áttu þau tvo sonu, er hétu Jón og Ólafur og býr sá fyrnefndi í Ásgarði.

Á Íslandi bjó Stefán í Hlíðarseli í Hróarstungu nokkur ár, og svo í Fremraseli í sömu sveit, og flutti þaðan til Ameríku 1883; var í Dakota fyrsta veturinn, svo í Winnipeg þrjú ár og hálft. Til Nýja Íslands flutti hann haustið 1887, var fyrsta veturinn þar á Völlum, hjá Jónasi Jónssyni, flutti vorið 1888 að Ásgarði og bjó þar til þess hann lézt.

**Stefán Þorsteinsson**, frumbyggi á Ljósalandi, fæddur á Ströndum í Vopnafjarðarhreppi 12. október 1833, dáinn 15. marz 1893. Foreldrar hans voru Þorsteinn Þorsteinsson, bóndi á Ljósalandi í Vopnafirði, og kona hans Þórey Jónsdóttir.

Stefán ólst upp hjá foreldrum sínum á Ljósalandi og kvæntist þar Sigurborgu Sigfúsdóttur bónda á Hrollaugsstöðum á Langanesi. Hún dó árið 1900.

Á Íslandi bjó Stefán í Vatnsdalsgerði í Vopnafirði, flutti þaðan vestur haf til Nýja Íslands 1876, var fyrsta veturinn þar á Grímsstöðum fyrir sunnan Gimil hjá Grími bónda Einarssyni; næsta vor flutti hann norður í Breiðuvík, nam þar land og nefndi Ljósaland; þar var hann fjögur ár, flutti út í Mikley 1881 og var þar tvö ár og hálft, fór svo til Selkirk og var þar tvö ár, svo í Winnipeg nokkur ár. Þaðan fór hann aftur til Nýja Íslands og bjó um tíma á Ljósalandi, fluttist þaðan með Gesti Oddleifssyni tengdasyni sínum að Haga í Geysirbygð og dvaldi þar til þess er hann lézt.

Börn Stefáns og konu hans voru fimm; eitt dó á Íslandi en tvö í Nýja Íslandi; á lífi eru tvær dætur: Sigríður Stefanía, átti Stefán Oddleifsson bónda í Geysirbygð, sem látinn er fyrir 17 árum; og Þórey, kona Gests Oddleifssonar í Haga, bróður Stefáns.

**Sigfús Einarsson** á Ljósalandi, fæddur á Stórabakka í Hróarstungu 22. júní 1854. Foreldrar hans voru Einar bóndi á Stórabakka, Sigfússon bónda á Langhúsum í Fljótsdal, og kona hans Guðrún Sigfúsdóttir bónda í Skógargerði í Fellum.

Sigfús ólst upp hjá foreldrum sínum á Stórabakka, var þar til þess hann var 32 ára; á Árnastöðum í Loðmundarfirði var hann eitt ár, giftist þar 3. nóvember 1889 Guðrúnu Þorláksdóttur bónda í Hólshjáleigu í Hjaltastaðaþinghá, Gíslasonar í Njarðvík, Halldórssonar. Móðir Þorláks hétGuðrún Þorláksdóttir bónda á Ánastöðum í Hjaltastaðaþinghá; bróðir hennar var Pétur á Ánastöðum, faðir Haraldar bónda við Milton, N. D. Þorlákur í Hólshjáleigu var mjög vel gefinn maður, bæði að andlegu og líkamlegu atgjörfi. Kona hans hét Vilborg Sigurðardóttir Sigurðssonar á Mýrum í Skriðdal, Eiríkssonar á Stórasteinsvaði Hallssonar.

Sigfús og Guðrún fluttu að Stórabakka næsta vor eftir að þau giftust, og fluttu þaðan til vesturheims 1893; komu til Winnipeg 12. júlí og dvöldu þar mánaðartíma, fóru svo til Nýja Íslands og voru á Laufhóli í Árnesbygð hjá Gísla Jónssyni fyrsta veturinn, og svo í ýmsum bygðum þar til þau 16. ágúst 1902 fluttu að Ljósalandi og hafa búið þar síðan. Börn þeirra voru níu og lifa sex: 1. Eiríkur, var í herþjónustu á Englandi á annað ár, býr á Reykjum, kvæntur Guðríði Einarsdóttur bónda á Einarsstöðum í Árnesbygð; 2. Gunnar, býr á Hólalandi í Geysirbygð, kvæntur Málfríði Júlíönu Jónsdóttur frá Gíslastöðum í Hnausabygð; 3. Magnea Guðbjörg, gift enskum manni í Winnipeg; hún var skólakennari sex ár áður en hún giftist; 4. Einar, 5. Sigríður, vinnur á talsímamiðstöð í Winnipeg; 6. Jóhann.

**Þorkell Bessason,** frumbyggi á Reykhólum, fæddur á Birnufelli í Fellum í Norðurmúlasýslu á annan í hvítasunnu (8. júní) 1840. Faðir hans var Bessi, bóndi um tíma á Birnufelli, svo á Giljum á Jökuldal og dó þar 1868. Hann var Bessason bónda á Ormastöðum, Árnasonar hins ríka á Arnheiðarstöðum, Þórðarsonar, Árnasonar á Móbergi, Þorleifssonar, Jónssonar sýsluamnns á Reynistað, Sigurðssonar sýslumanns á Reynistað, Jónssonar á Svalbarði, Magnússonar. — Móðir Bessa á Giljum hét Jófríður Magnúsdóttir bónda á Borg í Skriðdal, Guðmundssonar, Tunis-

sonar bónda á Hvanná á Jökuldal, Kolbeinssonar. Hefir sú Kolbeinsætt verið fjölmenn á Austfjörðum.

Móðir Þorkels Bessasonar, kona Bessa á Giljum (síðari kona hans), hét Kristín, dáin á Gimli 28. ágúst 1876, var dóttir Jóhannesar Jónssonar, bónda í Fjallsseli í Fellum, og konu hans Guðrúnar Þorkelsdóttur. Hálfsystur Þorkels, eftir fyrri konu Bessa, Þórunni Jónsdóttur bónda í Snjóholti í Eiðaþinghá, systur Björns bónda á Þrándarstöðum, voru: Guðlaug, nafnkend yfirsetukona, gift Ólafi bónda á Birnufelli; 2. Ingibjörg, 3. Hildur, gift Birni Árnasyni bónda á Háreksstöðum í Jökuldalshreppi; 4. Guðný Margrét, kona




*Þorkell Bessason og Þorbjörg Sveinsdóttir.*

Stefáns Bjarnasonar bónda í Teigaseli á Jökuldal; 5. Guðrún, er giftist Gunnlaugi Jóhannessyni frá Fjallsseli.

Þorkell var fimm ára gamall, þegar hann fluttist með foreldrum sínum frá Birnufelli að Giljum. Hann kvongaðist 29. sept. 1865 Þorbjörgu Sveinsdóttur. Hún var fædd 24. desember 1833, dáin í Wynyard-bygð, Sask., 25. apríl 1911. Sveinn faðir Þorbjargar bjó á Hafrafelli í fellum, var Guðmundsson, bónda fyrst á Bessastöðum í Fljótsdal, svo í Skuggahlíð í Norðfirði, Magnússonar; Guðmundur dó á Bessastöðum, hafði óskað þess, að hann fengi að deyja þar; fór eitt sinn skemtiferð frá Skuggahlíð þangað og kom ekki aftur.

Bróðir Sveins á Hafrafelli var Jón í Dölum í Fáskrúðsfirði, faðir Þorbjargar móður Jóns ritstjóra Ólafssonar;

móðir þeirra hét Þorbjörg Pétursdóttir frá Hákonarstöðum.

Kona Sveins á Hafrafelli, móðir Þorbjargar konu Þorkels, hét Guðrún Bjarnadóttir bónda í Viðfirði í Suðurmúlasýslu, Sveinssonar.

Þorkell bjó á Giljum frá því hann giftist til þess hann flutti vestur um haf til Nýja Íslands 1876. Hann var á Gimli fyrsta veturinn og urðu þau hjónin þá fyrir sárri reynslu, mistu þrjá syni í bóluveikinni, sem hétu: Sveinn, 9 ára; Jón, 7 ára; Gunnlaugur, 5 ára. Þau mistu tvo syni heima á Íslandi, eignuðust sex börn, og lifir það yngsta, dóttir, sem Kristrún heitir, fædd 19. október 1872, gift Sigurjóni Eiríkssyni lögregluþjóni í Wynyard, Sask.

Þorkell nam land í Breiðuvíkinni og nefndi Reykhóla, var fluttur þangað í apríl 1877. Hann girti í kring um land sitt, ruddi skóg af því sem numdi sex ekrum, ræktaði í þeim korn, fyrst bygg, svo hveiti. Mölunarkvarnir keypti hann fyrir tvo dollara af Jóhanni Straumfjörð og malaði í þeim í brauð handa sér þrjú síðustu árin, sem hann var í Nýja Íslandi.

Til Dakota flutti Þorkell 1881, lagði á stað ásamt átta öðrum, er urðu honum samferða, á laugardag síðastan í Góu (19. marz). Hann varð að fækka gripum sínum í Winnipeg, komst með uxapar suður. Hann nam fyrst forkaupsrétarland (preemption) í Akra-bygð fyrir norðan Tunguá og bjó þar tvö ár; svo nam hann heimilisréttarland suður af bænum Cavalier og bjó þar 25 ár; flutti til Vatnabygðarinnar í Saskatchewan 1908, nam land í Wynyard-bygð og bjó þar eitthvað sex ár. Nú dvelur hann hjá dóttur sinni í bænum Wynyard.

Þorkell Bessason er góðgjarn maður, hefir ávalt verið fús og fljótur til að hjálpa öðrum án þess að taka borgun fyrir; þrátt fyrir mótlæti, er hann hefir reynt, hefir hann verið kátur og hress í tali við menn; hafði gott minni, og unni íslenzkum fróðleik (sögnum og ættfræði). Hann var vel gefinn maður að fjöri og kröftum, sífelt vinnandi og kom miklu í verk hjá sér, þó oft væri einvirki.

Þorbjörg kona Þorkels var gáfuð kona, var fámál, en gagnorð, stilt og þolinmóð í mótlæti, hjálpfús við aðra, sem maður hennar. Og hafa þau hjón átt marga vini í bygðum þeim sem þau hafa búið í.

**Lýður Jónsson** í Lundi, fæddur í Hrafnadal í Hrútafirði 15. marz 1868. Faðir hans var Jón Lýðsson, bóndi í Hrafnadal, en móðir Sigríður Bjarnadóttir bónda í sömu sveit.

Lýður var hjá foreldrum sínum til fullorðinsára. Suður í Borgarfirði var hann tvö ár, fór til Vesturheims 1899; part af fyrsta árinu, sem hann var hér í landi dvaldi hann í Winnipeg, fór svo til Nýja Íslands, nam land í Hnausabygð og nefndi Lund. Hann kvæntist árið 1900. Kona hans heitir Helga Sveinsdóttir. Hún er systir Ingibjargar konu Magnúsar á Eyjólfsstöðum. Faðir þeirra var Sveinn bóndi á Kletti í Reykholtsdal í Borgarfjarðarsýslu; Sveinn var Árnason, nafnkends skálds, sem bjó á Hvammi í Hvítársíðu, Árnasonar. Árni í Hvammi var föðurbróðir Hjartar rafaflsfræðings í Chicago og Dr. Þórðar Þórðarsonar í Minneota, og fleiri systkina.

Móðir Helgu og Ingibjargar, kona Sveins á Kletti, Þorgerður Jónsdóttir bónda á Svarfhóli í Stofholtstungu í Mýrasýslu, Halldórssonar fræðimanns og annálaritara, sem bjó á Ásbjarnarstöðum í sömu sveit, og konu hans Þórdísar Einarsdóttur Sveinbjörnssonar, og var Sveinbjörn bróðir Þórðar í Akrakoti, föður Sveinbjörns, föður Þórðar háyfirdómara í Reykjavík, föður Sveinbjörns tónskálds. Kona Jóns á Kletti hét Helga Jónsdóttir bónda í Stafholti Oddssonar.

Börn Lýðs í Lundi og konu hans eru tvö: Helgi Jónas og Þorgerður.

**Einar Bjarnason,** bónda í Kolsstaðagerði á Völlum í Suðurm.sýslu og Freyshólum Skógum í sömu sýslu. Einar var bróðir Ingunnar konu Eiríks Sigurðssonar í Vogum í Mikley (sjá hér að framan) og Finns, sem nam land í Breiðuvík og nefndi Finnsmörk, og Jóns, sem bjó á Þuríðarstöðum í Eiðaþinghá og Péturs Matúsalems, áður nefnds í þætti Eiríks Sigurðssonar.

Einar flutti frá Stóra Sandfelli í Skriðdal til Vesturheims 1876, nam land í Breiðuvík og nefndi Bjarkarstaði, og bjó þar þrjú ár; haustið 1879 flutti hann til Winnipeg, vorið 1880 til Pembina N.D., bjó þar nokkur ár, fór aftur til Canada (til Saskatchewan). Skortir upplýsingar um hann, síðan hann fór frá Dakota. Kona hans var Ólöf Einarsdóttir bónda í Stóra Sandfelli og Guðrúnar Gunnlaugsdóttur prests á Hallormsstað, Þórðarsonar. Ólöf var áður gift Þorkeli Árnasyni Scheving, og bjuggu þau í StóraSandfelli. Synir þeirra, Árni og Einar, námu lönd í Dakota, en dætur þeirra voru Sigþrúður kona Péturs Matúsalems Bjarnasonar og Guðrún fyrri kona Péturs Sigurðssonar, Jakobssonar, bónda við Langruth, Man., og Steinunn, er átti hérlendan mann.

**Magnús J. Skaptason, prestur,** fæddur á Hnausum í Þingi, Húnavatnssýslu, 4. febrúar 1850. Faðir hans var Jósep Skaptason, héraðslæknir, fæddur 1802, dáinn 1875, stúdent frá Bessastöðum 1827, útskrifaður í læknisfræði frá háskólanum 1837; læknir í Húnavatns og Skagafjarðar sýslum án veitingar 1838-1856; var veitt það læknishérað er það var stofnað fyrsti þingmaður Húnvetninga til þjóðfundarins 1851; Kanselíráð 1867; Riddari af Dannebrog 1874. —Faðir Jóseps læknis var séra Skapti á Skeggjastað, Skaptason prests á Hofi í Vopnafirði, Árnasonar prófasts á Sauðanesi, bróður Þorleifs prófasts í Múla. Var þeirra faðir Skapti lögsagnari Jósepsson prests á Mosfelli og Ólafsvöllum, Loptssonar prests í Miklaholti, og Kristínar, launlóttur Odds biskups Einarssonar í Skálholti. Faðir Lopts prests í Miklaholti var Skapti Loptsson, prófastur á Setbergi.



Magnus J. Skaptason

Kunnugt er, að menn í þessari Skaptaætt hafa verið sterkir og í gildara lagi og áræðnir til stórverka, ef á þurfti að halda; t.d. er í Árbókum Espólíns sagt um Jóseph prest Loptsson á Ólafsvöllum (sem líka var stundum í Skálholti), að hann hafi vaðið yfir á um vetrartíma í frosti, studdist við járnstaf; þegar hann kom heim í Skálholt settist hann á bæjar þrepskjöldinn og drakk mikið af kaldri blöndu og sló að honum hroll, og þótti Brynjólfi biskupi nóg um ofdirfsku hans. ....

Bróðir séra Skapta á Skeggjastað, föður Jósephs læknis á Hnausum, var séra Guðmundur Skaptason í Berufirði, faðir Guðrúnar konu Jóns Guðmundssonar í Kelduskógum, sem Kelduskógaætt er frá komin. Kona Jósephs læknis Skaptasonar, móðir séra Magnúsar, hét Anna. Hún var föðursystir dr. Björns Ólsons á Þingeyrum. Bræður séra Magnúsar voru Skapti ritstjóri Josephson á Seyðisfirði, og Björn, sem um tíma bjó á Hnausum í Breiðuvík og sumar í bygðinni (nær Gimli; sonur hans er Joseph fasteignasali í Winnipeg. Systir séra Magnúsar, Guðrún, kona Daníels Thorlacius, verzlunarmanns í Stykkishólmi.

Magnús útskrifaðist úr Reykjavíkur latínuskóla 1870, af prestaskólanum 1874, var veitt Lundarbrekku prestakall í Bárðardal 1875, þjónaði því fjögur ár, var þá prestur á Kvíabekk í Ólafsfirði fjögur ár og í Hvammi í Laxárdal fjögur ár. Árið 1887 flutti hann vestur um haf til Nýja Íslands og varð prestur safnaðanna þar. Hann var á Grund við Íslendingafljótt hjá Jóhanni Briem fyrsta veturinn, flutti að Bjarkarstöðum vorið 1888, setti heimilisrétt á landið, breytti bæjarnafninu og nefndi Hnausa. Sótti hann um að fá pósthús hjá sér, fékk það árið 1889 og nefndi Hnausa P. O. Í Nýja Íslandi var séra Magnús sjö ár, á Hnausum fjögur og hálft, á Gimli tvö. Að þeim tíma liðnum flutti hann til Winnipeg og var þar prestur Únítara fjögur ár, og var svo í Roseau, Minnesota, sex ár; hefir á síðastliðnum árum dvalið í Winnipeg. Hann gaf um tíma út blað, sem hann nefndi Dagsbrún, og annað nokkru seinna í bókarformi, sem Fróði hét; var ritstjóri Heimskringlu á tímabili, á milli ritstjóranna séra Rögnvaldar Péturssonar og O. T. Johnsons.

Séra Magnús kvæntist 1876, Valgerði Sigurgeirsdóttur bónda á Galtastöðum ytri í Hróarstungu. Hún dó 1905. Móðir hennar, kona Sigurgeirs, hét Ólöf Gabríelsdóttir; faðir Sigurgeirs var séra Jón, prestur í Reykjahlíð og Kirkjubæ í Hróarstungu, Þorsteinsson, bónda í Reykjahlíð, Jónssonar ríka í Ási í Kelduhverfi. Bræður Sigurgeirs voru séra Hallgrímur á Hólmum í Reyðarfirði og séra Þorlákur á Skútustöðum, faðir séra Björns á Dvergasteini og Benedikt á Refstað í Vopnafirði; og fleiri voru systkinin, börn séra Jóns í Reykjahlíð.

Börn séra Magnúsar og konu hans voru fjögur: 1. Ólöf, gift Magnúsi lækni í Winnipeg, syni Björns Halldórssonar frá Úlfsstöðum í Loðmundarfirði; 2. Anna, gift William Adams, amerískum lögfræðingi í Bottineau í Norður Dakota. 3. Joseph, lyfsali í Winnipeg. 4. Fannie Guðrún, gift William Cooke, gjaldkera á rafaflsstöðinni í Winnipeg.

Áður en eg skilst við Hnausa, skal getið manns, sem þar bjó lengi og starfaði og framkvæmdi mikið í Nýja Íslandi. Það var Stefán Sigurðsson Erlendssonar. Hann var fæddur á Stórulaugum í Helgastaðahreppi í Suður Þingeyjarsýslu 28. maí 1864, dáinn á almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg 17. maí 1917. Foreldrar hans voru Sigurður Erlendsson og Guðrún Eiríksdóttir. Þau bjuggu á Stórulaugum og síðast í Klömbrum í sama hreppi.

Stefán fluttist vestur um haf til Nýja íslands með foreldrum sínum 1876, og var í Mikley mörg ár, hafði þar verzlun með Jóhannesi bróður sínum nokkur ár; fluttu þeir sig inn til Hnausa 1890 og stofnuðu þar verzlun. Þeir létu smíða skipið Lady of the Lake, sem þeir létu mörg ár ganga á Winnipegvatni. Fyrstu skipalendingarbryggju í Nýja íslandi lét Stefán byggja að Hnausum. Var hún fullgjör 12. apríl 1896.

Stefán Kvæntist 1887, Valgerði Jónsdóttur frá Svarfhóli í Mýrasýslu. Hún var skólakennari í Mikley. Þau áttu sjö börn, þrjú dóu ung og piltur nærri fullorðinn; svo dó dóttir, sem Jórunn hét, gift H. Pálmasyni. Tveir synir lifa: Eiríkur Sólberg, giftur Sigríði Jónsdóttur, og Sigurður Victor, kvæntur Kristínu Bjarnadóttur Marteinssonar.

**Jónas Jónsson,** fæddur á Auðnustöðum í Melrakkadal í Húnavatnssýslu 1831, dáinn 16. apríl 1916. Hann var ættaður úr Húnavatnssýslu. Kona hans hét Steinunn Jónsdóttir, dáin fyrir mörgum árum. Börn þeirra eru fjögur: Eggert Benedikt, býr á Völlum; Guðrún Steinunn, Jósteinn, og Kristján Jakob, býr í Víðirbygð.

Jónas flutti vestur um haf til Nýja íslands 1876, nam land í Breiðuvík og nefndi Velli; þar bjó hann til dauðadags.

**Gísli Guðmundsson,** frumbyggi á Gíslastöðum, fæddur í Víðidal í Húnavatnssýslu 21. janúar 1825, dáinn 11. júlí 1906. Faðir hans hét Guðmundur Arason, en móðir Magðalena Nikulásdóttir; var Nikulás sá norskur að ætt, hét að auknafni Buck, eftir eyju, sem hann var frá í Norvegi.

Gísli misti föður sinn þegar hann var 10 ára gamall; varð hann þá að fara að vinna fyrir sér hjá vandalausum. Bóndi, sem hann fór fyrst til og var hjá til fermingaraldurs, var harður og ónærgætinn við hann, en ekki var til neins fyrir drenginn að fást um það, til engra var hjálpar að leita.

Eftir að Gísli fór að vinna fyrir kaupi, stundaði hann mest sjávar atvinnu. Hann kvæntist 1853 Steinunni Hjálmarsdóttur. Hún var fædd á trínitatis sunnudag (1. júní) 1817, dáin 1. nóvember 1917, varð 100 ára og fimm mánaða gömul. Foreldrar hennar voru Hjálmar Guðmundsson og Rósa Gunnlaugsdóttir.

Eftir að Gísli giftist bjó hann á ýmsum bæjum í Miðfirði; tvö ár á bæ, sem Huppahlíð nefndist; sagt er að

bærinn hafi verið nefndur það af því að bóndi, sem þar bjó fyrir löngu síðan og átti jörðina, hafi í hallæri selt hana fyrir sauðarhupp.

Gísli flutti frá Húki í Miðfirði til Vesturheims 1876, settist að í Breiðuvík, bygði sér hús á landi, sem Viðvík





*Gísli Guðmundsson og Steinunn Hjálmarsdóttir.*

nefndist, og var þar fyrsta veturinn. Í húsinu voru þrír bændur: Gísli, Jónas, sem seinna bjó á Völlum, og Sigurður Guðmundsson, sem nokkur ár bjó í Viðvík og flutti þaðan til Winnipeg og dó þar. Þeir áttu í félagi um veturinn





*Sigurður Eyjólfsson* og *Rósa Gísladóttir.*

eina stjórnarlánskú, og þegar þeir skildu um vorið lét Gísli þeim Jónasi og Sigurði eftir sinn part, og gat svo fengið handa sér stjórnarlánskú um sumarið. Hann nam land um vorið 1877 og nefndi Gíslastaði, og var þar fimm ár. Flóði þá vatnið upp á land hans svo hann varð að flytja burtu; fór þá norður að Íslendingafljóti og dvaldi að undanteknum tveimur, fyrstu árunum þar, hjá dóttur sinni Rósu og manni hennar Sigurði Eyjólfssyni, til æfiloka, dó hjá þeim í Víðirbygð.

Börn Gísla og Steinunnar voru átta; urðu þrjú fullorðin: Steinunn, gift Bjarna Júlíanussyni bónda á Vindheimum í Fljótsbygð, þau eru látin fyrir mörgum árum; Guðmundur, flutti til Dakota, líka dáinn, átti Guðrúnu Björnsdóttur frá Kolufossi, Illugasonar; og Rósa, kona Sigurðar Eyjólfssonar frá Unaósi í Hjaltastaðaþinghá; þau giftust 26. desember 1883, fluttu frá Akranesi í Fljótsbygð til Víðirbygðar 1904.

Gísli var fróður maður og mjög hneigður fyrir bækur.

**Jón Guðmundsson,** bóndi á Gíslastöðum, fæddur í Borgarhöfn í Suðursveit í Austur-Skaptafellssýslu 1846, dáinn 15. maí 1919. Foreldrar hans voru Guðmundur Bjarnason bóndi í Borgarhöfn og kóna hans Málfríður Jónsdóttir.

Kona Jóns, Steinunn Júlíana Magnúsdóttir, bónda á Hofi í Öræfum, og konu hans Þórunnar Þórarinsdóttur. Börn á lífi eru: 1. Jónína Sigríður; 2. Þórunn, gift enskum manni, búa í Hnausabygð; 3. Gunnsteinn Magnús, býr á Gíslastöðum, kvæntur Elínu Þorsteinsdóttur, ættaðri úr Suðurmúlasýslu; 4. Málfríður Júlíana, kona Gunnars Einarssonar á Hólalandi í Geysirbygð; 5. Einar Ágúst. Sjötta barnið var sonur, sem hét Guðni Bjarni; féll á Frakklandi 22 ára gamall.

**Oddur Guðmundsson,** fæddur á Indriðastöðum í Borgarfjarðarsýslu 23. nóvember 1852, dáinn 1. júní 1915. Faðir hans var Guðmundur sonur Odds bónda Helgasonar, er bjó á Höfn í Melasveit og seinast á Indriðsastöðum og dó þar. Móðir Guðmundar hét Vilborg Þórðardóttir frá Indriðastöðum. En kona hans, móðir Odds, hét Margrét Sigurðardóttir, Stefánssonar á Lýruparti á Akranesi.

Ágrip af æfisögu Odds frá barnæsku og ungdómsárum hans, eftir hans eigin handriti í minnisbók hans, kemur hér á eftir:

Eg var sex ára gamall, þegar eg fluttist með foreldrum mínum að Litlasandi á Hvalfjarðarströnd, eignarjörð þeirra. Farinn var eg þá að geta hjálpað mér í lestri, því snemma var eg hneigður fyrir bækur. Smátt og smátt fór eg að koma til vika og var eg látinn gæta ánna á sumrum. Eg sat yfir þeim uppi á fjalli einsamall, þar sem heita Árnahlíðar; þar var land gott og fagurt á sumrum. Eg skemti mér þar með því að lesa bækur, smíða, velta steinum ofan hlíðarnar, og þegar gott var, að baða mig í ánni, er rann eftir eyrunum; undi eg mér þar vel, þótt eg sæi engan mann allan daginn. Árið 1867 var eg fermdur af séra Guðmundi Bjarnasyni á Melum.

Um þetta leyti kom að Litlasandi enskur fálkaveiðari, John Barr að nafni, og fékk hann mig til að vera með sér þær þrjár vikur, er hann hélt til á heimili foreldra minna. Veiðarfærin hafði hann fram í Þyrilsnesi á Harðarhæð, og gengum við þangað á morgna og heim að kvöldi. Barr var skemtinn og viðkynningagóður, og þótti mér leitt að geta ekki skilið hann vel. Guðmundur Ólafsson jarðyrkjumaður á Fitjum kom eitt sinn til okkar og talaði við hann, og sagði Guðmundur að Barr segðist bezt skilja mig og líka gæti hann bezt látið mig skilja sig, og eftir það lét hann mig einan fara þarna inn eftir á morgnana og fær mér sigurverk sitt og segir mér hvenær eg skuli heim koma. En sjálfur var hann að skjóta fugla á daginn og kom þá stundum til mín. Þegar hann fór alfarinn, gaf hann mér veiðarfærin og dúfur, og sagði að eg gæti nú veitt sjálfur.

Eftir að eg var fermdur reri eg tvær vertíðir frá Litlasandi og var ekki ónáttúraður með það, hefði ekki sjósóttin dregið kjark úr mér."

Frá 1871 til 1875 var Oddur sýsluskrifari hjá Eggert Theodór Jónasson sýslumanni, sem bjó í Hjarðarholti í Laxárdal. Við verzlun var hann í Reykjavík um tíma og svo barnakennari með köflum á Suðurlandi, og vann þar þess á milli kaupavinnu á sjó og landi, til þess er hann flutti til Ameríku 1887; til Winnipeg kom hann 31. júlí, fór til Nýja Íslands og var fyrsta veturinn þar hjá Jóhanni Briem á Grund. Hann nam fyrst land í Geysirbygð og nefndi Láland, var þar nokkur ár og flutti svo suður í Hnausabygð, nam þar land og nefndi Bjarmaland; þar bjó hann til þess er hann flutti inn að Gimli til fósturdóttur sinnar Önnu, sem gift er Jóni Jósepssyni á Melstað í Víðirnesbygð, og andaðist hjá henni.

Kona Odds, sem var látin nokkru á undan honum, hét Margrét Aradóttir, Jónssonar bónda á Kirkjuvöllum. Þau áttu eitt barn, sem dó nýfætt; tóku til fósturs tvær stúlkur, Önnu, sem áður er nefnd, dóttur Erlendar Erlendssonar bónda á Hálandi í Geysirbygð, og konu hans Ólínu Guðmundsdóttur, og Oddnýju Láru .Hallsdóttur frá Flugustöðum; hún dó 18 ára gömul.

Oddur var vel gefinn maður, var mjög hneigður fyrir uppdráttarlist. Í sveitarstjórn Hnausabygðar var hann mörg ár.



*Sigursteinn Halldórsson og Sigríður Jónsdóttir.*

Einn af frumbyggjum Hnausabygðar hét **Sigursteinn Halldórsson**, var ættaður úr Kelduhverfi og fæddur þar 23. október 1842, dáinn 19. nóvember 1911. Hann flutti frá Ási á Hólsfjöllum til Ameríku 1876, settist að í Breiðuík, var fyrsta veturinn þar á Eyjólfsstöðum hjá Eyjólfi Benidiktssyni, og bygði hann með Eyjólfi bjálkakofa, sem þeir voru báðir í með fjölskyldur sínar um veturinn. Næsta vor, 1877, nam hann land skamt frá Eyjólfsstöðum og nefndi Nýjabæ og bjó þar rúm 34 ár; flutti haustið 1911 til

Alberts sonar síns að Selsstöðum í Geysirbygð og andaðist þar mánuði eftir að hann var kominn þangað.

Kona Sigursteins hét Sigríður, systir Eiríks vísiprófasts í Garði. Foreldrar þeirra voru Jón prestur í Einholtssókn í Skaptafellssýslu og kona hans Sigríður Eiríksdóttir bónda í Hoffelli, systir Vilborgar konu séra Magnúsar Bergssonar á Kirkjubæ í Hróarstungu og Eydölum í Breiðdal.

Þessi hjón, Sigursteinn og Sigríður, voru mjög vel kynt, og kemur hér á eftir lýsing af þeim, eftir Magnús Magnússon á Eyjólfsstöðum, sem var í nágrenni við þau í mörg ár:

"Þau, hjónin á Nýjabæ, voru aldrei vel efnum búin, en höfðu alt af nóg fyrir sig og hjálpuðu mörgum, og sá, sem þetta skrifar, efast um, að nokkur hjón í nýlendu þessari hafi verið hjálpsamari nýkomum allslausum löndum sínum að heiman en þau voru, því þeim þótti það lítið að gera þeim gott, sem að húsum þeirra bar, sem æfinlega var þó föst regla, heldur tóku þau fjölskyldu eftir fjölskyldu allslausar og höfðu þær á heimili sínu þar til þær voru búnar að koma sér upp heimili. Alt var þetta gjört af svo mikilli alúð, að auðséð var að þau álitu það sína háleitustu skyldu að hjálpa öðrum.

Sigursteinn var stórmerkur maður, ljúfmenni í allri framkomu, skynsamur vel og einatt var það á fundum, ef um einhver ágreiningsmál var að ræða, að vanalega var beðið eftir tillögu Sigursteins og hans tillögur voru ávalt þannig, að hver sannsýnn dómari hefði gefið þann úrskurð, að þær skyldu samþyktar og málunum lokið.

Sigríður, kona Sigursteins var greind kona, eins og hún átti kyn til, samtaka manni sínum í allri hjálpsemi, og marga nótt vakti hún yfir þeim sjúku, og á þeim hættulega tíma þegar bólan geysaði sem mest, gekk hún á milli sjúklinganna til að hjúkra þeim og hjálpa, og guð varðveitti hennar heimili, enda fékk enginn veikina þar, þrátt fyrir þessa hættulegu en óhjákvæmilegu hjálp. Oft var Sigríður sótt, þá þurfti með til ljósmóður starfa. Hún andaðist 20. janúar 1917. Þeim hjónum varð ekki barna auðið, ekki sem upp komust. En sonur Sigursteins, stjúpsonur Sigríðar, er Albert bóndi á Selstöðum í Geysirbygð.

**Eyjólfur Benediktsson**, frumbyggi á Eyjólfsstöðum, var sonur Benedikts bónda á Eyvindará í Eiðaþinghá í

Suðurmúlasýslu og Guðlaugar Pétursdóttur konu hans. Bróðir Guðlaugar var Gísli, merkisbóndi og búmaður góður, er bjó í Hlaupandagerði í Hjaltastaðaþinghá. Eyjólfur ólst upp hjá honum. Hann giftist 1856 Þóru Nikulásdóttur. Um föðurætt hennar er mér, sem ritar, ekki kunnugt, en móðir hennar hét Þórunn Jónsdóttir bónda á Víðastöðum í Hjaltastaðaþinghá, Guðmundssonar og konu hans Sesselju Sigurðardóttur. Börn Eyjólfs og Þóru voru níu og fluttust fimm til Ameríku: Pétur, bóndi í Höfn í Árnesbygð; Þórunn, látin fyrir nokkrum árum, átti Jón Sigurðsson, skagfirzkan mann; Guðlaug, gift Sigurði Bergssyni bónda í Manitobavatns-bygð; Sigurður Sverrir, er ekki ljóst hvar hann er; og Anna, líka ókunnugt hvar hún er.

Eyjólfur bjó mestallan búskap sinn á íslandi í Fossgerði í Eiðaþinghá. Kona hans dó snemma á vetri 1875. Næsta sumar, 1876, fór hann til Ameríku með yngsta barn sitt, Önnu, sem áður er nefnd; nam land í Breiðuvík við vatnið og nefndi Eyjólfsstaði. Þaðan flutti hann 1881 til Dakota, nam land í Mountain-bygð og dó skömmu fyrir aldamótin. Hann kvæntist í annað sinn eftir að hann kom vestur, og hét kona hans Sólrún, ættuð úr Reyðarfirði; þau áttu tvo sonu, Gísla og Pétur.

Eyjólfur var stiltur og vandaður maður, var sterkur og harðfengur við átök, duglegur og laginn verkmaður.

**Magnús Magnússon** á Eyjólfsstöðum, fæddur í Ragnarsdal í Patreksfirði 7. desember 1859. Faðir hans var Magnús bóndi í Ragnarsdal, Magnússon bónda í Hvítadal, og konu hans Ingveldar Magnúsdóttur. Hún var móðursystir séraMagnúsar í Sauðlauksdal, Gíslasonar prests á Bríánslæk. Móðir Magnúsar á Eyjólfsstöðum, kona Magnúsar í Ragnarsdal, hét Helga Einarsdóttir bónda í Svínanesi, og konu hans Guðrúnar Þormóðsdóttur.

Magnús var hjá foreldrum sínum til þess hann var 4 ára, var þá komið í fóstur hjá merkishjónunum Jóni Jónssyni og Kristínu í Skápadal í Rauðasands hreppi, og var hann þar til þess hann var 11 ára, fór þá aftur heim til foreldra sinna og var hjá þeim tvö ár; fór 13 ára til Sigurðar Bakkmanns, kaupmanns á Vatnseyri og var hjá honum verzlunarþjónn og stundum stýrimaður á skipum hans, þar til hann fór til Ameríku 1887. Hann var þrjú ár í Winnipeg og vann þar daglaunavinnu; árið 1890 fór hann vestur á Kyrrahafi og var þar eitt ár, fór þá aftur til Winnipeg og stuttu

eftir að hann kom þangað réðst hann sem verzlunarþjónn til Sigurðssón bræðra á Hnausum og var hjá þeim þrjú ár. Hann kvæntist 10. marz 1895 Ingibjörgu Vídalín Sveinsdóttur, fædd 28. apríl 1874; ætt hennar er rakin hér að framan og systur hennar Helgu, konu Lýðs Jónssonar í Lundi (sjá í þætti hans).

Magnús flutti vorið, sem hann giftist, að Nýjabæ til Sigursteins og Sigríðar og var þar tvö ár; keypti hann þá Eyjólfsstaðalandið og flutti þangað. Heimilisréttarland tók hann hálfa mílu þar frá, keypti landið sem hús hans stendur á, ásamt fleiri löndum, sem hann hefir keypt.

Börn Magnúsar og Ingibjargar voru 13, og eru 11 á lífi: Jón Vídalín, kvæntur Rannveigu Albertsdóttur Sigur-





*Magnús Magnússon og Ingibjörg Magnúsdóttir.*

steinssonar bónda á Selsstöðum í Geysirbygð, sem áður er nefndur; þau búa í grend við Eyjólfsstaði; 2. Magnús Ragnar, 3. Helga Þorgerður Sigríður, gift Þorsteini Ingimundarsyni Sigmundssonar, búa í grend við Eyjólfsstaði; 4. Sveinn Sigurður, 5. Óskar Kristinn, 6. Ásta María Monika, 7. Jóhannes Helgi, 8. Einar Konráð, 9. Guðmundur Gröndal, 10. Ingibjörg Magnúsína Vídalín, 11. Valgerður Jórunn Oddný.

Magnús hefir í 25 ár haft fiskiveiða-útgerð og gefið mörgum atvinnu. Eyjólfsstaðir hafa tekið miklum breytingum síðan hann kom þangað árið 1897. Þá voru þar fjögur smáhús, nefnil. lítið íveruhús, fjós, kindakofi og reykingakofi til að reykja fisk í, en nú sér maður átta íbúðarhús, og það ekki smá sum af þeim, íbúðarhús Magnúsar er

eitt af allra stærstu íveruhúsum og eins sonar hans Jóns og tengdasonar hans Th. Sigmundssonar, auk allra þeirra geymslu og gripahúsa og íshúsa og frystihúsa, sem þar eru, því Magnús starfrækir þar fiskiverzlun í stórum stíl. Þó víða sé breyting mikil á heimilum í Nýja Íslandi við það sem var fyrir 30 árum, þá er þetta sá mesti munur, sem maður sér á plássum þar, þegar tekið er til samanburðar hvernig það var þá í löngu liðinni tíð og eins og það er nú.

Nú sér maður járnbrautarlestir bruna áfram skamt fyrir framan hús Magnúsar, og á sumrum, þegar litið er fram á vatnið, sem er þar fáa faðma frá, sjást þar stærri og smærri bátar, bæði véla og róðrarbátar.

**Kristján Björnsson** í Teigi, fæddur á Kúðá í Þistilfirði 22. október 1859. Foreldrar hans voru Björn Sigurðsson og María Jónsdóttir. Þau bjuggu á Kúðá og seinna í Garði íÞistilfirði, og í Svalbarðsseli í sömu sveit. Björn fluttist vestur um haf til Nýja Íslands og dó á Breiðumýri.

Kristján var hjá foreldrum sínum þar til hann var 21 árs gamall. Fór hann þá í vinnumensku til Jóns bónda Jónatanssonar á Flautafelli í Þistilfirði, sem seinna varð tengdafaðir hans, og fór með honum til Ameríku 1886. Hann var á Breiðumýri sjö ár, flutti að teigi 1893.

Kristján er tvígiftur; fyrri konan var Sigurveig Jónsdóttir frá Flautafelli, þau áttu eitt barn, sem dó ungt. Seinni konan er Björg Markúsdóttir bónda í Gunnólfsvík á Langanesi og konu hans Ásu Einarsdóttur. Börn þeirra voru 7: 1. Guðjón, dáinn 2. nóv. 1920; 2. María Guðrún, gift enskum manni í grend við Winnipeg; 3. Hermann, 4. Sigurveig, gift þýzkum manni, búa í St. James; 5. Guðleif, 6. Tryggvi, 7. Ingibjörg Sigríður.

**Jón Björnsson** á Breiðumýri, bróðir Kristjáns í Teigi, fæddur á Kúðá 25. október 1856. Hann flutti til Vesturheims 1883, var tvö ár í Winnipeg, fór svo til Nýja Íslands, nam land í Hnausabygð og nefndi Breiðumýri. Kona hans heitir Guðný Ólafsdóttir. Börnin voru fimm, þrjú á lífi: Númi Valdimar, Regína Soffía, María Guðný, gift Helga Jóhannessyni fiskiverzlunarmanni í Riverton.

**SigurðurPétursson,** frumbyggi á Mýrum, fæddur á Rangárlóni í Jökuldalshreppi í Norðurmúlasýslu 3. nóvember 1843, dáinn 5. febrúar 1910. Foreldrar hans voru Pétur

Guðmundsson og kona hans Þorgerður Bjarnadóttir frá Staffelli í Fellum í Norðurmúlasýslu. Pétur var sonur Guðmundar Magnússonar bónda á Bessastöðum í Fljótsdal og Skuggahlíð í Norðfirði, sem getið er hér að framan í þætti Þorkels Bessasona, og konu hans Þorbjargar Pétursdóttur frá Hákonarstöðum.

Sigurður flutti til Vesturheims 1876, nam land í Hnausabygð og nefndi Mýra; þaðan flutti hann til Dakota 1881, tók land í Hensel-bygð og bjó þar til þess hann lézt. Kona hans, Þorbjörg Eiríksdóttir bónda á Ármótaseli í Jökuldalshreppi og konu hans Unu Sigfúsdóttur bónda á Langhúsum í Fljótsdal. Börnin voru tíu og eru sex á lífi: 1. Una, kona Ófeigs Gunnlaugssonar, aktýgjasmiðs í Wynyard, Sask.; 2. Eiríkur, bóndi í Saskatchewan, kvæntur Nikólínu Sigurðardóttur, ættaðri úr Jökulsárhlíð; 3. Benidikt, býr í Wynyard-bygð Sask., kvæntur Ragnheiði Ólafsdóttur, ættaðri úr Eyjafirði; 4. Óli Elis, 5. Pétur, 6. Þóra Sigurbjörg, gift Benedikt Sigurðssyni Kristjánssonar; þau búa á landi Þorbjargar í Henselbygð, N. D.

**Bjarni Pétursson,** bróðir Sigurðar Péturssonar, fæddur á Rangárlóni 1848. Flutti til Ameríku 1876, nam land í Hnausabygð og nefndi Víðirhól; þaðan flutti hann til Dakota 1881, nam land í Hensel-bygð og bjó þar á milli 20 og 30 ár, flutti þaðan vestur að hafi og býr nálægt Blaine, Wash. Kona hans heitir Þóra, ættuð af Norðurlandi. Þau eiga fjóra syni: Pétur, Jón, Friðjón, Óli.

**Hallur Hallssona,** fæddur á Skúfsstöðum í Skagafjarðarsýslu 1838, dáinn 9. febrúar 1913. Faðir hans var Hallur, bóndi á Skúfsstöðum, Jónsson, Jónssonar læknis Péturssonar. Móðir hans hét Margrét Jónsdóttir.

Hallur ólst upp í Hvammi í Hjaltadal hjá föðurbróður sínum, er Jón hét. Hann giftist 1862 Guðrúnu Bjarnadóttur bónda á Reykjum í Hjaltadal og konu hans, sem Lilja hét.

Hallur bjó á Hringveri í Viðvíkursveit tíu ár, svo á Réttarholti í Blönduhlíð, og flutti þaðan til Ameríku 1883; á Hóli við Íslendingafljót var hann fyrsta veturinn hér í landi, en um vorið 1884 í apríl flutti hann suður í Hnausabygð, nam land og nefndi Flugustaði, bjó þar sextán ár; þaðan flutti hann suður í Árnesbygð, nam þar land og nefndi Björk, en varð eftir nokkurra ára dvöl þar að hætta að búa

sökum heilsubilunar; andaðist á Hóli í Fljótsbygð hjá Þorsteini tengdasyni sínum. Hann var þrígiftur; fyrsta kona hans dó 1875, og átti hann með henni fimm börn, þrjú dóu ung, tvær dætur urðu fullorðnar: Lilja, kona Þorsteins Eyjólfssonar á Hóli, og Jónína Helga, kona Magnúsar skálds Markússonar, dáin fyrir mörgum árum.

Önnur kona Halls var Jórunn Jóhannesdóttir bónda í Garði í Hegranesi; þau giftust, 1877 hún dó 1882; þau áttu fjögur börn og lifa tveir synir: Jóhannes, og Hallur, kvæntur Jóhönnu Hálfdánsdóttur bónda á Bjarkarvöllum í Fljótsbygð; þau búa á Bjarkarvöllum.

Þriðja kona Halls, sem lifir mann sinn, heitir Lilja Lárusdóttir frá Tungusveit í Skagafirði. Þau giftust 6. júní 1886, áttu sjö börn, af hverjum fjögur lifa: Guðrún, gift Axel Jónssyni, bónda í Hnausabygð; Ólöf, gift Einari Magnússyni, þau búa í Selkirk; Anna, gift Birni Péturssyni, bónda í Hnausabgð; Vilhjálmur, á heima í Selkirk.

**Eftirmáli.**

Kvenfélag var stofnað í Hnausabygð árið 1887. Félagið hélt fyrsta ársfund sinn í marzmánuði það ár. Konurnar, sem komu í framkvæmd stofnun félagsins, voru: Guðbjörg á Grenimörk, kona Magnúsar Jónassonar; Arnfríður, kona Baldvins á Kirkjubæ; Guðrún, kona Marteins á Keldhólum; Sigríður, kona Sigursteins á Nýjabæ, og ungfrú Guðfinna Eiríksdóttir, er síðar varð kona Gunnsteins Eyjólfssonar á Unalandi.

Lestrarfélag var stofnað 1887. Fyrsti bókavörður var Sigurbjön Jónsson, sem nú býr í Selkirk, bróðir Baldvins á Kirkjubæ. Félagið heitir Norðurljós. — Pósthús fékst 1889. Séra Magnús Skaptason var fyrsti póstafgreiðslumaður.

Samkomuhús var bygt fyrir bygðina 1886, var mörg ár notað fyrir skólahús og messuhús. Skólahús var bygt 1898 og sama ár skólahérað myndað.

Söfnuður (Breiðuvíkur söfnuður) var myndaður eða endurreistur 1887. Aðal framkvæmdarmaður að safnaðarmyndun var Magnús Jónasson á Grenimörk. Kirkja var bygð 1906. Á frumbyggjaárunum, í tíð séra Jóns Bjarnasonar og Halldórs Briems í Nýja Íslandi, var messað á Bjarkarstöðum, sem seinna varð prestssetur, þegar séra Magnús Skaptason flutti þangað.

Skipalendingarbryggjan (Hnausa-bryggjan) var full-

gjör 12. apríl 1896. Skemtisamkoma var þá haldin. Þar voru meðal aðkomugesta úr fjarlægð þeir Eggert Jóhannsson, ritstjóri Heimskringlu, og Magnús Brynjólfsson lögmaður frá Cavalier í Norður Dakota.

———o———

## Árnesbygð.

Township 20 og 21, Range 4.

Nærri allir frumbyggjarnir Árnesbygðar voru fluttir í burtu þaðan fyrir lok ársins 1879. Þremur árum áður höfðu 64 landtakendur numið þar lönd. Búendur, sem ekki fluttu í burtu voru: Oddný Hannesdóttir á Oddnýjarstöðum. Hjörleifur Björnsson á Hjörleifsstöðum; hann flutti að Syðra Laufhóli það ár (1879). Stefán Sigurðsson á Víðivöllum. Guðlaugur Magnússon í Dagverðarnesi. Jón Brynjólfsson á Geirastöðum. Sigfús Þórarinsson í Mörk.

En bygðin var ekki lengi í eyði. Sumir, sem fluttu til Winnipeg og voru þar fá ár, komu aftur, og nýtt landnám byrjar af innflytjendum heiman frá Íslandi, sem hélzt fram yfir aldamótin.

Næst verður hér getið um fáeina menn, er námu lönd sem ekki er búið á nú, og í þeim kafla er fylgt tímanum hvenær þeir komu frá Íslandi en ekki afstöðu bæjanna, sem þeir bjuggu á.

**Jónas Stefánsson,** fæddur á Þverá í Blönduhlíð í Skagafjarðarsýslu 16. janúar 1845, dáinn 1. september 1911. Foreldrar hans voru Stefán Jónasson bóndi á Þverá og kona hans Guðbjörg Tómasdóttir.

Jónas var hjá foreldrum sínum til 17 ára aldurs. Eftir það var hann í vinnumensku í Hróarsdal og víðar í mörg ár, reri þá oft á vertíðum suður á landi.

Hann kvæntist sunnudaginn fyrstan í jólaföstu (30. nóvember) 1873, Steinunni Grímsdóttur bónda á Egg í Hegranesi, og konu hans, Steinunnar Þorkelsdóttur bónda á Brettingsstöðum í Flateyjardal í Þingeyjarsýslu. Þau eignuðust átta börn, og dóu fjögur í æsku, en fjögur eru á lífi: 1. Eugenia, gift Pétri Fjeldsted, búa í Winnipeg; 2. Sigtryggur, býr á Gimli, var um tíma bæjarráðsmaður þar, kvæntur Helgu Jónasdóttur, síðast bónda í Keldudal í Hegranesi í Skagafirði; 3. Steinunn, gift Dr. Andrew Neville, Sommerville, Alberta; 4. Jónassína, gift Valdimar

Briem Abrahamssyni. Báðar yngri systurnar hafa mörg ár verið skólakennarár.

Jónas flutti vestur um haf til Ontario árið 1874; fór til Nýja Íslands 1875, nam land þá um haustið syðst í Árnesbygð og nefndi Gimsar, var fluttur þangað fyrir jól; þar bjó hann í sjö ár, flutti að Gimli árið 1882 og bjó þar til þess er hið sorglega slys skeði aðfaranótt föstudagsins þess 1. september 1911, að hann druknaði við bryggjuna á Gimli.



*Jonas Stefánsson kona hans og börn.*

Jónas var váskleika og þrekmaður á yngri árum sínum. Hann og Jón Hjálmarsson frá Sandvík í Bárðardal og Pétur Matúsalem Bjarnason frá Stóra Sandfelli í Skriðdal, voru víst beztu glímumennirnir í Íslendinga hópnum, sem settist að á Gimli haustið 1875. Þessir glímdu hver við annan og var mjög jafnt komið á með þeim.

Í sögu og fornum fræðum var Jónas vel að sér, hafði gott minni og námsgáfu góða.

**Guðmundur Sveinsson.** Hann var sonur Sveins Jónssonar síðast bónda á Kóreksstöðum í Hjaltastaðaþinghá, dáinn 11. nóvember 1870, og konu hans Guðlaugar Jóhann-

esdóttur frá Fjallsseli í Fellum í Norðurmúlasýslu. Guðmundur var bróðir Jóhannesar bónda á Kóreksstöðum og Hjartastöðum í Eiðaþinghá, dáinn í Marietta, Wash., árið 1905.

Guðmundur ólst upp í Fjallsseli hjá móðurfrændum sínum. Bjó hann þar fyrst og eftir að hann fór þaðan, bjó hann á Fossvöllum í Jökulsárhlíð nokkur ár, en síðast á Íslandi bjó hann á Fljótsbakka í Eiðaþinghá; þaðan flutti hann til Ameríku 1875, dvaldi fyrst fáar vikur í Ontario áður en hann fór vestur til Nýja Íslands; nam hann þar land í Árnesbygð og nefndi Fornastaði; flutti þaðan árið 1881 til Winnipeg, vann þar daglaunavinnu um hríð, en flutti þaðan til Poplar Park. Hvar eða hvaða ár hann dó, er þeim, sem þetta ritar, ekki kunnugt.

Hann var þríkvæntur; hét fyrsta kona hans Þórunn Sveinsdóttir frá Götu í Fellum í Norðurmúlasýslu; þau áttu tvær dætur, komst önnur þeirra til fullorðinsára, Guðrún að nafni, gift hérlendum manni. Önnur kona hans var Guðbjörg Þorsteinsdóttir úr Norðurmúlasýslu. Sú þriðja hét Elínborg, ættuð úr Suðurmúlasýslu.

Guðmundur var karlmenni, sterkur vel sem margir í ætt hans, hafði líka góða bóklega hæfileika. Hann hafði stundum um dagana mæðu kringumstæður, og sýndi mikla þrautseigju í frumbyggja baráttunni.

**Sigfús Þórarinsson,** fæddur í Víðivallagerði í Fljótsdal 1828, dáinn 1903. Foreldrar hans voru Þórarinn Einarsson, bóndi í Víðivallagerði, og kona hans Guðlaug Kolbeinsdóttir frá Dölum í Hjaltastaðaþinghá. Hálfbróðir Sigfúsar hét Sölvi, bjó nokkur ár á Ketilsstöðum í Jökulsárhlíð; flutti til Ameríku 1883 og dó í Winnipeg; en systir þeirra bræðra hét Guðrún Björg; hún var tvígift, og var fyrri maður hennar Þorkell Jóhannesson bóndi á Hallgeirsstöðum í Jökulsárhlíð; voru synir þeirra: Þórarinn, dáinn í Selkirk 1915, og Sigurður heima á Íslandi. Seinni maður Guðrúnar Bjargar hét Vigfús Jónsson frá Gunnhildargerði í Hróarstungu. Vigfús bjó lengi á Hrjót í Hjaltastaðaþinghá. Dóttir hans og Guðrúnar Bjargar er Stefanía, kona Páls Magnússonar kaupmanns í Selkirk, Man.

Kona Sigfúsar Þórarinssonar hét Þórunn Ásgrímsdóttir, bónda á Hrærekslæk í Hróarstungu í Norðurm.sýslu. Börn þeirra voru; Helga Ólína, kona Björns Guðmundssonar

Líndals, Skúlasonar; þau búa í Winnipeg; föðurbræður Björns voru séra Sveinn Skúlason á Kirkjubæ í Hróarstungu og Björn umboðsmaður á Eyjólfsstöðum á Völlum í Suðurmúlasýslu; og Guðmundur, látinn í Winnipeg 1913; kona hans hét Lilja Lárusdóttir Helgasonar prests, ættuð úr Borgarfirði syðra; er Lárusar föður hennar getið hér að framan í eftirmálanum við Mikleyjarsögu.

Sigfús bjó í Eyjaseli í Jökulsárhlíð, og flutti þaðan til Ameríku 1876, fór til Nýja Íslands, nam land í Árnesbygð og nefndi Mörk; þaðan flutti hann árið 1881 til Winnipeg og var þar til dauðadags.

**Þarvaldur Þorvaldsson**, fæddur á Hafragili í Ytri Laxárdal 30. júlí 1842. Faðir hans var Þorvaldur Þorsteinsson bóndi á Hafragili. Þorsteinn var Þorvaldsson bónda á Skíðastöðum, Þorsteinssonar bónda á sama bæ, Þorvaldssonar. Kona Þorvaldar Þorsteinssonar á Skíðastöðum, föðurmóðir Þorvaldar á Hafragili, var Þórunn Guðmundsdóttir Jónssonar, Sigurðssonar lögréttumanns í Ási í Hegranesi, Jónssonar, Teitssonar, Björnssonar prests á Melstað, Jónssonar biskups Arasonar. En móðir Þorvaldar Þorvaldssonar, kona Þorvaldar á Hafragili, var María Egilsdóttir bónda á Miðgrund, systir Gottskálks silfursmiðs á Völlum.

Þorvaldur var barn að aldri, þegar faðir hans dó; ólst hann eftir það upp hjá móður sinni, fyrst á Hafragili til 10 ára aldurs, svo á Ingveldarstöðum í sömu sveit, og síðari manni hennar, Ólafi Kristjánssyni, til fullorðins aldurs.

Þarvaldur kvæntist 11. júlí 1869 Þuríði Þorbergsdóttur. Hún er fædd á Dúki í Sæmundarhlíð 8. janúar 1837. Faðir hennar var Þorbergur hreppstjóri á Dúki, annálaður greindamaður á sinni tíð, Jónsson heppstjóra á Dúki, Oddssonar bónda á Tunguhálsi, Sveinssonar prests í Goðdölum (frá 1736—1757), Pálssonar prests í Goðdölum (frá 1712—1736), Sveinssonar prests á Barði í Fljótum (frá 1649—1687). Móðir Þuríðar, kona Þorbergs á Dúki, var Helga Jónsdóttir prests Reykjalíns á Ríp í Hegranesi (frá 1839—1857). Honum voru í ellinni veittir Eydalir í Breiðdal, en hann andaðist á leiðinni þangað austur. Hann dreymdi, áður en hann lagði af stað, að tvær vísur voru kveðnar; sú fyrri, sem hann kvæði hana sjálfur, í spyrjandi merkingu, sú seinni í svarandi, kveðin af einhverjum öðrum:

Hvað skal tryggja hag minn hér?
Hvar á að bera að landi?
Hvar á að byggja? Hvernig fer?
Hvað á að liggja fyrir mér?

Þar um varðar þig ei grand,
Þér á að nægja vonin.
Guð ákvarðar líf og land,
lán, búgarðinn, auðnustand.

Þorvaldur bjó fimm ár á Dúki, flutti að Reyn í Hegranesi árið 1874; þar bjó hann níu ár; sú jörð var í eyði, þegar hann flutti þangað, og bygði hann hana upp. Árið 1883 flutti hann að Ytri-Hofdölum í Blönduhlíð og bjó þar



*Þorvaldur Þorvaldsson og Þuríður Þorbergsdóttir.*

fjögur ár, flutti þaðan til Vesturheims árið 1887, settist að í Árnesbygð, nam land og nefndi Víðidalstungu, en hafði áður verið nefnt Víðidalur af Árna Andréssyni, sem tók það fyrst.

Þorvaldur bjó 29 ár í Víðidalstungu, hætti búskap árið 1916 og flutti þá norður að Íslendingafljóti í bæinn Riverton og hefir verið þar síðan.

Átta börn hafa hafa þau hjón eignast; mistu fjögur heima á Íslandi, er öll dóu í æsku, en fjögur fluttust með

þeim hingað: Sveinn, kaupmaður í Riverton, var kona hans Margrét Sólmundsdóttir, látin 1919; Guðrún, gift Sigurjóni Jónssyni í Odda í Árnesbygð; Dr. Þorbergur, í Saskatoon, Sask., prófessor í efnafræði við háskóla Saskatchewan fylkis; og Þorvaldur, kandídat í náttúruvísindum, er andaðist við Harvard háskólann fyrir 19 árum síðan, rúmt 25 ára gamall. Hann var framúrskarandi námsmaður, að dómi allra, sem þektu hann.

Þorvaldur og kona hans hafa unnið mikið og gott dagsverk; þau hafa verið sístarfandi og ber jörð þeirra í Árnesbygð þess merki, ar heita má, að öll sé nú lögð í rækt, en var áður öll í stórskógi, er þau settust þar að. Þau eru bæði vel gefin og hafa hagnýtt gáfur sínar sér og öðrum til blessunar.

**Gísli Jónsson**, fæddur í Njarðvík í Borgarfjarðarhreppi í Norðurmúlasýslu 12. júlí 1842. Faðir hans var Jón Sigurðsson bóndi í Njarðvík, fæddur í Hólshjáleigu í Hjalta-



*Gísli Jónsson, Vilborg Ásmundsdóttir og börn þeirra.*

staðaþinghá 1802, dáinn í Njarðvík 1884. Hann var gáfumaður, óefað bezt að sér til bókarinnar af öllum bændum á Austfjörðum honum samtíða. Sigurður faðir hans bjó

lengi í Hólshjáleigu, fór þaðan að Njarðvík og dó þar. Hann var sonur Jóns prests Brynjólfssonar á Eiðum og konu hans Ingibjargar Sigurðardóttur. Móðir Ingibjargar hét Bóel, dóttir Jens Wíums, sýslumanns í Múlaþingi. Móðir Jóns í Njarðvík hét Kristín María Sigfúsdóttir prests á Hjaltastað og Ási í Fellum, Guðmundssonar. En kona Jóns hét Sigþrúður Sigurðardóttir bónda í Njarðvík, Gíslasonar bónda þar, Halldórssonar prests á Desjarmýri Gíslasonar. Móðir Sigþrúðar hét Guðlaug Þorkelsdóttir bónda í Gagnstöð í Hjaltastaðaþinghá Björnssonar.

Börn Jóns í Njarðvík og Sigþrúðar voru auk Gísla sjö: Sigurður, þeirra elztur, fæddur 8. nóvember 1840, dáinn 5. desember 1899; hann flutti vestur um haf til Nýja Íslands árið 1893, var í Ísafoldár bygð í nokkur ár, en síðustu árin sem hann lifði í Fljótsbygð og andaðist þar; hann var vel kyntur og orðlagður kraftamaður, gerði líka mörg sterkleg átök um dagana; hann var tvíkvæntur, og hét fyrri kona hans Margrét Einarsdóttir bónda í Fljótsdal; móðir hennar var Þórunn Einarsdóttir bónda á Stórasteinsvaði Gíslasonar og konu hans Guðlaugar Eiríksdóttur Hallssonar; með Margrétu eignaðist Sigurður tvær dætur, Sigþrúði, konu Gunnars Sigurðssonar trésmiðs í Winnipeg og Unu Þórunni, líka í Winnipeg; seinni kona Sigurðar var Hansína Jóhannsdóttir, dönsk í föðurætt; börn þeirra voru sex: Jón, er vestur við haf; Gunnar Sigurður, líka þar vestur frá; Helga, gift enskum manni, H. Grant, í Winnipeg; Guðfinna, gift Eggert Johnson, búa í Amaranth, Man.; Margrét, gift Björgvin Gunnarssyni Kjartanssonar, búa í grend við Amaranth, Man.; Sigurlaug Guðríður, kona Eisteins Þorsteinssonar á Húsabakka í Fljótsbygð.

Hin sex systkini Gísla eru: Sigurlaug, ekkja eftir Stefán Benediktsson, dáinn á Bakka í Fljótsbygð 29. desember 1914; Guðríður, kona Þorvarðar sonar Stefáns bónda á Bakka, hún dó 5. október 1911; Helgi, bjó í Njarðvík, látinn; Þorkell og Sigurjón heima á Íslandi; Kristín María, látin 1880. Maður hennar var Níels trésmiður Jónsson, Níelssonar, Jónssonar prests á Eiðum Brynjólfssonar. Níels dó á Mountain, N. D., 31. desember 1897.

Gísli ólst upp hjá foreldrum sínum í Njarðvík; hann kvæntist þar 1875 Vilborgu Ásmundsdóttur bónda á Setbergi í Borgarfirði í mörg ár en á Desjarmýri síðustu búskaparárin sín. Ásmundur var Ásmundsson bónda á Hrollaugsstöðum í Hjaltastaðaþinghá og Ingveldar Bjarna-

dóttur, er líka var móðir Sigríðar konu Þorbergs Bergvinssonar í Sauðhaga í Skriðdal.

Gísli bjó í Njarðvík fjögur ár og á Jökulsá í Borgarfirði átta ár; til Ameríku flutti hann árið 1887, var á ýmsum stöðum þar til hann nam land í Árnesbygð og nefndi Setberg; þar bjuggu þau hjónin til þess er þau fluttu til dóttur sinnar Elínar og Baldvins Árnasonar manns hennar, að Laufskála í Gimlibygð, og eru nú til heimilis hjá þeim.

Börn Gísla og Vilborgar voru sjö, tvö dóu úng og dóttir, sem Sigþrúður hét, árið 1917, var gift Sveinbirni Jónssyni Eiríkssonar frá Lundi í Víðirnesbygð; þau fjögur, sem lifa, eru: Elín María, kona Baldvins Árnasonar (Andersons) á Laufskála; Jón, býr í Riverton, kvæntur Þórhildi Jónasdóttur, ættaðri af Norðurlandi; Guðlaug Björg, gift Oddi Árnasyni (Anderson) á Vigri í Gimlibygð; Sigurbjörn, lestarstjóri á C. P. R. járnbrautinni, kvæntur þýzkri konu.

Gísli er stiltur og dagfarsprúður maður, vandaður til orða og verka. Vilborg kona hans er mjög vel gefin. Hún misti sjónina fyrir nokkrum árum síðan, ber það mótlæti með þolinmæði, en svo er hennar andlega sjón vel skær.

**Sigurður Sigurðsson,** fæddur á Skriðu í Hallárdal í Húnavatnssýslu 26. maí 1852. Foreldrar hans voru Sigurður Sigurðsson, síðast bóndi á Skeggjastöðum í sömu sýslu, og kona hans Ingigerður Þorbergsdóttir bónda á Sæunnarstöðum í Húnavatnssýslu.

Sigurður var hjá ýmsum í vinnumensku við sjávar- og landvinnu eftir að hann fór að vinna fyrir sér. Hann flutti frá Seyðisfirði fyrir um það 30 árum síðan vestur um haf, var um tíma í Winnipeg, fór þaðan til Nýja Íslands. nam land í Árnesbgð og nefndi Skeggsstaði; bjó þar til þess hann árið 1910 flutti til Gimli, og hefir búið þar síðan. Kona hans heitir Björg Jóhannesdóttir; um ætt hennar er þeim, sem ritar, ekki kunnugt.

**Kolbeinn Einarsson,** fæddur á Þvottá í Álftafirði í Suðurmúlasýslu 16. janúar 1854, dáinn 30. marz 1899. Foreldrar hans voru Einar Ófeigsson og Guðrún Steinmóðsdóttir, ættuð af Langanesströnd.

Kolbeinn ólst upp á Þvottá í Álftafirði hjá hjónum, er þar bjuggu, sem hétu Árni og Sigríður. Í Papey var

hann þrjú ár eftir að hann fór frá Þvottá, svo á Seyðisfirði tíu ár. Hann kvæntist 2. maí 1881 Margrétu Gunnarsdóttur Gíslasonar (fræðimannsins alkunna); sem nefndur er hér að framan í Mikleyjarsögu.

Kolbeinn fluttist til Ameríku árið 1893, fór til Nýja Íslands og var fyrsta veturinn þar í Hulduárhvammi hjá Jónasi Jónssyni. Næsta vor, 1894, fóru þau hjónin upp til Winnipeg og unnu þar um sumarið, fóru aftur til Nýja Íslands um haustið, voru komin þangað 5. október. Nam Kolbeinn þá land, sem í fyrstu landnámstíð var numið af Björgu Torfadóttur, ekkju eftir Björn Sigurðsson frá Bakkagerði í Jökulsárhlíð. Hann dó úr bólunni 1876; var svo landið um tíma nefnt Bjargarland, en Kolbeinn breytti nafninu og nefndi Kolbeinsstaði. Húsið, sem hann bygði þá um haustið, þegar hann tók landið, brann næsta vetur 16. febrúar, og á meðan Kolbeinn var að byggja á ný, voru þau hjónin hjá Einari Guðmundssyni á Einarsstöðum. Á landi sínu bjuggu þau fjögur ár, þá andaðist Kolbeinn sem áður er getið, árið 1899. Börn þeirra hjóna voru níu, og lifa tvö: Gunnar, býr með móður sinni í Riverton; hann var þrjá mánuði í herþjónustu; Friðrika Guðrún, gift Sigurði G. Ísfeld, bónda í Elfrosbygð, Sask.

Margrét giftist aftur 10. júlí árið 1902, Árna Björnssyni, bróður Guðmundar Björnssonar (William Andersons) í Vancouver; Árni dó 8. júlí 1920.

Sonur Margrétar og Jóns Sigurðssonar Austmanns, er dó í Selkirk fyrir nokkrum árum, heitir Sigurgeir, var rúmt ár í herþjónustu yfir á Englandi. Er nú til heimilis í Riverton hjá móður sinni.

**Nöfn bæja í Árnesbygð, sem nú er búið á.**

Skógargerði, Finnbogastaðir, Laufás, Fagurhóll, Horn, Djúpidalur, Baldurshagi, Einarsstaðir, Hulduárhvammur, Fagranes, Vatnsnes, Víðivellir, Birkivellir, Búastaðir, Laufhóll, Árnes, Árnastaðir, Melur, Grenivellir, Flatatunga, Dagverðarnes, Geirastaðir, Svalbakki, Skíðastaðir, Höfn, Engimýri, Hörghóll, Engihlíð, Brú, Heggsstaðir, Brautarholt, Jaðar, Frón, Blómsturvellir, Kárastaðir, Borg, Fögruvellir, Nýibær, Garði, Lundur.

**Bárður Einarsson,** fæddur á Slíum í Meðallandi í Vestur Skaftafellssýslu 8. maí 1869. Foreldrar hans voru Einar Ólafsson og kona hans Una Jónsdóttir. Þau bjuggu á Slíum allan sinn búskap.

Bárður ólst upp hjá foreldrum sínum á Slíum til 16 ára aldurs. Fór hann þá með þeim austur í Hornafjörð; þar var hann tvö ár hjá Gísla bónda Sigurðssyni í Borgarhöfn, fór svo að Geirsstöðum á Mýrum til Jóns Brynjólfssonar frænda síns, og var þar 4 ár. Þaðan fór hann að Brekku í Fljótsdal til Brynjólfs bónda Þórarinssonar, var þar sex ár; þar kvæntist hann árið 1895 Guðfinnu Gísladóttur, bónda í mörg ár á Laufhóli í Árnesbygð (sjá ætt hans síðar); móðir Guðfinnu var Aðalbjörg Þorleifsdóttir frá Hrjót í Hjaltastaðaþinghá. Guðfinna var fædd í Hólshjáleigu í Hjaltastaðaþinghá 26. nóvember 1871.

Bárður var, eftir að hann giftist, sex ár í Fljótsdal, svo tvö ár í Mjóafirði, flutti þaðan til Ameríku árið 1903, nam land í Árnesbygð og nefndi Skógargerði.

Börn þeirra hjóna voru þrjú og lifa tvö: Brynveig Aðalbjörg, gift manni af dönskum ættum, Oliver Christinsen, þau búa í Winnipeg; og Einar, heima hjá foreldrum sínum.

**Finnbogi Finnbogason**, fæddur á Krókstöðum í Miðfirði í Húnavatnssýslu 13. maí 1853. Foreldrar hans voru Finnbogi Oddsson og kona hans Guðfinna Samsonsdóttir, ættuð úr Húnavatnssýslu.



*Finnbogi Finnbogason.*

Finnbogi Oddsson bjó um tíma Miðfirði, flutti þaðan vestur á Barðaströnd og dó þar.

Finnbogi yngri var nýfæddur fluttur suður á Akranes í fóstur til föðursystur sinnar, Valgerðar Oddsdóttur. En dvölin hjá henni varð ekki nema nokkuð á annað ár, þá dó Valgerður, og var Finnbogi þá aftur fluttur norður í fæðingarsveit sína til hjónanna Eggerts Eggertssonar og Steinvarar Bjarnadóttur á Heggsstöðum í Miðfirði. Eggert dó stuttu þar á eftir.

Finnbogi ólst upp hjá Steinvöru og var á Heggsstöðum til þess hann var 26 ára gamall. Síðustu ár sín þar var hann hjá Sigríði dóttur Steinvarar og manni hennar Bjarna Dagssyni, er nú búa í Mountain-bygð í Norður Dakota.

Finnbog kvæntist 18. ágúst 1878 Agnesi Jónatansdóttur (sjá um foreldra hennar í næsta þætti.).

Finnbogi fór frá Heggsstöðum til Einars gullsmiðs Skúlasonar á Tannsstaðabakka í Hrútafirði, og var þar vinnumaður í þrjú ár, en hafði konu sína í húsmensku. Kostaði það (húsmenskulaunin) 20 krónur um árið. Svo var aðhlynning, sem henni var veitt þar, mjög góð.

Frá Tannstaðabakka fór Finnbogi að Fossi í Hrútafirði til Gísla bónda Sigurðssonar. Þar borgaði hann í húsmenskulaun fyrir konuna um árið 110 krónur, en árslaun hans voru 80 krónur, svo að árinu liðnu var hann í 30 króna skuld við húsbóndann. Leizt honum þá ekki á að dvelja lengur á Íslandi, flutti til Ameríku þá um sumarið, 1883, var kominn norður að Íslendingafljóti 2. september. Hann minnist þess, hvað fólk þar við Fljótið var þeim hjónum gott, einkum Jóhann Briem og kona hans.

Um haustið settust þau að á Eyrarbakka í Hnausabygð hjá Eiríki Sigurðssyni; konan var þar um veturinn, en Finnbogi fór um nýárið í vist upp í Clandeboye til bræðra tveggja, sem hétu Alexander og Robert,, að auknafni Muckle; þeir bjuggu í austurparti Clandeboye-bygðar við læk, sem nefnist Muckle Creek, og voru þeir mörgum Íslendingum að góðu kunnir. Hjá þeim var Finnbogi nærri ár, hafði 10 dollara í kaup um mánuðinn yfir veturinn, en 17 yfir sumarmánuðina. Kona hans kom um vorið upp eftir og fór í mánaðarvist til bónda fyrir fimm dollara kaup. Sótti hún að mánuðinum liðnum börn þeirra ofaneftir og fékk húsaskjól fyrir sig og þau hjá þeim Mucklebræðrunum, þar til þau hjónin í desember fluttu aftur til Nýja Íslands, og voru það sem eftir var vetrarins á Eyrarbakka. Næsta vor, árið 1885, fluttu þau að Flugustöðum til Halls Hallssonar; bygði Finnbogi sér þar kofa á vatnsbakkanum og voru þau þar til þess þau 23. nóvember 1888 fluttu á land, sem Finnbogi nam og nefndi Finnbogastaði.

Út í vinnu fór Finnbogi oft á fyrstu árum sínum í Nýja Íslandi, upp til Kildonan og austur fyrir vatn, hafði það stundum hart. Suður í Dakota vann hann við þreskingu haustin 1892—93, fór samt aðallega suður til að sjá gamla vini sína; hafði einu sinni áður farið suður í sömu erindum.

Á landi sínu hefir Finnbogi gert miklar umbætur; um það helmingur þess komið í rækt, sem áður var þéttur skógur á.

Þrjú börn hafa þau hjónin eignast, tvö dáin; þau mistu son á þriðja ári fyrsta haustið sem þau voru hér í landi, svo dóttur, sem Guðfinna hét, í desember 1912; hún var

gift Þorsteini Ingvari Kristjánssyni, sem nú býr í Víðirbygð; dætur þeirra tvær eru í fóstri hjá móðurforeldrunum. Þriðja barnið er dóttir, sem Þorbjörg heitir, kona Marteins Magnússonar Jónassonar, verzlunarstjóra bændafélagsverzlunar í Árborg. Svo eiga þau fósturson, sem Andrés heitir, er býr í Geysirbygð.

**Jónatan Jónasson,** fæddur í Miðdölum í Dalasýslu 1834, dáinn 11. febrúar 1911. Móðir Jónatans hét Helga, og bjuggu foreldrar hans í Skörðum í Miðdölum. Jónatan kværitist árið 1854; hét kona hans Þorbjörg Guðmundsdóttir; móðir hennar hét Hólmfríður Guðbrandsdóttir.

Jónatan bjó í Miðfirði á ýmsum bæjum. Flutti frá Þverá í þeirri sveit til Ameríku árið 1886, var kominn til Nýja Íslands 20. september. Hann var nokkuð á annað ár hjá Finnboga Finnbogasyni tengdasyni sínum, er bjó þá á Flugustöðum. Þaðan fór hann til Mikleyjar, ætlaði sér að taka þar heimilisréttarland skamt frá Vogum, suðvestan á eyjunni, en hætti við það af ótta fyrir því, að vatnið mundi flæða þar upp; fór aftur yfir til meginlandsins og var á Eyrarbakka í Breiðuvík til þess hann árið 1892 flutti á land, sem hann nam í Árnesbygð og nefndi Laufás; þar bjó hann til þess hann lézt.

Jónatan misti konu sína á Íslandi, bjó með ráðskonu eftir það, Ingibjörgu Guðmundsdóttur, systur Guðmundar á Bjargi í Mountain-bygð í N. Dak. Hans er getið í Mikleyjar landnámssögu. Ingibjörg er suður í Dakota hjá bróður sínum.

Börn Jónatans og konu hans voru sjö, af þeim lifa þrjú: Jónas, býr í Laufási; Agnes, kona Finnboga á Finnbogastöðum; Ingibjörg Gróa, gift Sveinbirni Jónassyni Dalmann; þau búa í Selkirk. Eitt af þeim, sem dáin eru, var sonur, sem Eiríkur hét. Hann dó af slysi í þreskivinnu árið 1887, þá nýkominn frá Íslandi, ári seinna en faðir hans kom, en þeir voru ekki búnir að sjást hér í landi.

**Guðmundur Markússon,** fæddur í Vopnafirði árið 1863, dáinn í maímánuði 1870.. Hann nam land í Árnesbygð árið 1898 og nefndi Fagurhól. Kona hans, sem lifir mann sinn, Ingibjörg Sigríður Finnsdóttir, bónda á Kaldárbakka í Kolbeinsstaðahreppi í Dalasýslu, Þorkelssonar.

Guðmundur og Ingibjörg giftust árið 1892. Áttu sjö börn og lifa fimm: 1. Einar Ólafur, kvæntur Kristínu Jóhannesdóttur, ættaðri úr Vopnafirði, þau búa í Selkirk; 2.

Guðný Kristín; 3. Finnur Björn; 4. Jóhannes Ólafur; 5. Sveinbjörn Kristján.

**Þórður Pálsson, fæddur** á Holtum á Mýrum í Austur-Skaftafellssýslu 3. júlí árið 1850. Faðir hans var Páll bóndi á Holtum, Þorleifsson bónda á Stapa á Nesjum í Hornafirði, Magnússonar prests í Bjarnanesi, Ólafssonar. Móðir Páls, kona Þorleifs á Stapa, hét Sigríður Einarsdóttir bónda í Flatey á Mýrum. Móðir Þorleifs, kona séra Magnúsar í Bjarnanesi, hét Rannveig, kölluð Rannveig stórráða. Hún var merkiskona, skapstór og vel viti borin; fljót til ráða, þegar til vandræða horfði. Sagt er, að hún hafi hjálpað manni sínum eitt sinn á alþingi út úr málaferlisklípum, sem hann var í, og þá hafi hún hraðað svo ferð sinni til þings, að hún sprengdi tvo hesta, sem hún hafði til reiðar. Og svo til þess að komast sem fyrst inn í dómsalinn, hratt hún um koll tveimur embættismönnum, sem stóðu í dyrunum.

Móðir Þórðar, kona Páls á Holtum, hét Guðrún Þórðardóttir bónda á Árnanesi í Nesjum, Bergssonar dannebrogsmanns og bónda í Árnanesi. Móðir Guðrúnar konu Þórðar, hét Katrín Hallsdóttir, bónda á Hólum í Nesjum. Móðir Þórðar, kona Bergs Dannebrogsmanns hét Guðrún Bergsdóttir.

Þórður var hjá foreldrum sínum til þess hann var 18 ára. Eftir það var hann í vinnumensku hjá ýmsum í mörg ár, mest þó í Hafnarnesi; þar kvæntist hann Guðrúnu Sigurðardóttur bónda í Hreppsgerði í Suðursveit, og konu hans Vilborgar Jónsdóttur prests á Kálfafellsstað.

Þórður misti konu sína eftir tveggja ára samveru; þau áttu eina dóttur, er Guðrún heitir, gift kona á Hvalnesi í Lónum.

Þórður kvæntist í annað sinn 30. júlí 1899, Halldóru Högnadóttur bónda í Nesjum, seinast á Suðurhól, og konu hans Halldóru Einarsdóttur. Börn þeirra voru ellefu og lifa níu: 1. Kristmundur, sonur konunnar, sem hún átti áður en hún giftist; hann fór sem sjálfboði í herþjónustu 1915, var í mörgum orustum, kom heim í júlí 1919. 2. Halldóra, gift kona við Winnipegosis; 3. Þórður, er heima á Íslandi; 4. Gunnar, 5. Anna Þórdís, 6. Björgvin. 7. Hallbera Lovísa, 8. Pálína Guðrún, 9. Einar.

Þórður flutti til Ameríku árið 1902, settist að í Árnesbygð, var þar fyrst hjá Einari á Einarsstöðum nærri ár, svo

áLaufhóli hjá Gísla Jónssyni hálft annað ár Svo nam hann land, nefndi Horn og býr þar.

**Ólafur Jónasson**, fæddur í Flatatungu í Skagafirði 24. september 1870. Foreldrar hans voru Jónas Kristjánsson, bóndi í nokkur ár á Hring í Akratorfu í Blönduhlíð, og kona hans Kristrún Krstjánsdóttir, ættuð úr Svarfaðardal.



*Ólafur Jónasson og Helga Jónasdóttir.*

Ólafur var hjá foreldrum sínum til ellefu ára aldurs, þá dó móðir hans. Fór hann þá að Hjaltastaðahvammi til bróður síns, er þar bjó, var þar fimm ár, svo tíu ár í Djúpadal. Þar varð hann, þegar hann var um tvítugt, fyrir því slysi að missa annað augað, var að meðhöndla byssu. Fór hann þá suður í Reykjavík til að fá sig græddan, og þjáðu hann mjög um tíma afleiðingar af slysinu.

Árið 1894 giftist Ólafur og gekk að eiga Helgu Margrétu Sigríði Jónasdóttur bónda í Bjarnastaðagerði, Jónssonar og konu hans, Ragnheiðar Oddsdóttur.

Ólafur flutti frá Minna Akragerði í Blönduhlíð, hvar hann bjó eitt ár, til Ameríku árið 1900. Fyrsta ár sitt hér í landi voru þau hjónin í Shoal Lake bygðinni. Hafði Ólafur þar í kaup 5 dollara um mánuðinn yfir veturinn. Næstu

þrjú ár voru þau í Winnipeg, Selkirk, og við Nettle læk milli Selkirk og Winnipeg Beach.

Árið 1903 nam Ólafur land í Árnesbygð og nefndi Djúpadal, flutti þangað vorið 1904.

Þegar Ólafur settist að á landi sínu, var þéttur skógur á því öllu og stóð líka mjög lágt. Nú er hann búinn að ryðja af því meiri hluta skógarins, og þurka það upp, með því að grafa skurði þar sem blautast var, og er nú meiri hluta landsins búið að breyta í akur og engi.

Börn þeirra hjóna eru fjögur: Jónas Gísli, Óli, Eiríkur Valdimar og Þórey Kristrún.

**Halldór Sæmundsson,** fæddur á Hriggjum í Göngu-skörðum í Skagafirði. Foreldrar hans voru Sæmundur Halldórsson og Ingiríður Jóhannesdóttir bónda í Mörk í Laxárdal í Húnavatnssýslu og konu hans .Solveigar Guðmundsdóttur.

Halldór flutti frá Blönduósi í Húnavatssýslu til Ameríku nálægt aldamótunum. Hann nam land í Árnesbygð og nefndi Baldurshaga, bjó þar til þess hann fyrir nokkrum árum síðan flutti vestur að hafi.

Kona Halldórs er Guðrún Illugadóttir, Hreggviðssonar skálds, er hafði búið í Húnavatnssýslu.

Antóníus Guðmundsson, fæddur í Garði í Fljótsbygð í Nýja Íslandi 8. febrúar 1882. Foreldrar hans voru Guðmundur Marteinsson bóndi í Garði, er enn á lífi, og kona hans Kristín Gunnlaugsdóttir frá Flögu í Breiðdal, dáin 1897.

Antóníus ólst upp í Garði hjá foreldrum sínum; var um það 15 ára, þegar móðir hans dó. Hann kvæntist 12. apríl 1904. Kona hans heitir Friðrika, dóttir Sigurðar Sigurbjörnssonar kaupmanns og póstafgreiðslumanns í Árnesi og konu hans Snjólaugar Jóhannesdóttur.

Antóníus nam land í Árnesbygð, hið næsta vestan við Baldurshaga, og nefndi Steinaborg, eftir Steinaborg á Berufjarðarströnd, bænum, sem maður sá er hann heitir eftir, Antóníus Eiríksson, bjó á. Svo keypti hann Baldurshaga og flutti þangað eftir að hann hafði búið 10 ár á Steinaborg.

Börn Antóníusar og Friðriku eru fjögur: Snjólaug Lillian, Friðrik Antóníus, Sigurður og Kristinn Guðmundur.

**Einar Guðmundsson,** fæddur á Keldum í Mýrum í Hornafirði í Austur Skaptafellssýslu 1. september 1843.

Foreldrar hans voru Guðmundur Pálsson og Guðrún Magnúsdóttir. Guðmundur bjó á Rauðabergi í sömu sveit, en Páll faðir hans á Dilksnesi í Nesjum. Kona hans hét Álfheiður.

Einar ólst upp á vegum föður síns, þar til hann var 14 ára gamall, fór þá að vinna fyrir sér. Þegar hann var þrítugur, fór hann austur á Jökuldal, þar kvæntist hann Guðríði Benediktsdóttur. Hún var fædd og uppalin í Vopnafirði. Einar misti hana eftir tólf ára samveru. Hann kvæntist aftur 29. janúar 1896, Margrétu Sigurðardóttur. Sigurður var Sigurðsson, bjó í Strandhöfn í Vopnafirði í nokkur ár. Hann var um tíma sýslumannsskrifari. Kona hans hét Guðríður Benediktsdóttir.

Einar flutti frá Hvammsgerði í Vopnafirði til Ameríku árið 1887. Ekki var nú peningaeignin mikil, þegar hann kom til Winnipeg, að eins fjórar krónur. Hann flutti til Nýja Íslands um haustið, settist að í Árnesbygð og var í Hulduárhvammi um veturinn, nam land og nefndi Einarsstaði, flutti þangað vorið 1888 og hefir síðan búið þar. Þar misti hann fyrri konu sína, og áttu þau ekkert barn. En með seinni konu sinni átti hann sjö börn og eru sex á lífi: 1. Magnús, 2. Guðríður, gift Eiríki Sigfússyni, bónda á Reykhólum í Hnausabygð, áður getið; 3. Guðrún, 4. Friðrik, 5. Þórunn Elísabet, 6. Guðný Ingibjörg. Svo eiga þau hjónin fósturson, er heitir Einar Benedikt.

Einar var, sem áður er getið, félaus þegar hann kom til Nýja Íslands, en honum hafa blessast vel efni sín á Einarsstöðum, hefir líka unnið þar mikið, hálft landið komið í ræktun, skógurinn tekinn í burtu.

**Jóhann Stefánsson**, fæddur í Tungu á Svalbarðsströnd 1828, dáinn 31. desember 1892. Faðir hans var Stefán bóndi í Tungu, Magnússon bónda á Gautsstöðum á Svalbarðsströnd. Móðir Stefáns, kona Magnúsar, hét Þorbjörg, en móðir Jóhanns, kona Stefáns, hét Rósa Sigurðardóttir, systir Þorsteins bónda á Öxnhóli í Hörgárdal.

Jóhann ólst upp hjá foreldrum sínum. Árið 1861 kvæntist hann Ingibjörgu Jóhannesdóttur, fædd 1. september 1841. Jóhannes var Jónsson, bjó í Hofsstaðaseli í Skagafirði. Kona hans hét Inga Jónsdóttir, bónda á Merkigili í Skagafjarðardölum. Móðir hennar hét Ingibjörg Jónsdóttir.

Eftir að Jóhann giftist, bjó hann á Dálksstöðum á Svalbarðsströnd í fjögur ár, flutti svo að Kroppi í Eyjafirði

og bjó þar til þess hann flutti til Ameríku árið 1876. Fyrsta vetur sinn í Nýja Íslandi var hann í Nýhaga hjá bræðrunum Friðbirni og Þorláki Björnssonum, nam land í Árnesbygð vorið 1877 og nefndi Hulduárhvamm, og bjó þar í fjögur ár. Hann var í sveitarstjórn Árnesbygðar, var einn af þeim, sem höfðu umsjón á stjórnarláninu.

Vorið 1881 flutti Jóhann til Dakota, sendi Jóhannes son sinn með sumt af gripum sínum suður haustið áður, í samferð með þremur öðrum, er fluttu til Dakota.

Jóhann nam land í Mountain-bygð, mílu fyrir sunnan og vestan Mountain og nefndi Tungu; þar bjó hann til þess hann lézt.

Jóhann tók mikinn og góðan þátt í safnaðarmálum Víkursafnaðar í Dakota. Hann var vel ritfær maður, ritaði oft greinar í Norðanfara meðan hann var á Íslandi.

Börn Jóhanns og Ingibjargar voru sjö, dó eitt á Íslandi og tvö í Nýja Íslandi; þau sem lifa eru: 1. Inga, býr í Climax, Sask.; maður hennar var Björn Þorláksson frá Stórutjörnum, látinn fyrir mörgum áum. 2. Jóhannes, fæddur 27. júní1867, býr í Wynyard-bygð, Sask.; kona hans var Guðfinna Sigfinnsdóttir, ættuð úr Norðurmúlasýslu, látin fyrir fáum árum. 3. Sigurrós, gift Kristjáni Jósefssyni, bónda í Mozart-bygð, Sask. 4. Vilhjálmur, fæddur í Hulduárhvammi 3. nóv. 1879; hann stundaði háskólanám í Grand Forks, N.D. og í Iowa City, lauk námi í Harvard háskóla, gerðist síðan sem kunnugt er heimskautalanda könnunarmaður. Hann hefir farið tvisvar til Íslands og fór víða um landið í seinni ferðinni.

**Jónas Jónsson,** fæddur í Hörgsdal í Mývatnssveit 6. maí 1826, dáinn 31. janúar 1911. Faðir hans var Jón Magnússon, bóndi í Hörgsdal. En um móðurætt Jónasar hefir sá, sem ritar, ekki getað aflað sér upplýsingar.

Austur á land flutti Jónas, þegar hann var á þrítugsaldri. Hann bjó í mörg ár á Hrærekslæk í Hróarstungu; þar kvæntist hann Halldóru Ásgrímsdóttur bónda á Hræreksslæk Guðmundssonar. Bræður hennar voru: Páll, hann bjó á ýmsum bæjum í Hróarstungu; Guðmundur á Snotrunesi í Borgarfirði; en systur Halldóru voru: Guðrún, kona Einars Guðmundssonar á Galtastöðum fremri í Hróarstungu, seinna í Nýja Íslandi og Dakota; og Þórdís, kona Sölva Þórarinssonar frá Víðivallagerði í Fljótsdal; og Þórunn, kona Sigfúsar bróður Sölva, sem getið er hér að framan.

Systur Jónasar voru: þrjár: Hólmfríður yfirsetukona, er flutti vestur um haf frá Seyðisfirði árið 1883 ásamt tveimur dætrum sínum, Albínu og Kristínu; þær dvöldu í Winnipeg allmörg ár og þar dó Krstín; Albína flutti með móður sinni vestur til Seattle, Wash., og giftist þar Eyjólfi Tómassyni, ættuðum af Suðurlandi; Hólmfríður er nú dáin fyrir mörgum árum, en Albína og Eyjólfur búa nálægt Seattle og eiga uppkomin börn. Önnur systir Jónasar er Soffía, kona Jósefs Davíðssonar frá Ferjubakka í Þingeyjarsýslu; þau hafa um mörg ár búið að Baldur, Man. Þriðja systirin var Kristjana Ingibjörg, kona Magnúsar Jóhannessonar frá Kleif í Þorvaldsdal (sjá seinna).

Jónas flutti frá Hrærekslæk vestur um haf til Nýja Íslands árið 1876, nam land í Árnesbygð og nefndi Lund; þaðan flutti hann eftir fá ár til Winnipeg, var meðan hann dvaldi þar, á Rauðárbakka sléttunni. Til Nýja Íslands var hann fluttur aftur í ágústmánuði 1883, var fyrst um eitt ár eða nálægt því í Árnesi, flutti svo að Hulduárhvammi og bjó þar til dauðadags. Halldóra ekkja hans er á lífi, þegar þetta er ritað.

Þréttán börn eignuðust þau hjón, en urðu fyrir því mótlæti að missa tólf, öll mjög ung. Ein stúlka dó 18 ára gömul. Á lífi er Jón býr í Hulduárhvammi. Kona hans er Ragnheiður Stefánsdóttir bónda í Kverkatungu á Langa nesströndum, Árnasonar, og konu hans Ingveldar Sigurðardóttur bónda í Svínafelli í Hjaltastaðaþinghá Jónssonar, og konu hans Ragnhildar Gísladóttur frá Hvanná á Jökuldal.

Jónas í Hulduárhvammi var nokkuð einkennilegur maður, spaugsamur var hann en stundum óvæginn í orðum og grófyrtur, en varla mun nokkrum hafa getað þótt við hann, því hægt var að skilja að hugur fylgdi ekki alténd máli og að innra fyrir hjá honum bjó drengskapur og göfuglyndi.

Jónas hafði sterka trú á því, að vel mætti lifa í Nýja Íslandi, ef bjargrægðisvegirnir þar væru vel notaðir. Bréf er ritað af honum í Framfara í október 1879, sem gaman er að lesa. Og er það vel þess virði að koma hér á ný fyrir almennings sjónir.

Bréf frá Jónasi Jónssyni á Lundi í Árnesbygð til ritstjóra Framfara:

"Mikið ágæti væri það, ef eldiviðarsalan gæti komist hér á, því það er einmitt, eins og þér segið, atvinnuleysið,

sem fjötrar framfarirnar. Hvílíkt forðabúr er ekki vatnið hérna, ef efni jykust til að koma upp hæfilegum skipum og veiðarfærum. Hvílíkt forðabúr væri ekki ströndin, þegar búið væri að ryðja hana og plægja, og fallegt verður að sjá fögur skip og fjörga drengi sigla á vatninu framundan fallegum bæjum og fögrum ökrum, og þegar hjarðirnar hlaupa úr skrúðgrænum girðingum ofan á sandinn til að anda að sér hinum kælandi loftsstraumum frá vatninu að hrista af sér ólukku flugurnar.

Íslendingum hefir verið brugðið um það, að þeir einblíndu of mjög á stundarhaginn, og því munu menn hafa svo mikið álit á Dakota, en varla munu 20 ekrur í Dakota happadrýgri, þegar stundir líða, en fimm ekrur hér, þegar litið er á þá gnægð fiskjar, sem hér er að fá; 25 hér verða á móti 100 þar. Við Mývatn á gamla Íslandi er dæmið deginum ljósara þessu áliti mínu til sönnunar, því engin sveit þar heima stóð móti Mývatnssveit til jafnaðar, þegar hafísar og jarðeldagos kreptu að landinu. Þetta gjörði silungsveiðin, sem guð varðveitti í vatninu, þó jörðin í kring stæði í hinum dimmrauða hraunleðju loga frá eldfjöllunum."

**Kristján frá Klúkum** við Eyjafjörð flutti til Ameríku árið 1876, fór til Nýja Íslands, nam land í Árnesbygð og nefndi Fagranes. Hann flutti þaðan til Dakota, nam land í Mountain-bygð. Nánari upplýsingar um hann skortir þann, sem þetta ritar.

**Þorsteinn Guðmundsson,** úr Borgarfirði syðra, setti heimilisrétt á Fagranes. Hann flutti þaðan til Winnipeg og dó þar nokkru eftir aldamótin.

**Jón Jónsson,** fæddur í Flekkuvík á Vatnsleysuströnd í Gullbringusýslu 1. september 1855. Faðir hans var Jón Þorkelsson bóndi í Flekkuvík. Þorkell faðir hans bjó á Halakoti á Vatnsleysuströnd. Kona hans, móðir Jóns eldra, hét Þórunn Egilsdóttir, en kona Jóns Þorkelssonar, móðir Jóns yngra, sem nú býr í Fagranesi, hét Guðrún Eyjólfsdóttir, orðlögð kona fyrir gestrisni og mannúð. Móðir hennar hét Herdís Ingjaldsdóttir, systir Sigurðar bónda á Hrólfsskála á Seltjarnarnesi í Gullbringusýslu, og var sá Sigurður föðurfaðir Sigurðar Péturssonar kapteins á Gullfossi.

Jón Jónsson ólst upp í Flekkuvík hjá foreldrum sín-

um. Hann kvæntist þar árið 1885 Kristjönu Magnúsdóttur, bónda á Neðrahrepp í Skorradal í Borgarfjarðarsýslu, og konu hans Sigríðar Bjarnadóttur, Gíslasonar hreppstjóra og sjálfseignarbónda á Neðrahrepp; gekk jörðin í erfðir frá honum til Magnúsar sonar hans. Gísli var Árnason, en móðir hans hét Anna Þuríður Ólafsdóttir, Brynjólfssonar á Hlíðarenda, Þórðarsonar biskups í Skálholti, Þorlákssonar. — Móðir Magnúsar á Neðrahrepp hét Þuríður, dóttir Teits klæðavefara í Reykjavík.

Jón og Kristín bjuggu eitt ár í Flekkuvík, fluttu það-



*Jón J. Þorkelsson, kona hans og börn.*

an til Ameríku árið 1886, settust að í Árnesbygð og voru þar fyrst hjá Sigurði Sigurbjörnssyni í Árnesi hálft annað ár og leið þar vel, svo í Litlateigi (nú kallað Teigur) í Hnausabygð í fimm ár. Að þeim tíma liðnum keypti Jón svo landið Fagranes og flutti þangað, en nam heimilisréttarland hálfa aðra mílu fyrir vestan Árnes járnbrautarstöðina.

Börn þeirra hjóna eru tvö: Guðrún, fædd í járnbrautarvagni í Vestur-Selkirk á leiðinni til Nýja Íslands 4. ágúst sumarið sem þeu komu að heiman; Sigurður, býr í Fagranesi, kvæntur Jóhönnu Sumarliðadóttur. Hún er bróðurdóttir Finnboga á Finnbogastöðum.

Jón kveðst aldrei hafa unað sér vel hér í landi. Stundaði sjávaratvinnu á íslandi, var mjög hneigður fyrir hana. Honum þóttu flutningsbátarnir á Winnipegvatni, sem hann sá fyrst þegar hann var kominn til Nýja íslands, nýkominn að heiman, heldur ómyndarlegir í samanburði við bátana á íslandi.

Jón hefir gert miklar umbætur á löndum sínum. Þreskivél hafa þeir feðgar keypt, þá fyrstu þreskivél í Árnesbygð.

**Jón Sigurðsson Voger.** Móðir hans var Oddný Hannesdóttir, sú er bygði Oddnýjarstaði. Jón kom frá íslandi árið 1876, nam land í Árnesbygð og nefndi Vatnsnes. Hann druknaði í Winnipegvatni 1. júlí 1879, var að vitja um net á valtri byttu síðla dags. Morguninn eftir var farið að leita hans, og fanst líkið þá flækt með annan fótinn í netinu. Hann bjó á Oddnýjarstöðum með móður sinni. Bróðir hans hét Kristján Lífmann. Hann nam land skamt frá Oddnýjarstöðum og nefndi Staðarstað; þar er ekki búið nú.

**Stefán Sigurðsson**, fæddur á Víðivöllum í Blönduhlíð í Skagafirði 18. júní 1843. Faðir hans var Sigurður Sigurðsson, bóndi á Laugalandi á Þelamörk og Myrká í Hörgárdal, flutti þaðan búferlum vestur í Skagafjörð og dó á Sauðárkróki árið 1895, var fæddur árið 1819, var góður járnsmiður. Sigurður faðir hans bjó á Grundargerði í Blönduhlíð; faðir hans hét Hrólfur, kominn af Hrólfi sterka á Víðimýri. Móðir Stefáns hét Ingibjörg (dóttir Magnúsar, er kallaður var hlaupa-Magnús.)



*Stefán Sigurðsson*

Stefán var fyrstu ár æfi sinnar á Víðivöllum hjá hjónunum Ólafi og Salnýju er þar bjuggu; var þar til þess hann var sex ára gamall, svo tvö ár hjá sonum þeirra á Hrólfsstöðum í Blönduhlíð. Svo var hann átta ár á Hvammskoti í Skefilsstaðahreppi, hjá móður sinni og

manni hennar Jóni Sveinssyni. Árið 1859 fór hann norður í Hörgárdal og var þar hjá ýmsum vinnumaður til þess hann árið 1874 17. október giftist Kristbjörgu Nikulásdóttur bónda í Hólkoti í Möðruvallaklausturs sókn og fyrri konu hans Kristbjargar Jóhönnu.

Stefán bjó eitt ár á Hálsi í Öxnadal, flutti þaðan vestur um haf til Nýja Íslands árið 1876. Hann ætlaði sér að setjast að skamt frá Víðivöllum við Íslendingafljót, en hætti við það af því vatnið flóði þá þar á land upp. Fór hann þá suður í Árnesbygð, nam land og nefndi Víðivelli. En fyrst settist hann að á næsta landi þar við, misti barn fyrstu nóttina, sem hann var þar. Öll peningaeign hans var 25 cent. Fyrir þau keypti hann fjalir í kistuna utan um barnið. Svo bætti það á bágindin, að hann veiktist í bólunni, og lá 24 vikur í rúminu. Hann var búinn að byggja hús á landi sínu áður en hann lagðist og flutti í það strax eftir að hann var kominn á fætur.

Að eins einn mánuð allan sinn langa tíma í Nýja Íslandi hefir Stefán farið út í vinnu; vann einn mánuð uppi í Winnnipeg. Hann byrjaði á greiðasölu fyrir ferðamenn annan veturinn, sem hann bjó á Víðivöllum, og hafði hana þar til járnbrautin var lögð norður að Íslendingafljóti.

Stefán misti konu sína 16. júní 1890; þau áttu fjögur börn. Á lífi eru tveir synir: Hrólfur Sigurður, kaupmaður í Árnesi; verzlar með fisk og almennar nauðsynjavörur, hefir líka frystihús á Oddnýjarstöðum; hann er tvígiftur, var fyrri kona hans Kristín Sveinsdóttir, stjúpdóttir Guðmundar Elíassonar á Laufhóli í Árnesbygð. Seinni konan er Elín Eggertsdóttir Arasonar. Annar sonurinn er Friðjón Ármann, hefir félagsverzlun við bróður sinn.

Stefán kvæntist í annað sinn 18. desember 1890 Guðrúnu Magnúsdóttur bónda á Auðnum á Vatnsleysuströnd, Þorkelssonar, og konu hansVigdísar Guðmundsdóttur; Guðmundur sá var næturvörður í Reykjavík í 40 ár.

Börn Stefáns og seinni konu hans voru átta: 1. Magnús, féll í Belgíu 13. nóvember 1917; 2. Vigdís, gift Jóni Sigurþór Einarssyni, bónda við Winnipegosis; 3. Sigurður, heima hjá foreldrum sínum; 4. Ingiberg, dó 18 mánaða gamall; 5. Ingiberg, er heima hjá foreldrum sínum; 6. Margrét, 7. Ingmar Guðmundur, hann drukknaði austur í Keewatin 22. nóvember 1919. 8. Stefán Ágúst.

Áður en Stefán giftist átti hann son, er Benóní heitir,

býr í Garðar,bygð, N. Dak. Móðir hans er Sigríður Gunnlaugsdóttir bónda á Nýjabæ í Hörgárdal.

**Ólafur Ólafsson,** eyfirzkur maður, kom frá Íslandi árið 1876, nam land í Árnesbygð og nefndi Birkivelli. Þaðan flutti hann til Dakota, nam land í Mountain-bygð. Hann var faðir Guðrúnar konu Ole Oyes, norsks manns, kaupmanns í nokkur ár á Mountain, N. D.; og Gríms bónda í Roseau í Minnesota.

**Magnús Jóhannesson,** fæddur á Kleif í Þorvaldsdal á Árskógsströnd við Eyjafjörð 6. desember 1836. Foreldrar hans voru Jóhannes Brandsson, bóndi á Kleif, og kona hans Sigurlaug Þorkelsdóttir bónda á Selárbakka í sömu sveit.

Magnús misti föður sinn, þegar hann var 15 ára gamall; fór hann þá að Stærraárskógi til Magnúsar bónda Eyjólfssonar, sem hann var heitinn eftir, og var þar þrjú ár. Eftir það var hann hjá ýmsum vinnumaður í mörg ár, var í tvö ár á Kleif bústjórnarmaður hjá ekkju Þorkels bróður síns, sem druknaði. Í þrjú ár var hann í Stærraárskógi hjá séra Hjálmari Þorsteinssyni, fór með honum austur að Kirkjubæ í Hróarstungu, stýrði þar búi hans í þrjú ár, fór að þeim liðnum að Hrærekslæk og bjó þar til þess hann flutti vestur um haf árið 1876.

Magnús kvæntist árið 1873 Kristjönu Ingibjörgu, systur Jónasar á Hrærekslæk, seinna í Hulduárhvammi í Árnesbygð (sem getið er hér að framan).

Fyrsta veturinn sinn í Nýja Íslandi var Magnús í bjálkakofa við vatnið skamt frá Árnastöðum í Árnesbygð, ásamt þremur öðrum fjölskyldum. Flutti um vorið 1877 á land, er hann nam og nefndi Litlaskóg (seinna nefnt Oddi). Þar var hann þrjú ár, fór vorið 1880 að Árnastöðum, og misti konu sína þar 12. desember sama ár. Þau áttu fjóra syni. Sá elzti, Jón, dó í Winnipeg; Þorkell, býr á Grund í Víðinesbygð, kvæntur Maríu Friðriku Jóhannsdóttur Árnasonar, er bjó á Espihóli í Víðinesbygð, og konu hans Soffíu Abrahamsdóttur; Kristinn Gunnar, múrsteinahúsagerðarmaður í Winnipeg, kvæntur Sigþrúði Sigurðardóttur frá Pine Valley, Man.; Kristján, tinsmiður í Winnipeg, kvæntur Sigurlaugu Björnsdóttur, bróðurdóttur Baldvins á Kirkjubæ í Hnausa-bygð.

Magnús flutti frá Árnastöðum til Winnipeg árið 1881; hann kvæntist þar árið 1883 Þorbjörgu Þorláksdótt-

ur, Kristjánssonar bónda á Fossvöllum í Jökulsárhlíð í Norðurmúlasýslu.

Frá Winnipeg flutti Magnús árið 1885 aftur til Nýja íslands, setti þá heimilisrétt á Birkivelli í Árnesbygð og bjó þar sex ár. Hann er nú á Grund hjá Þorkeli syni sínum.

**Jón ólafsson,** fæddur á Syðri Steinsmýri í Vestur-Skaptafellssýslu 26. apríl 1851. Foreldrar hans voru ólafur ólafsson og kona hans Margrét Gissursdóttir, bónda á Efriey í sömu sýslu.

Foreldrar Jóns bjuggu á Syðri Steinsmýri, en föðurfaðir hans, ólafur Jónsson, bjó á Undirhrauni í sama hreppi. Sagt er, að hann hafi flúið suður í Fljótshlíð í Skaptáreldunum, og verið þar tvö ár, og að þeim liðnum flutti hann til baka að Undirhrauni. Þegar hann á leiðinni þangað var kominn að Kúðafljóti, að vestanverðu við það, bærinn Undirhraun stendur að austanverðu, ætlaði hann að gera kúm sínum vel til, hvíla þær, þreyttar af Mýrdalssandi, áður en hann ræki þær á sund í fljótið, en kussur þökkuðu fyrir, flýttu sér út í fljótið og hvíldu sig ekki fyr en á sínum gömlu stöðvum.

Jón misti föður sinn, þegar hann var á tíunda aldursári. Hann var eftir það á Syðri Steinsmýri hjá móður sinni og seinni manni hennar, Páli Sigurðssyni, þar til hann var 26 ára gamall. Til Vestmannaeyja fór hann árið 1882, var þar tvö ár; árið 1884 kvæntist hann Margrétu Þorbjarnardóttur bónda á Kirkjulandshjáleigu í Austur-Landeyjum í Rangárvallasýslu og konu hans Guðrúnar Sigurðardóttur.

Jón flutti frá Vestmannaeyjum til Ameríku árið 1884, setti heimilisrétt á Búastaði í Árnesbygð og bjó þar til þess hann árið 1891 flutti til Selkirk. Þá seldi hann land sitt fyrir eina 80 dali, var þú búinn að gera þar miklar umbætur, að ryðja nokkuð í burtu af skóginum og byggja allgott íveruhús.

í Selkirk er Jón búinn að vera í 30 ár. Hefir unnið þar fyrir fiskiveiðafélög.

Þau hjónin eiga þrjá syni, er heita: Guðmundur, býr á Victoria Beach, kvæntur hérlendri konu; ólafur Maríus, býr í Selkirk, er vélarstjóri á Gufubátnum Wolverine, kvæntur Helgu Þorvaldsdóttur Guðmundssonar ; Jóhann, býr í Selkirk, stundar þar tinsmíði, kvæntur enskri konu, fædd

í London. Jóhann var hátt á fjórða ár í herþjónustu, kom til baka 20. ágúst 1919.

**Pétur Jónsson,** fæddur í Bót í Hróarstungu, um eða stuttu eftir 1850. Foreldrar hans voru Jón Jónsson bóndi í Bót og kona hans Margrét Jónsdóttir, bónda í Bót- Jónssonar prests í Vallanesi. Móðir Margrétar var Þórunn Eiríksdóttir bónda á Stórasteinsvaði Hallsonar og konu hans Ingibjargar Sigurðardóttur.

Pétur ólst upp í Bót hjá foreldrum sínum; fór um tvítugsaldur að Litlasteinsvaði í Hróarstungu til Halls bónda Einarssonar og var hjá honum vinnumaður í nokkur ár. Kona Péturs var Margrét Björnsdóttir bónda á Bóndastöðum í Hjaltastaðaþinghá, Björnssonar, Skúlasonar. Móðir Margrétar, kona Björns á Bóndastöðum, var Anna Jónsdóttir, prests á Hjaltastað, Guðmundssonar.

Pétur fluttist vestur um haf til Nýja Íslands árið 1876, nam land í Árnesbygð og nefndi Laufhól. Þaðan flutti hann á útflutningaárum Nýja Íslands til Dakota, nam þar land á Pembina-fjöllum. Hann andaðist í Winnipeg snemma vetrar 1918.

**Hjörleifur Björnsson,** fæddur í Garðakoti í Mýrdal 26. marz 1841, dáinn 13. marz 1906. Foreldrar hans voru Björn Marteinsson, bóndi í Garðakoti, og kona hans Oddný Guðmundsdóttir frá Kerlingardal í Höfðabrekkusókn í Skaftafellssýslu.

Kona Hjörleifs, Ragnhildur Árnadóttir, fædd á Dyrhólum í Mýrdal 12. júní 1842. Árni var sonur Hjartar bónda Loptssonar á Hvoli í Dýrhólasókn, en móðir Ragnhildar var Elín dóttir Þorsteins hreppstjóra Þorsteinssonar í Sólheimasókn.

Hjörleifur og Ragnhildur giftust árið 1864 og bjuggu í Garðakoti þar til þau árið 1876 fluttu vestur um haf til Nýja Íslands og nam Hjörleifur land í Árnesbygð og nefndi Hjörleifsstaði, bjó þar þrjú ár, nam svo land að nýju til og nefndi Laufhól og flutti þangað. Hans bær var nefndur Syðri Laufhóll, en Norður Laufhóll þar sem Pétur Jónsson bjó og síðar Gísli Jónsson, sem fyrst nam Grenivelli, sem síðar verður getið.

Á Syðra Laufhóli er ekki búið nú.

Börn Hjörleifs og Ragnhildar eru: Elín, gift Eggert Jóhannssyni fyrrum ritstjóra Heimskringlu; þau búa í Vancouver, B.C.; Guðrún, gift Jóhanni Magnúsi Bjarna-

syni söguskáldinu alkunna, búa í Shoal Lake bygð; Oddný, gift James Lee; Ingveldur, gift Arthur Harkness; Björn, giftur Þorbjörgu Sigfúsdóttur, búa í Winnipeg; Hjörleifur, giftur Guðrúnu Bjarnadóttur frá Grenivöllum, búa í Wynyard, Sask.

**Sigurður Sigurbjörnsson**, fæddur á Núpi í Axarfirði 18. október 1852. Faðir hans var Sigurbjörn bóndi á Núpi, síðar á Sjóarlandi í Þistilfirði, dáinn í Svalbarðsseli í sömu sveit. Hann var Friðriksson, bónda á Núpi, Árnasonar bónda í Þingeyjarsýslu, Sigurðssonar. Móðir Sigurbjörns, kona Friðriks á Núpi, hét Guðný Björnsdóttir. Kona Sigurbjörns, móðir Sigurðar, hét Þórunn Steinsdóttir, bónda á Harðbak á Melrakkasléttu, Hákonarsonar bónda á Grjótnesi. Móðir Þórunnar hét Sesselja Sigurðardóttir bónda á Stafni við Mývatn.

Sigurður flutti frá Sjóarlandi til Ameríku árið 1874, ásamt móður sinni og Friðriki bróður sínum, er dó í Winnipeg árið 1879.

Sigurður var eitt ár í Ontario,, vann þar fyrst járnbrautarvinnu, hafði 1 dollar og 12½ cent á dag. Líka vann hann þar hjá bændum, hafði 7 dollara um mánuðinn. Um uppskerutímann hafði hann 10 dollara kaup um mánuðinn.

Til Nýja Íslands fór Sigurður haustið 1875, var fyrsta veturinn þar á Gimli; nam þá land í Árnesbygð og nefndi Tungu og bygði þar hús bóluveturinn.

Næsta sumar, 1876, í byrjun júnímánaðar, fór Sigurður austur á Canada Kyrrahafs járnbrautina og vann þar til þess í október. Vinnulaun voru einn dollar og hálfur á dag. Fæðið kostaði fimm dollara um vikuna. Þegar hann um haustið var á heimleið, veiktist hann, komst með naumindum í næsta hús við land sitt og lá þar til jóla. Þegar honum var batnað, fór hann í vegavinnuna í nýlendunni og vann um tíma við brúarbyggingu fyrir sunnan Nettle læk. Alt gekk þar nú vel fyrst. En svo einn góðan veðurdag 24. janúar var verkamönnum sagt að hætta við vinnuna og fara norður fyrir sóttvarðarstöð (bóluvörðinn). Orsökin til þess að það var gert, var sú, að bændur í Clandeboye voru hræddir um að þeir mundu fá bóluna af þeim Ný-Íslendingum, sem voru að vinna svona skamt frá þeim, og kröfðust af stjórninni að þeir væru sendir norður og niður (dæmdir óalandi og óferjandi fyrir sunnan Nettlelæk).

Sigurður vann eftir þetta norður í nýlendunni við að leggja veginn þar til hann var fullgjör norður að Fljóti.

Næsta sumar, 1877, fór Sigurður aftur út á járnbraut og vann þar þrjá mánuði.

Hann giftist árið 1879 Snjólaugu Jóhannesdóttur, systur Magnúsar, sem bjó á Birkivöllum, en nú er á Grund í Víðinesbygð, sem áður er getið. Þau Sigurður og Snjólaug voru gefin saman í hjónaband af séra Páli Þorlákssyni á pálmasunnnudag 6. apríl.

Snjólaug er fædd á Kleif í Þorvaldsdal 21. apríl 1847. Hún var fjögra ára gömul, þegar faðir hennar dó, var hún þá tekin í fóstur á Krossum á Árskógsströnd, af hjónum, er þar bjuggu, Þorvaldi Gunnlaugssyni og Snjólaugu Baldvinsdóttur ,og var hjá þeim til þess hún var tvítug; þá giftist hún Þorláki Arngrímssyni frá Stóru Hámundarstöðum í sömu sveit. Móðir hans hét Margrét Björnsdóttir, systir Friðbjörns og Þorláks, er bjuggu í Nýhaga fyrir norðan Gimli. Börn Þorláks og Snjólaugar voru tvö: Snjólaug Soffía, gift kona í Eyjafirði, og Magnús Tryggvi, er býr í Bellingham, Wash., kvæntur Hildigerði Benediktsdóttur Austmanns Jónssonar, er nam landið Stararskóg í Víðirnesbygð. Móðir Hildigerðar, kona Benedikts, var Rannveig Þorleifsdóttir frá Kóreksstaðagerði í Hjaltastaðaþinghá. Magnús Þorláksson er mjög vel gefinn maður, var sögunarvélarstjóri í Selkirk í nokkur ár áður en hann fór vestur að hafi; vinnur þar sömu vinnu.

Þorlákur maður Snjólaugar druknaði vestur á Dýrafirði árið 1871. Fjórum árum síðar fór hún austur að Hrærekslæk í Hróarstungu til Magnúsar bróður síns, og með honum til Ameríku næsta ár, 1876.

Árið 1880 nam Sigurður land að nýju í Árnesbygð og nefndi Árnes, flutti þangað, en hætti við Tungulandið. Svo nokkrum árum síðar tók hann annað heimilisréttarland við hliðina á því fyrra.

Í marzmánuði 1881 fluttu þau hjónin til Winnipeg og voru þar hálft annað ár. Vann Sigurður, meðan hann var þar, fyrir Hudsonsflóa félagið. Sumarið 1882 fór hann suður til Dakota, ætlaði sér að flytja þangað, ef hann fengi þar gott land. Valdi hann sér þar líka gott land skamt fyrir norðaustan Hallson. En innlendur maður, sem vissi um þessa landtöku hans og þriggja annara, sem með honum voru, þaut sem skjótast suður til Grand Forks og setti landtökurétt á land Sigurðar og náði líka réttinum frá

félögum hans, eða af hans völdum mistu þeir löndin. Allir skrifuðu þeir sig fyrir löndunum í Pembina og borguðu þar sitt landtökugjald. Helming þess fengu þeir borgaðan til baka, þegar uppvíst varð að löndin höfðu verið hrifsuð af þeim í Grand Foks.

Sigurður hvarf því, þegar svona fór, aftur til Winnipeg, en var þar ekki lengi, var kominn ofan til Nýja Íslands í ágústmánuði, settist að í Árnesi, og bjó þar til er járnbrautin var lögð norður að Íslendingafljóti. Þá flutti hann sig yfir að brautinni, þangað sem Árnes járnbrautarstöðin er.

Sigurður er búinn að vera póstafgreiðslumaður að Árnes P.O. síðan pósthúsið kom árið 1888, lengst allra núverandi póstafgreiðslumanna í Nýja Íslandi. Verzlun er hann búinn að hafa í 16 ár, hefir hana í félagi við tengdason sinnn, Björn Sveinsson Magnússonar. Í skólanefnd og sveitarstjórn hefir hann verið í mörg ár.

Börn Sigurðar og Snjólaugar eru fimm: 1. Sigurjón, kaupmaður í Árborg, kvæntur Jónu Vopni, systur Jóns J. Vopna í Winnipeg og þeirra systkina; 2. Friðrika, gift Antóníusi Guðmundssyni í Baldurshaga, sem áður er getið; 3. Friðgeir verzlunarþjónn í Riverton hjá Sigurbirni bróður sínum, kvæntur Jóhönnu Guðmundsdóttur; 4. Kristjana, gift Birni Magnússyni, sem áður er getið; 5. Sigurbjörn, kaupmaður í Riverton, sem áður er nefndur og kvæntur er Kristbjörgu, systur konu Sigurjóns bróður hans í Árborg.

**Pétur Árnason,** fæddur í Elivogum í Skagafjarðarsýslu 1832, dáinn 1910. Faðir hans var Árni Egilsson bóndi í Elivogum, síðar á Breiðsstöðum í Gönguskörðum. Kona Árna, móðir Péturs, hét Guðrún Jónsdóttir frá Sjávarborg.

Pétur ólst upp hjá foreldrum sínum, fór frá þeim um tvítugsaldur austur að Hofi í Vopnafirði með séra Halldóri Jónssyni og var þar tvö ár, fór svo að Grímsstöðum á Hólsfjöllum, var þar þrjú ár. Þaðan flutti hann vestur í Skagafjörð, kvæntist stuttu eftir að hann kom þangað Unu Þorvaldsdóttur, systur Þorvaldar sem bjó í Víðidalstungu í Árnesbygð.

Pétur bjó á Ingveldarstöðum á Reykjaströnd. Þaðan flutti hann til Ameríku árið 1876, settist að í Sandvík fyrir norðan Gimli og var þar fimm ár. Hann misti konu

sína þar bóluveturinn. Nokkru síðar giftist hann Guðrúnu Sigurðardóttur, ættaðri úr Skagafirði.

Á útflutningsárum Nýja Íslands flutti Pétur til Winnipeg og var þar þrjú ár, fór svo aftur ofan eftir, setti heimilisrétt á Árnastaði; frumbygginn þar hét Árni Andrésson, sem einnig var frumbyggi í Víðidalstungu, sem um er getið hér að framan. Hann flutti frá Árnastöðum til Sandy River, austur fyrir vatn, og þaðan til Poplar Pork.

Pétur bjó á Árnastöðum í tíu ár. Seldi að þeim tíma liðnum landið Sigurði syni sínum, og dvaldi eftir það lengst af hjá honum þar til hann lézt.

Börn hans eru tvö á lífi: Sigurður, sem áður er nefndur, nú til heimilis á Birkivöllum, og Anna Guðrún, gift enskum manni.

**Elísabet Jónsdóttir,** fædd á Illugastöðum í Laxárdal í Húnavatnssýslu 23. október 1830, dáin 5. apríl 1888. Móðir Elísabetar hét Þuríður, dóttir Vorms Beck á Geitaskarði



Arnljótur B. Olson

*Elísabet Jónsdóttir og dóttir hennar (Mrs. Ágúst Pálsson).*

í Langadal í Húnavatnssýslu. Systkyni Þuríðar voru séra Símon Beck á Þingvöllum og Lárus Beck á Geitaskarði, og Elísabet kona Jóhannesar bónda í Langadal.

Elísabet misti móður sína um það er hún var 12 ára gömul; þá fór hún til Elísabetar móðursystur sinnar og var hjá henni til þess hún var nærri fullorðin; var hún svo í ýmsum vistum í Húnavatnssýslu til þess hún um það hálf þrítug að aldri fór norður í Skagafjörð og giftist þar árið 1858 Árna Jónssyni bónda á Marbæli í Seiluhreppi í Glaumbæjarsókn. Móðir Árna hét Málfríður Ólafsdóttir, systir Gísla í Húsey föður Sigfúsar í Vallholti, sem nam landið Reynivelli í Fljótsbygð.

Árni og Elísabet fluttu frá Marbæli árið 1865, að Kríthóli í Lýtingsstaðahreppi í Skagafirði, keyptu jörðina. En Árni andaðist það ár. Þau höfðu eignast fimm börn, það elzta stúlka, sem Anna hét, dó 1860. Næsta barn, Anna, fædd 30. október 1860, er í Langruth, Man., hefir þar greiðasölu; Jón, býr í St. Andrews, Man., kvæntur hérlendri konu; 4. Jóhann, dáinn í Seattle, Wash., átti Arnfríði Jóhannsdóttur, systur Eggerts Jóhannssonar í Vancouver; Árni, lézt úr bólunni í Nýja Íslandi 11 ára gamall. Sjötta barn Elísabetar, er Elísabet Gísladóttir, kona Ágústs Gunnarssonar, Pálssonar; þau búa í Winnipeg. Gísli faðir Elísabetar var Eiríksson, dóttursonur Gísla Konráðssonar.

Eftir lát manns síns bjó Elísabet á Kríthóli, þar til hún árið 1876 flutti vestur um haf til Nýja Íslands. Hún ætlaði með sveitungum sínum úr Skagafirði norður að Íslendingafljóti, en sökum einhvers atviks varð ekki af því; var hún þá á Gimli um veturinn, flutti norður í Árnesbygð á sumardaginn fyrsta (19. apríl) nam land og nefndi Mel; þar var hún þrjú missiri, en fór þaðan norður að Íslendingafljóti og var þar einn vetur. Vorið 1879 flutti hún til Winnipeg og var þar til þess hún lézt hjá dóttur sinni Elísabetu.

**Albert Jónsson,** fæddur í Hörgsdal í Mývatnssveit 9. september 1855. Faðir hans var Jón Jónsson, bóndi í Hörgsdal, dáinn í Odda í Árnesbygð árið 1908. Jón var bróðir Jónasar í Hulduárhvammi og systra hans, sem getið er hér að framan. Kona Jóns, móðir Alberts, hét Margrét Ingiríður, dóttir Árna Indriðasonar bónda í Hólsgerði í Köldukinn, og konu hans Helgu Sörensdóttur.

Albert var hjá foreldrum sínum til þess hann var 17 ára. Eftir það var hann í ýmsum vistum í Mývatnssveit í níu ár. Í Hólsseli á Hólsfjöllum var hann þrjú ár.

Kona Alberts er Björg Jónasdóttir, bónda á Kráku-

þakka í Mývatnssveit og konu hans Ingibjargar Sigurðardóttur. Faðir Jónasar var Jón bóndi á Skriðulandi í Skriðuhverfi.

Albert flutti frá Hrappsstaðaseli í Ljósavatnshreppi





*Albert Jónsson og Björg Jónasdóttir.*

til Ameríku árið 1889. Hann settist að í Árnesbygð, setti heimilisrétt á landið Mel og býr þar.

Börn þeirra hjóna voru tólf; tvö fyrstu börn sín mistu þau fyrstu vikuna er þau voru á Mel; sjö lifa: 1. Helgi, býr á Lundi í Árnesbygð, kona hans heitir Dorothea og er dönsk að ætterni; 2. Marín Arnfríður, gift J. Anderson, búa í Winnipeg; 3. Kjartan, 4. Jón, 5. Benjamín Þorvaldur, 6. Margrét, 7. Jónas Ingi, og svo er fóstursonur, sem heitir Einar Björgvin Marínó.

**Gísli Jónsson,** fæddur í Hólshjáleigu í Hjaltastaðaþinghá 1. september 1843. Foreldrar hans voru Jón Erlendsson og kona hans Steinunn Gísladóttir. Móðir Jóns, kona Erlendar, hét Gróa. Um ætt þeirra hjóna veit sá, er ritar, ekkert. Þau komu með börn sín á unga aldri norðan úr Þingeyjarsýslu, voru í mörg ár hjá séa Birni Vigfússyni á Eiðum í Suðurmúlasýslu, og svo hjá honum á Kirkjubæ í Hróarstungu; voru líka eitthvað á Valþjófsstað hjá séra Stefáni Árnasyni, og fóru þaðan suður að Berufirði til séra Péturs Jónssonar. Börn þeirra voru þrjú: Jón, Pétur, druknaði í Lagarfljóti undan Fossinnm; Ragnhildur, kona Jóns Jónssonar frá Kelduskógum, bónda í Urðarteigi á

Berufjarðarströnd. Dóttir þeirra var Guðrún, sem var seinni kona þess er ritar.

Steinunn, móðir Gísla Jónssonar, var dóttir Gísla bónda í Hólshjáleigu, Gíslasonar í Njarðvík, Halldórssonar prests á Desjarmýri, Gíslasonar. En móðir Steinunnar, kona Gísla í Hólshjáleigu, hét Vilborg Pálsdóttir, systir Eiríks, bónda á Heykollsstöðum í Hróarstungu, og Margrétar konu Einars Grímssonar bónda í Hólshjáleigu. En hálfsystkin



*Gísli Jónsson og Þóra Eiríksdóttir.*

Steinunnar, eftir seinni konu föður hennar, Guðrúnu Þorláksdóttur frá Ánastöðum, voru Gísli og Þorlákur, bændur í Hólshjáleigu, og systur Guðrún og Vilborg.

Móðir Gísla dó, þegar hann var þriggja ára gamall. Nokkrum árum síðar fluttist hann með föður sínum frá Hólshjáleigu suður í sveitir. Árið 1856 lét faðir hans lífið á þann hörmulega hátt, að hann hrapaði úr fuglabjargi við Papey, er hann var þar á veiðum.

Gísli var hjá ýmsum suður í sveitum um nokkurra ára skeið, hjá Jóni Péturssyni Skjöld í Jórvík í Breiðdal, í Kelduskógum á Berufjarðarströnd og á Kirkjubóli í Fáskrúðsfirði hjá Þorbjörgu, ekkju séra Ólafs Indriðasonar. Þaðan fór hann aftur út í Hjaltastaðaþinghá, að Hólshjá-

leigu til fólks síns, var þar og í Njarðvík og á Hjaltastað hjá séra Jakobi Benediktssyni þar til hann fór til Ameríku árið 1876. Hann nam land í Árnesbygð og nefndi Grenivelli; þaðan flutti hann til Winnipeg í marzmánuði 1882, var þar til þess í ágúst 1883 að hann flutti aftur til Nýja Íslands, settist þá að á Norður Laufhóli, fékk eignarrétt á því landi; var hann búinn að innvinna sér eignarrétt á Grenivöllum, en fékk skift um land.

Gísli bjó á Laufhóli 25 ár, seldi Guðmundi Elíassyni landið árið 1908, flutti inn að Gimli 1914 og hefir þar verzlun.

Hann er tvíkvæntur, og var fyrri kona hans Sigríður Árnadóttir, systir Stefáns í Kverkatungu, föður Ragnheiðar konu Jóns Jónassonar í Hulduárhvammi. Þau giftust 1873, áttu tvo sonu, mistu þann eldri í Duluth á leiðinni að heiman; sá yngri dó á Grenivöllum tveggja ára gamall. Seinni kona Gísla er Þóra Eiríksdóttir, bónda í Útey í Laugardal í Árnessýslu, og konu hans Kristínar Guðmundsdóttur frá Gesthúsum á Seltjarnarnesi. Börnin voru fimm og eru fjögur á lífi: Gísli Þórir, Kristinn, Steinunn og Kristín.

Gísli var lengi í sveitarstjórn Árnesbygðar. Hann er vel gefinn maður, var fjörmaður á yngri árum sínum, verkmaður duglegur og verklaginn.

**Bjarni Pétursson,** fæddur á Reykjum á Reykjaströnd í Skagafirði 3. marz 1850. Faðir hans var Pétur Bjarnason, bóndi á Reykjum, líka um tíma bóndi á Reykjum í Tungusveit. Móðir Péturs hét Sigríður Þorleifsdóttir bónda á Siglunesi í Siglufirði. Móðir Bjarnar, kona Péturs á Reykjum, hét Guðrún Pétursdóttir bónda á Geirmundarstöðum í Sæmundarhlíð í Skagafirði.

Bjarni ólst upp hjá foreldrum sínum. Þau dóu þegar hann var 24 ára gamall. Fór hann þá að búa á Reykjum í Tungusveit þar sem foreldrar hans bjuggu síðast, bjó þar fjögur ár og á Hólakoti á Reykjaströnd um tíma; alls bjó hann á Reykjaströnd í tíu ár. Frá Fagranesi flutti hann til Ameríku árið 1888, var ár og hálft í Winnipeg, fór til Nýja Íslands árið 1890, var ár og hálft í Víðidalstungu hjá Þorvaldi Þorvaldssyni og einn vetur hjá Pétri á Árnastöðum. Þaðan flutti hann að Grenivöllum árið 1892.

Bjarni kvæntist 14. júní 1875 Kristínu Þorleifsdóttur bónda á Reykjum á Reykjaströnd, Jónssonar bónda á Siglu-

nesi og konu hans Kristínar Þorleifsdóttur bónda á Siglunesi. Þau hjónin, Jón og Kristín, druknuðu á heimleið frá Hvanneyrarkirkju. Móðir Kristínar, konu Bjarna, kona Þorleifs á Reykjum, Sigríður Þorbergsdóttir frá Dúki í Sæmundarhlíð, systir Þuríðar konu Þorvaldar, sem var í Víðidalstungu.



*Bjarni Pétursson og Kristín Þorleifsdóttir og börn þeirra.*

Börn Bjarna og Kristínar voru átta, og eru sjö á lífi: 1. Sigríður, gift John O'Her, írskum manni, búa í Árnesbygð skamt fyrir sunnan Grenivelli; 2. Guðrún, gift Hjörleifi Hjörleifssyni, búa í Wynyard, Sask.; 3. Björg, gift Sigurði Bjarnasyni, bónda í Churchbridge, Sask.; 4. Þorleifur, 5. Þuríður, gift Frímanni Benediktssyni Jónassonar, búa á Gimli; 6. Jóhann, 7. Pétur.

Heimili þeirra hjóna, Bjarna og Kristínar, er eitt af laglegustu heimilum í Árnesbygð.

**Sigurbjörn Hallgrímsson,** fæddur á Brekku í Kaupangssveit í Eyjafirði 6. ágúst 1841. Bróðir hans var Magnús í Ingólfsvík í Mikley og er rætt um ætt þeirra bræðra í þætti Magnúsar hér að framan, í landnámssögu Mikleyjar. Systir Sigurbjörns er Helga kona Jónasar Jónassonar prentara Framfara, bróður Sigtryggs Jónassonar.

Kona Sigurbjörns er Anna Sigfúsdóttir bónda á Gljúfrárkoti í Skíðadal í Eyjafjarðarsýslu, og konu hans Önnu Jónsdóttur. Anna er fædd 10. apríl 1842. Þau giftust 27. september 1865; fluttu frá Hesjuvöllum í Glæsibæjarhreppi til Ameríku árið 1874, voru eitt ár í Ontario, fóru haustið 1875 til Nýja Íslands, voru fyrsta veturinn þar á Gimli, en fluttu vorið 1876 norður að Dagverðarnesi og voru þar um sumarið, námu svo land skamt þar fyrir vestan og nefndu Skóga; þar voru þau í þrjú ár, settust svo að á landi því sem þau seinna bygðu sér á framtíðar heimili. Á því landi var frumbyggi Benedikt Ólafsson frá Eiðsstöð-



*Sigurbjörn Hallgrímsson og Anna Sigfúsdóttir og yngsta dóttir þeirra.*

um í Blöndudal í Húnavatnssýslu, og nefndi hann það Flatatungu. Hann flutti þaðan til Dakota.

Sigurbjörn bjó fyrst ekki nema fjögur ár á þessu nýja landi sínu. Flutti árið 1883 norður að Íslendingafljóti og var þar eitt ár. Árið 1884 flutti hann aftur að Flatatungu og hefir búið þar síðan.

Börn þeirra hjóna voru sjö og lifa þrjár dætur: Kristín, ekkja Jóhannesar Magnússonar í Dagverðarnesi; Guðrún Helga, gift Andrési Árnasyni, Andréssonar frá Bægisá, og Hallgríma Friðrika.

**Jóhannes Magnússon,** fæddur í Arnarbæli á Fellsströnd í Dalasýslu 10. apríl 1852, dáinn 21. desember 1917. Foreldrar hans voru Magnús Magnússon, Ólafssonar Hallssonar og Guðrún Jónsdóttir. Þau bjuggu allan sinn búskap í Arnarbæli.

Þegar Jóhannes var sex ára gamall, misti hann foreldra sína; var hann þá tekinn til fósturs af Jóhannesi Bæringssyni á Breiðabólsstað á Fellsströndinni, og var hann þar til þess að hann árið 1872 fór til Stykkishólms og þaðan að tveimur árum liðnum, 1874, til Ameríku, var eitt ár í Ontario, fór til Nýja Íslands 1875, nam land í Árnesbygð og nefndi Dagverðarnes. Þar bygði hann hús í janúar 1876. Til Winnipeg flutti hann á útflutningsárunum, en mun ekki hafa verið þar lengi. Flutti svo aftur til Nýja Íslands og bjó í Dagverðarnesi þangað til hann lézt.

Jóhannes var tvígiftur, hét fyrri kona hans Kristín Jóhannesdóttir, Bæringssonar, sem áður er nefndur; þau giftust árið 1883; hún dó eftir eins árs samveru, og áttu þau eina dóttur er Kristín heitir, gift hérlendum manni.

Seinni kona Jóhannesar er Kristín Sigurbjörnsdóttir frá Flatatungu, þau giftust 9. júní 1885. Börn þeirra voru sextán og eru ellefu á lífi: 1. Hallgrímur Friðrik, 2. Jóhannes, býr í Riverton, kvæntur Kristínu Oddbjörgu Guðnadóttur Oddssonar, ættuð af Suðurlandi; 3. Anna, gift Sigurpálma Jóhannssyni á Breiðabólsstað í Víðirnesbygð; 4. Guðrún, gift Ásgrími Jóhannssyni (Goodmanson), búa við Poplar Park; 5. Sigurbjörg, gift Albert Berry Robinson, búa í Árnesbygð; 6. Magnús Sigurbjörn; 7. Haraldur; 8. Jóhann Kristján; 9. Guðlaugur; 10. Helga; 11. Gunnsteinn.

**Sigurgeir Bjarnason,** frá Stóra-Ósi í Ytri Torfastaðahreppi í Vestur Húnavatnssýslu. Hann flutti til Ameríku árið 1876, nam land í Árnesbygð og nefndi Geirastaði. Flutti þaðan til Dakota, ekki kunnugt hvaða ár. Bróðir Sigurgeirs var Arnbjörn bóndi á Stóra-Ósi. Þeir voru bróðursynir Jóns stúdents Thórarinsens í Víðidalstungu.

Sá sem setti heimilsrétt á Geirastaði, var **Jón Brynjólfsson** frá Skarði í Kirkjuhvammsheppi í Vestur-Húnavatnssýslu. Hann kom frá Íslandi árið 1876, dáinn fyrir mörgum árum síðan,—stuttu fyrir 1900 eða nærri þeim tíma. Kona hans var Ingibjörg Stefánsdóttir bónda á Ánastöðum í Kirkjuhvammshreppi. Börn þeirra voru:

Anna, fyrri kona Samsonar Bjarnasonar frá Vatnsnesi í Húnavatnssýslu, látin í Nýja Íslandi; Stefán, druknaði í Winnipegvatni árið 1910; Sigríður, nú á Betel (á Gimli).

**Guðmundur Þorkelsson,** fæddur í Miðvík í Aðalvík í Ísafjarðarsýslu 10. ágúst 1878. Foreldrar hans voru Þorkell Ísleifsson og María Gísladóttir. Þau bjuggu í Miðvík.

Guðmundur ólst upp hjá föðursystur sinni Guðrúnu Ísleifsdóttur og manni hennar Stefáni Sigurðssyni á Búðum í Hlöðuvík í Aðalvík, og fluttist með þeim vestur um haf tilNýja Íslands árið 1887. Hann nam land í Árnesbygð, seldi það Páli Eiríkssyni Ísfeld, en keypti Geirastaði og býr þar.

Kona Guðmundar er Guðný Anna Stefánsdóttir Jónssonar, Brynjólfssonar, sem áður er getið, og konu hans, Kristínar Jóhannesdóttur. Börn þeirra hjóna eru níu: 1. Jón Ágúst, 2. Stefanía Ingibjörg, 3. Þorkell Stefán, 4. Guðmundur Halldór, 5. Kristín, 6. Sigurlína, 7. Guðrún María, 8. Björn Þorsteinn, 9. Júlíus Guðmundur.

**Hjörtur Jóhannesson,** ættaður af Vatnsnesi í Húnavatnssýslu, kom frá Íslandi 1876, nam land í Árnesbygð og nefndi Fagrabakka. Hann druknaði í Winnipegvatni snemma í ágúst 1877; var að æfa sig í sundlist, var haldið að hann hefði fengið krampa.

**Jóhann Jóhannesson,** fæddur í Miðvík í Aðalvík 1861, dáinn 24. febrúar 1896. Foreldrar hans voru Jóhannes Jónsson bóndi í Miðvík og kona hans Katrín Jónsdóttir, bónda líka í Miðvík.

Jóhann ólst upp hjá foreldrum sínum, en fór eftir lát þeirra til hjónanna Sakarías Sakaríassonar og Helgu Friðriksdóttur hálfsystur sinnar, er bjuggu í Stakkadal í Aðalvík. Hann kvæntist 1874 Sigríði Stefánsdóttur bónda í Hlöðuvík og konu hans Guðrúnar Ísleifsdóttur. Sigríður er fædd í Hlöðuvík 28 ágúst 1865.

Jóhann bjó tvö ár á Látrum í Aðalvík, og flutti þaðan til Ameríku árið 1887, setti heimilisrétt á Fagrabakka í Árnesbygð og bjó þar til þess hann lézt. Ekkja hans býr á Búastöðum, en á Fagrabakka er ekki búið nú.

Börn þeirra hjóna voru fimm, þrjú eru á lífi: Helgi, fiskikaupmaður í Riverton, kvæntur Maríu Guðnýju Jónsdóttur bónda áBreiðumýri í Hnausabygð; Katrín Jóna,

*gift* Jóhanni Gottfreð Arasyni, búa á Gimli; Jóhanna *Þórunn, gift* Sigurbert Jónassyni Einarss*onar,* búa í Selkirk.

**Þorsteinn** Sveinsson, fæddur í Káradalstungu í Vatnsdal í Húnavatnssýslu 26. janúar 1856. Foreldrar hans voru Sveinn Þorsteinsson, ættaður úr Eyjafirði, og kona hans Margrét Sigurðardóttir bónda í Kárastaðatungu. Þorsteinn faðir Sveins bjó um tíma á býli inn til heiða í Svartárdal, sem nefnt var Kóngsgarður.

Þorsteinn ólst upp í Vatnsdal og Víðidal, fór suður til Reykjavíkur 24 ára gamall og lærði þar trésmíði, stundaði í nokkur ár trésmíði í Reykjavík og á Norðurlandi. Árið 1886 fór hann til Englands og Bandaríkjanna til að æfa sig í smíðaiðninni, hvarf þó aftur til Íslands, en flutti þaðan alfarinn til Ameríku árið 1888. Fór þá um haustið til Nýja Íslands og var meiri part vetrarins hjá Kristmundi Benjamínssyni á Ferhring í Gimlisveit. Hann nam land í Árnesbygð og nefndi Svalbakka, lét bæinn heita það af því honum þótti þar fyrst vindurinn heldur svalur á vatnsbakkanum.

Árið 1890 kvæntist Þorsteinn Guðbjörgu Guðmundsdóttur bónda á Þvermýri í Vesturhópi og konu hans Hólmfríðar Bergþórsdóttur. Börn þeirra eru sjö: 1. Margrét, 2. Valdimar, 3. Hólmfríður, gift Jósef Rasmussyni, dönskum manni í Inwood, Man., 4. Rósa Jóhanna, 5. Kristín, 6. Guðrún, 7. Guðmundína Sigurlína.

Systir Þorsteins á Svalbakka er Margrét kona Guðmundar Elíassonar á Laufhóli í Árnesbygð.

**Jón Jónasson, fæddur** á Syðstavatni í Skagafirði 19. desember 1835, dáinn 23. júlí 1886. Foreldrar hans voru Jónas Jónsson, bóndi á Syðstavatni, og kona hans Sigurlaug Einarsdóttir frá Yztavatni. Jón faðir Jónasar á Syðstavatni var Bjarnason og bjó í Álftagerði í Skagafirði. Bróðir hans var Bjarni í Sjávarborg, faðir Bjarna á Daðastöðum, föður séra Þorkels á Reynivöllum í Kjós.

Jónas á Syðstavatni var hæfileikamaður, stundaði lækningar og hepnaðist vel. Hann dó stuttu eftir 1870.

Kona Jóns Jónassonar hét María Rögnvaldsdóttir bónda á Skíðastöðum í Lýtingsstaðahreppi, Þorvaldssonar, Kristjánssonar frá Kimbastöðum í Borgarsveit. Móðir Maríu var Ingibjörg Guðmundsdóttir frá Mælifellsá, en móðir hennar hét Rannveig Skúladóttir frá Axlarhaga. Á lífi

af systkinum Maríu er Rannveig, ekkja eftir Eggert Gunnlaugsson bónda í Húsey í Skagafirði, seinna í Nýja Íslandi, á Miklabæ í Gimlisveit.



*Jón læknir Jónasson.*

Jón Jónsson bjó fyrst á Syðstavatni, flutti þaðan árið 1870 að Saurbæ í Skagafjarðarsýslu; þaðan flutti hann til Ameríku árið 1876, nam land í Árnesbygð og nefndi Skíðastaði, og bjó þar til þess hann árið 1879 flutti til Dakota, nam þar land í Akra-bygð skamt frá Tunguá og bjó þar þrjú ár.

Að áliðnum vetri 1882 tók María kona Jóns að veikjast, og þrátt fyrir viðleitni síns góða manns að bæta henni heilsuna,, andaðist hún þann 19. júlí það ár, 1882. María var fædd 29. sept. 1835. Börn þeirra voru átta, af þeim lifa þrjú: 1. Jónas, bóndi að Markerville, Alberta; hann kvæntist árið 1886 Ingibjörgu Arnveigu Sigfúsdóttur, Gíslasonar frá Vallholti í Skagafirði og konu hans Rannvegar Árnadóttur; 2. Anna Guðrún, kona Samsonar Bjarnasonar bónda í Akra-bygð, N. D.; 3. Ingibjörg, gift Helga Sigurði Helgasyni, tónfræðingi frá Reykjavík.

Eftir lát konu sinnar var Jón meiri part tímans í Pembina þar til hann sumarið 1884 fór heim til Íslands. Jón kunni ekki vel við sig hér í landi; hætt er við hann eins og fleiri áður en hann flutti vestur hafi gert sér of háar vonir um fljótari umskifti á kjörum Íslendinga hér í landi til hins betra, en eðlilegt var að gæti orðið; að svo hafi verið, má ráða af bréfum, sem hann ritaði Norðanfara frá Nýja Íslandi. En svo varð hann fyrir vonbrigðum, þegar hann kom heim til Íslands, í því að hann gæti dvalið þar það sem eftir var æfinnar. En marga vini átti hann á Íslandi, sem tóku honum vel, einkum náfrændi hans og æskuvinur, séra Þorkell Bjarnason á Reynivöllum.

Fljótt fóru menn, á meðan Jón dvaldi á Íslandi, sem gestur þar frá Ameríku, að leita læknishjálpar til hans. En þá fór héraðslæknirinn að amast við honum, hafði við orð, að hann mundi stefna Jóni fyrir héraðsrétti, ef hann ekki hætti að lækna. En Jón lét hann aftur heyra (hér-

aðslæknirinn) að hann gæti ekki stefnt sér fyrir héraðsrétti, þar eð hann væri Bandaríkjaþegn. Svo ef hann ætlaði að stefna sér, yrði hann að gera það fyrir gestarétti.

Jón kvæntist í annað sinn heima á Íslandi Jarðþrúði Jónsdóttur frá Bót í Hróarstungu. Þau áttu tvö börn: Jón, dó á barnsaldri, Margrét, komst til fullorðinsára.

Eftir eins árs dvöl á Íslandi hvarf Jón aftur til Ameríku árið 1885, settist að á sínum gömlu stöðvum í Akrabygð í Norður Dakota, vann í þreskingu um haustið. En að áliðnum næsta vetri (1886) kendi hann fótarmeins, sem óðum fór versnandi, svo álitið var af læknum, að eina ráðið til að bæta honum, væri að taka af honum fótinn, og það var gert í Hamilton, N.D., hjá Önnu dóttur hans og Samson Bjarnasyni manni hennar, er þá bjuggu í Hamilton. En svæfingarlyfin þoldi Jón ekki, vaknaði ekki aftur til þessa lífs, andáðist þennan mánaðardag, sem áður er frá sagt, 23. júlí 1886, þá 50 ára og sjö mánaða og fjögra daga gamall.

Jón læknir Jónasson hné til grafar mikið fyrir tímann, enda var hann harmaður af öllum, sem þektu hann. Hann var einn af allra merkustu íslenzkum frumbyggjum í Vesturheimi, var valmenni í allri framkomu sinni öðrum til góðs. Til bókarinnar var hann mjög vel að sér. Lækningar stundaði hann heima á Íslandi og einnig í Nýja Íslandi og Dakota, og hepnaðist vel. Og það hefir sá, sem ritar, heyrt, að Jón hefði verið búinn að fá svo mikið álit á meðal innlendra í Dakota, að hann hafi átt kost á að taka próf í læknisfræði, ef hann hefði lengur lifað.

Á meðan Jón var í Nýja Íslandi tók hann mikinn þátt í málefnum sem þar voru þá á dagskrá. Í trúmálum fylgdi hann séra Páli Þorlákssyni og kunni að meta þann merkismann að verðleikum.

**Þórður Bjarnason,** fæddur á Hesteyri í Aðalvík í Ísafjarðarsýslu 11. nóvember 1848. Foreldrar hans voru Bjarni Þorsteinsson og kona hans Guðfinna Jónsdóttir. Þau bjuggu á Hesteyri allan sinn búskap. Þorsteinn faðir Bjarna bjó líka á Hesteyri og síðar á Nesi í Grunnavík. Foreldrar Guðfinnu, móður Þórðar, voru Jón Jónsson og Helga Þorgilsdóttir. Þau bjuggu í Neðri Miðvík.

Þórður var á Hesteyri hjá foreldrum sínum til fimtán ára aldurs, svo hjá hálfsystur sinni Guðríði og manni hennar Ísleifi Ísleifssyni, fyrst á Hesteyri og svo norður í Hlöðuvík í Aðalvík í nokkur ár, fór svo til Stefáns Sigurðssonar

að Búðum í Hlöðuvík. Hann kvæntist þar 10. september 1880 Rebekku dóttur Stefáns og konu hans Guðrúnar Ísleifsdóttur, systur Ísleifs, sem áður er nefndur. Rebekka er systir Sigríðar á Búastöðum, ekkju Jóhanns á Fagrabakka.

Þórður flutti vestur um haf til Nýja Íslands árið 1887, og var fyrstu árin þar á Fagrabakka; flutti að Skíðastöðum árið 1890 og hefir síðan búið þar.

Börn þeirra hjóna eru fimm: Guðrún, gift Marteini Jósefssyni, búa á Gimli; Bjarni Guðleifur, Ragnheiður Helga, Stefanía Elín Þóra, Þórður Þorsteinn.

**Bjarni Bjarnason** (sonur Bjarna bónda á Sjávarborg í Skagafirði), bróður Jóns í Álftagerði, föður Jónasar á Syðstavatni, föður Jóns læknis Jónassonar (sjá hér að framan í þætti Jóns).

Bjarni Bjarnason bjó á Daðastöðum í Skagafirði, flutti þaðan til Ameríku árið 1876, nam land í Árnesbygð og nefndi Höfn. Hann bjó þar í tvö ár. Þann 12. nóvember 1878 druknaði hann ásamt Sigurði syni sínum í Winnipegvatni. Sigurður bjó á næsta landi við föður sinn. Feðgarnir fóru seinni part dags á byttu að vitja um fiskinet, er lá fram undan löndum þeirra. Morguninn eftir var þeirra saknað og farið að leita þeirra, og fundust þá líkin eftir nokkra leit.

Bjarni var maður vel að sér. Hann stundaði smáskamtalækningar og hepnaðist vel, þótti atkvæðamaður í sveit heima á Íslandi og veturinn 1876—77 var hann kosinn bygðarstjóri í Árnesbygð.

Bjarni átti mörg börn, en upplýsingar vantar til þess að geta nafngreint þau. Merkastur af börnum hans var séra Þorkell á Reynivöllum í Kjós.

**Pétur Eyjólfsson,** fæddur í Hleinargarði í Eiðaþinghá 8. október 1858. Foreldrar hans voru Eyjólfur Benediktsson og kona hans Þóra Nikuálsdóttir. Eyjólfs er getið í landnámssögu Hnausabygðar, sem frumbyggjara á Eyjólfsstöðum.

Pétur ólst upp í Fossgerði í Eiðaþinghá hjá foreldrum sínum til þess hann var 13 ára gamall, fór þá að Hjartarstöðum í sömu sveit til Friðriks bónda Guðmundssonar, og var þar tvö ár, var svo í nokkur ár í Winnumensku í Eiðaþinghá og Hjaltastaðaþinghá, og í Húsavík í Borgar-

fjarðarhreppi var hann í sjö ár. Þaðan flutti hann til Ameríku árið 1889, var í Hallson-bygð í Norður Dakota í níu ár, flutti norður til Manitoba árið 1898, settist að fyrst við suðvesturhorn Winnipegvatns og var þar tvö ár, fór svo til Árnesbygðar og setti heimilisrétt á Höfn og hefir síðan búið þar.

Kona Péturs er Sigurbjörg Magnúsdóttir bónda á Álftavík í Borgarfjarðar hreppi Sæbjörnssonar og konu hans Sesselju Ögmundsdóttur frá Neshjáleigu í Loðmund-



*Pétur Eyjólfsson og Sigurbjörg Magnúsdóttir.*

arfirði. Sigurbjörg er fædd 31. júlí 1855. Börn Péturs og hennar voru fimm, tvö dóu ung, en á lífi eru: Guðlaug Sesselja, gift Þorsteini Jóhannssyni, Sigurðssonar, þau búa skamt frá Höfn; Þórunn Björg, gift Júlíusi bróður Þorsteins, búa í Grenivík í Fljótsbygð; Magnús Páll, býr í Árnesbygð, kvæntur hérlendri konu.

**Sveinn Magnússon,** fæddur á Síðu í Refasveit í Engihlíðarhreppi í Húnavatnssýslu 25. september 1854. Foreldrar hans voru Magnús Sveinsson og kona hans Gróa Jónsdóttir bónda á Marbæli í Skagafjarðarsýslu. Þau bjuggu á Síðu allan sinn búskap, en Sveinn faðir Magnúsar bjó á Neðri Mýrum í Refasveit.

Arnljotur B. Olson

Hálfbróðir Sveins Magnússonar er Sigurður skáld Jóhannesson frá Mánaskál, en albróðir hans er Oddbjörn Magnússon, á heima í Winnipeg.

Sveinn var á Síðu hjá foreldrum sínum til þess hann var 11 ára gamall, fór þá að Mánaskál til Sigurðar bróður síns og var þar eitt ár. Eftir það var hann í mörg ár hjá ýmsum vinnumaður þar til hann reisti bú á Tungubakka í Laxárdal og bjó þar tvö ár. Hann kvæntist 25. október 1885 Guðrúnu Jóhönnu Sigurðardóttur bónda síðast í Gauksdal í Húnavatnssýslu, og konu hans Guðrúnar Pálmadóttur bónda á Sólheimum í Svínavatnshreppi. Guðrún var systir Bjargar konu Hjálmars í Þverárdal; sonur þeirra var Pálmi bóndi í Þverárdal, seinna einn af frumbyggjum Nýja Íslands í Árnesbygð og í Dakota. Faðir Sigurðar í Gauksdal hét Sigurður, bóndi á Valdár-Ási í Víðidal, nafnkendur maður. Kona hans hét Málfríður.

Sveinn bjó á Sneið í Laxárdal í Húnavatnssýslu sex ár, svo á Mánaskál þar sem Sigurður bróðir hans var, fjögur ár, svo á Balaskarði í sömu sveit þrjú ár. Til Ameríku flutti hann árið 1900, kom til Winnipeg 2. ágúst. Hann var í Winnipeg þar til í febrúar, að hann fór til Nýja Íslands, nam land í Árnesbygð og nefndi Hörghól, lét bæinn heita það af því honum þótti landið heldur grýtt.

Þau hjónin, Sveinn og Jóhanna, eiga tvo syni : Björn, kaupmaður í Árnesi, kvæntur Kristjönu Sigurðardóttur Magnús, heima hjá foreldrum sínum. Hann er afbragðs smiður á hvað eina, sem hann leggur hönd að.

Sveinn hefir aðallega varið tímanum, sem hann er búinn að vera á Hörghól, til að gera umbætur á landi sínu.

**Jónatan Jónsson,** fæddur á Marðarnúpi í Vatnsdal í Húnavatnssýslu 25. janúar 1842. Faðir hans var Jón Ketilsson, bóndi á Marðarnúpi ættaður sunnan úr Gullbringusýslu. Móðir Jónatans hét Katrín Oddsdóttir Björnssonar. Oddur bjó á Marðarnúpi 60 ár, byrjaði þar búskap tvítugur.

Jónatan var nýfæddur tekinn í fóstur á Hofi í Vatnsdal af Jónatan Oddssyni móðurbróður sínum og konu hans Sigríði Jónsdóttur; með þeim var hann í mörg ár.

Hann kvæntist árið 1876 Marsibil Jónsdóttur, bónda í Syðstahvammi, og konu hans Marsibilar Jónsdóttur. Hann flutti frá Kirkjuhvammi í Kirkjuhvammshreppi vestur um haf til Nýja Íslands árið 1887, var kominn til Gimli 24. september, var í Dagverðarnesi hjá Guðlaugi Magn-

ússyni fimm ár. Land nam hann í Árnesbygð árið 1892 og nefndi Brú. Kona Jónatans dó árið 1916. Börn þeirra hjóna eru: Marsibil Stefanía, ekkja eftir Þorfinn Helgason á Blómsturvöllum; Jóhann Valdimar, kvæntur Hólmfríði Eiríksdóttur bónda á Kárastöðum. Þau hafa á hendi póstafgreiðslu að Brú P.O., og búa á Brú.

**Sigurður Ólafsson**, fæddur á Saurum í Mýrasýslu, dáinn í Selkirk, Man., í janúarmánuði 1916. Hann flutti frá Brekku í Borgarhreppi til Ameríku fáum árum eftir 1880, nam land í Árnesbygð og nefndi Heggsstaði, bjó þar 14 ár, en flutti til Selkirk árið 1912. Kona hans hét Vigdís, dáin í Selkirk árið 1918, 88 ára gömul. Hún var Jónsdóttir, bónda á Heggsstöðum í Hnappadalssýslu. Börn þeirra hjóna voru fjögur, þrjú eru dáin; á lífi er sonur, sem Jón heitir, og býr í Geysirbygð.

**Ísleifur Helgason**, fæddur á Innri Ásláksstöðum á Vatnsleysuströnd í Gullbringusýslu 3. janúar 1867. Foreldrar hans voru Helgi Gunnlaugsson, bóndi á Ásláksstöðum, ættaður úr Borgarfirði syðra, af Stóra-Krossætt, og kona hans Herdís Hannesdóttir, bónda á Hjalla í Ölvesi í Árnessýslu, Guðmundssonar, bónda á Hjalla. Móðir Herdísar hét Guðlaug Sæfinnsdóttir. Hún var fyrsta kona Hannesar, sem var þrígiftur og átti 33 börn. Systir Herdísar var Oddný, sem nam Oddnýjarstaði í Árnesbygð. Fjögur systkini Ísleifs, sem seinna verður getið, námu lönd í Árnesbygð: Guðlaug, kona Eiríks á Kárastöðum; Gunnlaugur á Jaðri, Þorfinnur á Blómsturvöllum og Guðmundur á Fróni.

Systkin þessi mistu föður sinn þegar þau voru á barnsaldri. Helgi druknaði í mannskaðaveðri, er gerði á öndverðri vetrarvertíð árið 1870. Hann var á skipi við fjórða mann, er allir fórust, auk fleiri, sem druknuðu þann sama dag.

Ísleifur ólst upp hjá móður sinni, flutti ásamt henni og Gunnlaugi bróður sínum til Ameríku árið 1885; þau komu í júnímánuði til Winnipeg.

Fyrstu tvö árin hér í landi vann Ísleifur mest á járnbrautum; settist að á Skógarströnd (vanalega kallað Strönd) í Árnesbygð árið 1887. Móðir hans setti heimilisrétt á landið (landið Strönd) og innvann sér eignarrétt á því.

Frumbyggi á Strönd var Guðmundur Sigurðsson, bróðir Jósefs sem bjó á Melstað í Víðirnesbygð.

Árið 1888 nam Ísleifur land í Árnesbygð og nefndi Brautarholt, flutti þangað og hefir síðan búið þar, fyrst með móður sinni; hafði hann þá greiðasölu í nokkur ár, því umferð var mikil um þjóðveginn, sem liggur á milli lands hans og þess, sem móðir hans nam. En fá hús voru á þeim tíma með fram veginum, og gistu þá margir í Brautarholti.

Árið 1894 tók Ísleifur til sín ekkju, Oddfríði Þorleifsdóttur, ættaða af Skarðsströnd í Dalasýslu. Hún kom til Ameríku árið 1887. Foreldrar hennar voru hjónin Þorleifur Bjarnason og Guðrún Sveinbjarnardóttir, sem bjuggu í Búðarnesi í Stykkishólmi á Breiðafirði.

Tveggja ára gömul var Oddfríður tekin til fósturs af Jóni Ormssyni á Skarðströnd, og ólst hún þar upp þar til hún var 16 ára gömul, er hún fór að Skarði á Skarðströnd sem vinnukona og var þar nokkur ár. Hún giftist Guðmundi Ólafssyni ættuðum úr Borgarfirði, og bjuggu þau á Skipaskaga; börn þeirra voru fjögur og eru tvö á lífi: Guðríður og Ólafur, bæði í Winnipeg.

Oddfríður nam land í Árnesbygð og nefndi Mýrarhús, og innvann sér eignarrétt á því.

Ísleifur hefir búið með Oddfríði síðan hann tók hana til sín og hafa þau átt þrjú börn, er heita: Ísleifur, fæddur 28. marz 1896; Herdís Petrína, fædd 4. apríl 1899; og Guðmundur, 16. september 1901.

Ísleifur hefir stundað kvikfjárrækt og nokkra akuryrkju, en jafnframt stundað fiskiveiðar á vetrum og sumrum.

Þrisvar hefir Ísleifur farið sér til skemtunar vestur á Kyrrahafsströnd og hefir stundað laxveiði þar part úr sumrum þeim sem hann hefir verið vestur frá. Drengi sína hefir hann tekið með sér vestur, í sitt sinnið hvern, til að lofa þeim að sjá hið fagra útsýni vestur á ströndinni.

Ísleifur Helgason hefir fylgst töluvert vel með þjóð- og stjórnmálum hér vestra. Hann var þrjú ár í sveitarráði Gimli-sveitar, árin 1913—1915; fyrsta árið, sem hann var í sveitarráðinu, komst sveitarskifting Gimli-sveitar á, og átti Ísleifur góðan þátt í að fá því komið í framkvæmd. Það hafði all-lengi áður verið reynt en ekki tekist. Hafði sveitarskifting sú góðar afleiðingar, svo að sveitin (Gimlisveit) komst úr öllum skuldum, en var áður komin í stór-

skuldir undir umsjón Galicíumanna, en við sveitarskiftinguna komst meira jafnvægi á og hefir alt gengið vel síðan.

Við ýms önnur bygðarmál hefir Ísleifur verið riðinn, oftast nær verið settur kjörstjóri í sínu bygðarlagi, við bæði sveitar,- fylkis- og sambandsþings-kosningar, þegar hann hefir verið heima, og einnig stundum við skrásetning kjörlista og fleira.

Skólanefndarmaður hefir Ísleifur verið lengst af, síðan hann kom til Nýja Íslands. Verið skrifari og féhirðir skólahéraðs síns í 17 ár. Einnig verið skrifari og féhirðir lestrarfélags suðurparts Árnesbygðar, og enn fremur verið í safnaðarnefndum bygðarinnar á ýmsum tímabilum.

**Gunnlaugur Helgason**, fæddur á Innri Ásláksstöðum 6. febrúar 1859, dáinn 20. maí 1919.

Gunnlaugur var 11 ára gamall, þegar faðir hans druknaði. Fór hann þá, þó ungur væri, að hjálpa móður sinni að stjórna búinu, gerði það í mörg ár, fyrst á Ásláksstöðum og svo suður í Vogum í sömu sveit. Þaðan flutti hann vestur um haf til Nýja Íslands árið 1885, nam land í Árnesbygð og nefndi Jaðar. Árið 1885 kvæntist hann Jóhönnu Helgu Sigurðardóttur bónda á Ferjukoti í Borgarfirði og konu hans Guðrúnar Þorsteinsdóttur frá Insta-Vogi á Akranesi.

Gunnlaugur misti konu sína 13. september 1895. Börn þeirra voru fjögur og dóu tvö ung, á lífi eru: Helgi Hermann, þýr á Jaðri; Sigrún Ingibjörg, gift Hannesi Líndal hveitikaupmanni í Winnipeg.

Gunnlaugur kvað hafa verið starfsmaður og vel að sér gjör. Hann stundaði aðallega landbúnað í Nýja Íslandi.

**Guðmundur Helgason**, fæddur á Ásláksstöðum 16. marz 1868, var tveggja ára, þegar faðir hans druknaði; hann var hjá móður sinni til þess hann var 17 ára gamall, fór þá til Austfjarða og var eitt sumar í Mjóafirði, en næsta vetur á Reyðarfirði hjá Norðmönnum, svo eitt ár á Kolmúla í Reyðarfirði og þaðan flutti hann til Ameríku árið 1887, vann fyrst í tvö sumur á járnbraut, en var á vetur hjá móður sinni á Strönd í Árnesbygð. Hann vann land í Árnesbygð og nefndi Frón, flutti þangað árið 1894, og hefir síðan búið þar. Guðmundur hefir stundað fiskiveiðar bæði sumar og vetur norður á Winnipegvatni og tvö sumur verið við laxveiðar vestur á Kyrrahafsströnd.

Árið 1889 kvæntist Guðmundur Önnu Helgu Helgadóttur. Hún er fædd í Krossgerði á Berufjarðarströnd í Suðurmúlasýslu 5. september 1865. Faðir hennar var Helgi Gunnlaugsson bónda í Flögu í Breiðdal, Bjarnasonar, og konu hans Helgu Þorvarðsdóttur frá Höskuldsstöðum Gíslasonar. Móðir Önnu, kona Helga Gunnlaugssonar, hét Sigríður Gísladóttir Halldórssonar; móðir hennar hét Anna, náskyld Kristbjörgu sálugu Magnúsdóttur, móður Magnúsar Bjarnasonar söguskálds.

Anna var fárra vikna gömul tekin til fósturs af móðurforeldrum sínum og var hjá þeim til þess hún var sex eða sjö vetra gömul, fór þá aftur heim til foreldra sinna, sem þá bjuggu í Gautavík á Berufjarðarströnd og var hjá þeim til sextán ára aldurs; eftir það var hún í vistum, fyrst tvö ár í Stöðvarfirði, annað árið þar á Söndum hjá Sigurði Daníelssyni og konu hans Guðrúnu Guðmundsdóttur og með þeim fluttist hún austur að Kolmúla í Reyðarfirði og var þar hjá þeim til þess hún fluttist vestur um haf árið 1888, kom til Winnipeg í ágúst, fór strax til Nýja Íslands og settist að á Strönd í Árnesbygð hjá tengdamóður sinni sem varð, Herdísi Hannesdóttur.

Þau hjónin, Guðmundur og Anna, hafa alið upp tvær stúlkur, systkinabörn Guðmundar, er heita: Sigrún Ingibjörg Gunnlaugsdóttir Helgasonar, bróðurdóttir hans, tóku hana tveggja ára gamla, þegar móðir hennar dó. Hin stúlkan er Anna Helga Eiríksdóttir frá Kárastöðum og Guðlaugar Helgadóttur systur Guðmundar. Anna er skólakennari í syðra skólahéraði Árnesbygðar.

Tvö önnur fósturbörn eru hjá þeim hjónum, börn Þorfinns Helgasonar, bróður Guðmundar, og konu hans Marsibilar Jónsdóttur. Þau heita Guðmundur Ágúst og Kristín. Hafa þau verið hjá þeim síðan faðir þeirra dó. Auk þessara barna, sem hér eru talin, hafa veið hjá þeim fleiri börn lengri og skemmri tíma.

**Þorfinnur Helgason**, fæddur á Ásláksstöðum 3. ágúst 1865, dáinn 21. apríl 1916. Hann fór austur á Seyðisfjörð árið 1885 og vann þar sjávarvinnu í tvö ár; til Ameríku flutti hann árið 1887, vann í átta ár við fiskiveiðar og flutninga á Winnipegvatni, og stundaði landvinnu þar til hann nam land í Árnesbygð árið 1895 og nefndi Blómsturvelli; þar bjó hann til þess hann lézt.

Kona Þorfinns, Marsibil Stefanía Jónatansdóttir bónda á Brú. Börn þeirra eru: Jónatan, kvæntur Ingibjörgu

Jóhannsdóttur Sólmundssonar; Helgi Þorfinnur, Marsibil, Agnes, Jóhann, Herdís, Kristín, Guðmundur Ágúst, Elísabet, Guðný.

**Eiríkur Eiríksson,** fæddur á Tröðum í Hraunhreppi í Mýrasýslu 25. júlí 1861. Eiríkur Sigurðsson faðir hans er á lífi, þegar þetta er ritað, hjá syni sínum á Kárastöðum, 87 ára gamall. Hann bjó á Tröðum og líka á Alftárbakka í Álftaneshreppi í sömu sýslu, flutti þaðan til Vesturheims árið 1904. Sigurður faðir hans bjó síðast á Tjaldbrekku, býli sem hann bygði inn við afréttir í Hraunhreppi. Kona hans, móðir Eiríks á Tröðum, hét Hólmfríður Eiríksdóttir bónda á Ketilsstöðum í Hörðadal í Dalasýslu, en kona Eiríks á Tröðum, móðir Eiríks yngra, hét Guðrún Sigurðardóttir, bónda á Tröðum, ættaður úr Snæfellsnesýslu; kona hans hét Ástríður.

Eiríkur misti móður sína þriggja ára gamall; var hann eftir það með föður sínum til þess hann var um tvítugt. Fór hann þá suður á Vatnsleysuströnd, stundaði þar sjávar atvinnu um hríð, sem háseti hjá Gunnlaugi Helgasyni, sem seinna varð mágur hans; byrjaði að stunda sjávarvinnu 16 ára gamall. Hann kvæntist 23. október 1883 Guðlaugu Helgadóttur Gunnlaugssonar, sem áður er nefnd. Hún er fædd á Ásláksstöðum 26. desember 1857.

Eftir að Eiríkur giftist var hann í Stapabúð í Vogum tvö ár, fór svo vestur á Mýrar að Álftárbakka og var þar hjá föður sínum til heimilis í fimm ár, vann á sumrum landvinnu en sjávarvinnu á vetrum og á vorin. Hann flutti frá Álftarbakka árið 1890 vestur um haf til Nýja Íslands og var þar fyrst í fimm ár í Brautarholti hjá Ísleifi Helgasyni mági sínum, vann á sumrum norður á vatni við að frysta fisk.

Árið 1895 nam Eiríkur land í Árnesbygð og nefndi Kárastaði, lét það heita því nafni, af því honum þótti þar stormasamt. Hann hefir gert miklar umbætur á landi sínu, nærri hreinsað af því allan skóginn og allar byggingar hjá honum eru mjög myndarlegar.

Börn þeirra hjóna voru 11, af þeim eru átta á lífi: 1. Herdís, gift Helga Þórðarsyni; þau bjuggu um tíma á heimilisréttarlandi sínu í grend við Kárastaði, búa nú í grend við Winnipeg; 2. Guðrún, hjúkrunarkona í Winnipeg; 3. Eiríkur Óskar, kvæntur Ingibjörgu Elínu Bell, enskri í föðurætt, þau búa á Kárastöðum; 4. Hólmfríður,

gift Jóhanni Valdimar Jónatanssyni á Brú, sem áður er getið; 5. Jóhanna Helga, gift hérlendum manni; 6. Anna Helga, skólakennari í syðra skólahéraði Árnesbygðar, sem áður er getið í þætti fósturforeldra hennar, Guðmundar og Önnu á Fróni; hún vinnur hjá Eaton félaginu í Winnipeg við peningaskifting; 7. Guðlaug, 8. Helgi.

**Egill Jónsson,** fæddur í vík á Vatnsleysuströnd 11. maí 1865. Egill er bróðir Jóns í Fagranesi. (Sjá um ætt þeirra bræðra í þætti Jóns hér að framan.)





*Egill J. Þorkelsson og Ragnhildur Magnúsdóttir.*

Egill ólst upp hjá foreldrum sínum og var hjá þeim þar til hann kvæntist 24. október 1894. Kona hans er Ragnhildur Magnúsdóttir Benediktssonar og konu hans Sigríðar Erlendsdóttur, er lengi bjuggu í Þerney við Reykjavík.

Ragnhildur ólst upp hjá ömmu sinni, Ragnhildi Nikulásdóttur í Móakoti á Vatnsleysuströnd, var þar til þess hún var 16 ára gömul, er amma hennar dó. Fluttist hún þá til Reykjavíkur til séra Stefáns Thorarensens og var hjá honum í þrjú ár, fór svo að Flekkuvík og giftist þar.

Egill og Ragnhildur bjuggu sex ár í Flekkuvík, fluttu þaðan árið 1900 vestur um haf til Nýja Íslands og voru fyrsta veturinn þar í Fagranesi hjá Jóni bróður Egils. Nam Egill svo land í Árnesbygð árið 1901 og nefndi Borg, og hefir síðan búið þar.

Börn þeirra hjóna eru fimm: Magnús býr á Borg,

kvæntur Sigríði Pálmadóttur Lárussonar; Ragnhildur Helga, heima á Íslandi; Guðjón, býr í Straumnesi í Fljótsbygð, kvæntur Sigríði Stefaníu Björnsdóttur; Sigríður, gift Frank Peatfield, búa í Winnipeg; Arndís hjá foreldrum sínum heima.

**Hjörtur Guðmundsson**, fæddur í Gerðakoti í Vatnsleysustranda hreppi í Áslákssstaða hverfi í Gullbringusýslu 27. september 1853. Faðir hans var Guðmundur Þorkelsson bóndi í Gerðakoti. Þorkell bjó á Stóru Ásláksstöðum í sama hreppi. Kona hans, móðir Guðmundar, hét Sigríður Guðmundsdóttir bónda á Hjalla í Ölvesi. Móðir Hjartar, kona Guðmundar í Gerðakoti, hét Guðrún Einarsdóttir bónda á Hlöðversnesi í samahrepp. Einar var nafnkendur maður fyrir lækningar og hjúkrunarstörf.

Hjörtur ólst upp hjá foreldrum sínum í Gerðakoti til 15 ára aldurs. Þá dó móðir hans og var hann eftir það í ýmsum vistum þar til hann árið 1886 kvæntist Guðrúnu Sigurveigu Guðmundsdóttur bónda í Gaulhúsum í Gaulverjabæjar hverfi, og konu hans Þuríðar Jónsdóttur bónda í Naustakoti í Kálfatjarnar hverfi á Vatnsleysuströnd. Jón var smiður góður og var kallaður Jón smiður, stundaði lækningar og hafði almenningsorð á sér fyrir hjálpsemi. Þegar hann var látinn, ortu nokkrir vinir hans um hann minningarvers, og er eitt hér ritað.

Hann fagnað fékk,
farsæld náungans glaður,
lífsgötu gekk,
góður samverkamaður,
Styrkmikil, nákvæm og starfandi hönd
steinum úr veginum ruddi,
hjúkraði sjúkum af hugblíðri önd,
hreinskilinn meðbræður studdi.

Hjörtur bjó mestallan sinn búskap á Íslandi á Grænagarði í Leiru í Útskálasókn í Gullbringusýslu. Í Stapakoti í Innri Njarðvíkum bjó hann tvö ár, flutti þaðan til Ameríku árið 1899, var í Winnipeg fyrsta sumarið eftir að vestur kom; fór til Nýja Íslands um haustið, var yfir veturnn á Fróni hjá Guðmundi Helgasyni, nam land í Árnesbygð næsta vor og nefndi Fögruvelli; þar hefir hann búið síðan.

Börn þeirra hjóna voru átta, og eru sex á lífi: Dóttir, sem Þuríður hét, dó í Winnipeg árið 1913, átti hérlendan mann og hafa foreldrar hennar son hennar í fóstri, er heit-

ir Tómas Alexander. Börnin, sem lifa, eru: 1. Guðrún, ekkja eftir enskan mann í Edmonton; 2. Sigurjóna, gift hérlendum manni í Winnipeg; 3. Árni, býr í Winnipeg, giftur Sesselju dóttur Gunnsteins heitins Eyjólfssonar á Unalandi; 4. Anna Sigurlaug, gift hérlendum manni í Edmonton; 5. Hjörtur; 6. Guðrún Sigurveig.

**Jón Jónsson Melsteð**, fæddur á Krákárbakka í Mývatnssveit, 27. maí 1864. Jón er albróðir Bjargar konu Alberts á Mel, en hálfbróðir Jakobínu í Straumnesi í Fljótsbygð (þau eru samfeðra).

Jón var að mestu leyti hjá foreldrum sínum til þess hann var ellefu ára gamall, er móðir hans dó. Fór hann þá að Hofsstöðum við Mývatn og þaðan eftir tvö ár að Grænavatni í Mývatnssvet; eftir nokkurra ára dvöl þar fór hann austur að Hólsseli á Hólsfjöllum til Kristjáns bónda Jóhannssonar og föðursystur sinnar, Karólínu, og var þar þrjú ár og eitt ár í Fagradal í sömu sveit. Árið 1885, á sumardaginn fyrsta (23. apríl) kvæntist hann Elínu Jónsdóttur, systur Alberts á Mel og Sigurjóns í Odda.

Jón fór frá Hólsseli að Hrappsstaðaseli í Ljósavatnshreppi og var þar eitt ár, og á Nýjabæ á Hólsfjöllum tvö ár og eitt ár austur í Vopnafirði. Þaðan flutti hann vestur um haf til Nýja Íslands 1889, nam land í Árnesbygð og nefndi Nýjabæ, eftir Nýjabæ á Hólsfjöllum. Á því landi var frumbyggi Pálmi Hjálmarsson frá Þverárdal, og nefndi hann landið Eiða, en Jón Melsteð breytti nafninu.

Börn Jóns og Elínar voru sex, og eru fjögur á lífi: 1. Axel Ingimar, býr í Hnausabygð, kvæntur Guðrúnu Hallsdóttur frá Flugustöðum; 2. Albína Kristín Hólmfríður, gift canadiskum manni, búa fyrir austan Winnipeg; hún hefir verið þar skólakennari í þrjú ár og víðar í fylkinu. 3. Jón Sigurvin. 4. Kristján Lífmann Guðlaugur.

**Jón Jónsson**, bóndi í Hörgsdal í Mývatnssveit, bróðir Jónasar, sem bjó á Hulduárhvammi í Árnesbygð.

Jón flutti frá Hrappsstaðaseli í Ljósavatns hreppi vestur um haf til Nýja Íslands árið 1888, settist að í Árnesbygð, var fyrsta árið þar í Hulduárhvammi hjá Jónasi bróður sínum, fór svo að Mel og var þar fjögur ár; árið 1895 flutti hann að Litlaskógi, setti heimilisrétt á landð og nefndi bæ sinn, sem hann bygði þar, Odda, af því landið var í odda-"section". Hann bjó í Odda til þess hann lézt

árið 1908. Kona hans, Margrét Ingiríður Árnadóttir, dó árið 1903. Börn þeirra voru sjö, og eru fimm á lífi: Albert, bóndi á Nýjabæ; Elín, kona Jóns Jónassonar Melsteðs á Nýjabæ; Sigurjón, býr í Odda; Árni, býr í Winnipeg, kvæntur Sesselju Björnsdóttur frá Selstöðum í Seyðisfirði; Herdís, gift Ólafi Ólafssyni, búa í Hnausabygð.

**Guðmundur Erlendsson,** fæddur á Rjúpnaseli í Mýrasýslu 10. Apríl 1858. Faðir hans var Erlendur Þórðarson, bóndi í Skíðsholti í sömu sýslu og líka í Rjúpnaseli. Móðir Guðmundar, kona Erlendar, hét Þorbjörg Sigurðardóttir bónda í Lágafelli í Miklaholtshreppi í Hnappadalssýslu.

Guðmundur misti móður sína nýfæddur; var hann þá tekinn í fóstur af hjónum, Sigurði Þorbjörnssyni og Ástríði, er bjuggu á Tröðum í Mýrasýslu, og var hann þar sjö ár, þar til árið 1865 að fóstra hans dó. Fluttist hann þá að Saurum í sömu sýslu, til Jóns bónda Þorvaldssonar og konu hans Guðrúnar Daníelsdóttur, og var þar til þess hann var 18 ára. Eftir það var hann á Álftá í sömu sýslu fjögur ár, og á Vatnsnesi í Keflavík í Gullbringusýslu fjögur ár, og vann þar mikið að sjósókn, var formaður í vertíðum fyrir Guðmund bónda á Vatnsnesi, sem hann var vinnumaður hjá.

Guðmundur fór frá Vatnsnesi að Innrahólmi á Akranesi, þar kvæntist hann 17. maí 1885 Sigurlaugu Jónsdóttur Jóhannessonar, frá Grímsstöðum í Álftaneshreppi. Móðir Sigurlaugar hét Þjóðbjörg Sigurðardóttir, ættuð úr Borgarfirði. Móðir Þjóðbjargar hét Guðrún Salómonsdóttir.

Guðmundur bjó, eftir að hann gftist, í Akraneshreppi í níu ár og tvö ár á Brekku í Borgarhreppi. Þaðan flutti hann til Ameríku árið 1896. Árið 1898 tók hann heimilisréttarland í Árnesbygð í Nýja Íslandi; það land hafði, sem áður er getið, numið í fyrstu landnámstíð Jónas frá Hrærekslæk og nefnt Lund.

Guðmundur bjó í Lundi til þess hann árið 1910 flutti til Selkirk og hefir síðan búið þar.

Börn Guðmundar og Sigurlaugar eru þrjú: Þjóðbjörg Sigurrós, gift enskum manni, þau búa í Winnipeg; Sigurást, ekkja eftir enskan mann, býr í Winnipeg; Sigurmundur, býr í Selkirk, kvæntur Idah Violet, dóttur Péturs Olsens, sænsks manns, og konu hans Guðnýjar Jónsdóttur Eiríkssonar frá Lundi í Víðirnesbygð.

**Sigurjón Jónsson**, fæddur í Laufaseli í Helgastaðahreppi í Reykjadal 16. ágúst 1864. Hann var hjá foreldrum sínum til níu ára aldurs og svo á ýmsum bæjum til þess hann flutti frá Hólsseli á Hólsfjöllum til Ameríku



*Guðrún Þorvaldsdóttir.*



*Sigurjón Jónsson.*

árið 1887, var í Winnipeg tvö ár og hálft, fór í febrúar árið 1890 vestur að hafi og var þar rúm tvö ár, vann um tíma daglaunavinnu í Seattle, stundaði svo laxveiði í tvö ár; fór austur til Winnipeg 1892; var þá lítið um atvinnu þar, svo hann fór suður til Dakota og var þar tvö ár og hálft; að þeim tíma liðnum fór hann til Nýja Íslands, nam land í Árnesbygð (landið Mörk, sem hafði í fyrstu landnámstíð verið numið af Sigfúsi Þórarinssyni frá Eyjaseli í Jökulsárhlíð, sem áður er getið.)

Kona Sigurjóns er Guðrún Þor-

valdsdóttir, fyrrum bónda í Víðidalstungu í Árnesbygð, sem getið er hér að framan. Þau giftust árið 1896. Börn þeirra eru níu: 1. Þorvaldur, stundar háskólanám og kenslu á sumrum í Saskatoon, Sask.; 2. Þuríður, barnaskólakennari að Árnesi; 3. Þorvaldur Bergsveinn; 4. Jón Marínó; 5. Ólafur; 6. Albert Björgvin; 7. Petrína Sigurrós; 8. Margrét Kristjana; 9. Júlíana Ingibjörg.

Sigurjón flutti að Odda til foreldra sinna stuttu eftir að hann settist að í Árnesbygð og hefir síðan búið þar.

*Arnljotur B. Olson*



## Eftirmáli.

Pósthús var stofnað í Árnesbygð árið 1888. Sigurður Sigurbjörnsson var kosinn póstafgreiðslumaður.

Skólahérað var myndað árið 1889. Fundur var haldinn 22. júlí og þá kosin skólastjórn og ráðinn fyrsti kennari Jóhann Magnús Bjarnason. Skólahús var bygt árið 1896. Svo eftir nokkur ár var skólahéraðinu skift í tvent, myndað nýtt skólahérað í suðurparti bygðarinnar og kallað Arnes South School District.

Lestrarfélag var stofnað árið 1910 og nefnt Frón. Nú eru tvö lestrarfélög í bygðinni.

Búið er að endurreisa Árnessöfnuð árið 1901. Fundur er haldinn 8. janúar það ár og séra Rúnólfur Marteinsson kosinn prestur safnaðarins.

Kirkja Árnessafnaðar var bygð árið 1911.

---

## Leiðréttingar á villum í Broti af landnámssögu Nýja Íslands.

Á blaðsíðu 32 stendur, að bólan hafi fluzt til Nýja Íslands árið 1876 með Jóni frá Brenniborg í Skagafirði, í klæði, sem hann hafði keypt í Quebec. Það var ekki víst, að veikin flyttist í klæðnaðinum, en að eins ímyndun manna. En Jón var fyrsti maðurinn, sem veiktist af bólunni í nýlendunni.

Á 40. bls., í byrjun þáttar Hálfdáns Sigmundssonar, stendur Barkarvöllum, en á að vera Bjarkarvöllum.

Bls. 44, í þætti Lárusar Björnssonar, stendur Skútastöðum fyrir Skíðastöðum. — Á sömu bls.: Stærð hússins Bólu var 14 fet á lengd, 12 á breidd, er ekki rétt; það var 12 fet á breidd og 18 fet á lengd.

Á Bls. 45, í þætti Björns Hjörleifssonar, er ekki rétt, að móðir Einars Þorvarðssonar á Hafursá hafi heitið Sigríður; hún hét Ólöf.

Á bls. 53, í endir 2. línu að ofan, lesist: Unnsteinn Vilberg.

Á 58. bls. stendur Margrét Sveinborg Jóhannsdóttir, en á að vera Jóhannesdóttir; foreldrar Margrétar voru Jóhannes Jóhannsson, bóndi á Árbakka í Fljótsbygð og kona hans Margrét Sigurðardóttir.

Bls. 59: Kona Sigurðar á Keldulandi heitir Ingibjörg Björnsdóttir, en ekki Sigríður.

Á bls. 60 er ekki rétt, að móðir Jóhannesar á Árbakka héti Þóra Eiríksdóttir Jóhannssonar. Hún hét Þóra Eiríksdóttir frá Héraðsdal, Eiríkssonar frá Litluhlíð.

Á bls. 61 er sagt, að Magnús Guðmundsson, frumbyggi á Húsabakka, flytti til Dakota. Hann dó á Húsabakka árið 1880.

Á bls. 61 er rangt, að Einar Þorkelsson í Fljótstungu, dáinn 1907, væri fæddur í Norðfirði; hann var fæddur í Mjóafirði. Líka er rangt, að ekkja hans heiti Guðlaug, hún heitir Ingibjörg Gísladóttir frá Hofströnd í Borgarfirði eystra.

Á bls. 62, í barnatali Jóhannesar Helgasonar á Reynivöllum og fyrri konu hans, er rangt, að annað og þriðja í röðinni séu dætur, Helga og Jóhanna; það eru synir, er heita Helgi og Jóhannes.

Á bs. 64, í 6. línu að ofan, er Geitadal, lesist Geitdal; í 9. línu er Geitvík, lesist Geitavík

Á bls. 65, í endir fyrstu línu að ofan, á að vera Vigdís, en ekki Kristbjörg. Á sömu bls. í 6. línu að ofan, á að vera Emil Karl, en ekki Eiríkur Karl. Emil er sonur Jakobínu í Straumnesi. Hann var eitt ár í herþjónustu.

Á bls. 66, í 4. línu að ofan, er Svarfaðardal, lestist Svartárdal. — Á sömu bls. í 13. línu að neðan talið, lesist Héraðsdal, ekki Héraðssveit. — Í 17. línu að neðan talið á sömu bls., er Hanssonar, lesist Hannessonar.

Á bls. 71, í endir 25. línu að ofan talið, er Pétur Björnsson, lesist Bjarnason.

Á bls. 72, í 5. línu að ofan, er sagt að kona séra Þorsteins á Krossi í Landeyjum hafi heitið Herdís; það er ekki rétt, hún hét Margrét Hjörleifsdóttir. Herdís hét systir hennar.

Bls. 74: Fimta barn Ólafs og Kristbjargar í Fagraskógi heitir Björn, en ekki Ólafur.

Á bls. 75 átti að vera í þætti Páls Jóhannssonar: Móðir Páls hét Margrét Þórarinsdóttir frá Víkingavatni í Kelduhverfi. En móðir hennar var Björg Sveinsdóttir frá Hallbjarnarstöðum.

Á bls. 81, í þætti Jóns Björnssonar, 4. línu að ofan, lesist: Ásunnarstöðum.

Á bls. 84, í barnatali Guðmundar Marteinssonar í Garði, átti að vera: 6. barn Guðmundar og annarar konu hans Kristínar Gunnlaugsdóttur, er Sigrún, kona Oddleifs Gestssonar, Oddleifssonar.

Á bls. 85, í byrjun 1. línu að ofan, lesist: Þórunn Björg Pétursdóttir.

Neðst á bls. 90 lesist: Guðný Skúladóttir.

Arnljótur B. Olson

Leiðréttingar: — Á 42. blaðsíðu, í fyrirsögn fyrir kafla úr bréfi, stendur 1873, en á að vera 1874.—Á 57. bls. í 8. línu að ofan, stendur Manaskála, á að vera Mánaskál. — Á bls. 103 stendur, í enda bréfs, Jón Straumfjörð, lesist Jóhann Straumfjörð. — Á bls. 143, í 3. línu að ofan, í þætti Magnúsar Jónassonar, lesist fæðingarártal hans 1848; í 4. línu: bóndi, ekki bónda; í sama þætti á bls. 42, í 6. línu að ofan, lesist ártal 1876, ekki 1878. — Nærri neðst á bls. 149, þar sem minst er Ólafs Árnasonar, hefir prentast 1867, á að vera 1876. — Á bls. 156, í þætti Sigfúsar á Ljósalandi, í 7. línu að neðan talið, lesist Reykhólum, ekki Reykjum. — Á bls. 169 í myndalínu hjónanna á Eyjólfsstöðum í Hnausabygð, er rangt Ingibjörg Magnúsdóttir, á að vera Ingibjörg Magnússon.